# Tímarit

## Þjóðræknisfélags Íslendinga





XVI. ÁR

WINNIPEG, MANITOBA



# Eldur! Eldur! Eldur!

## Borgun fyrir eldskaða með vátryggingargjöldum er sjálfsálögu skattur

Eyðilegging af völdum elda er mál, sem snertir heila landið, en greinist frá hinum öðrum alþjóðar málum, svo sem innflutningaeða samgöngumálum á þann hátt, að við það verður að fást á hverjum stað út af fyrir sig. Ef sérhvert hérað getur minkað þann skaða, sem hlýst á lífi og eignum af þessum orsökum, þá er að sama skapi dregið úr alþjóðar tapi. Hvetja skyldi því til héraðs samtaka á allan hugsanlegan hátt þar sem þeim verður komið við. Þó það sé nauðsynlegt að hafa sem fullkomnasta vernd gegn eldi, er hitt þó samt ekki mannúðlegra og ábatasamara að efla og fullkomna sem bezt allar eldvarnir?

## Eldur veldur oft ólýsanlegum hörmungum

---

## Eldskaði í Manitoba yfir árið 1933

Tuttugu og sjö (27) mannslíf, $1,146,000 í eigna missir. Allir geta stutt að því að gjöra Manitoba trygt gegn eldi! Koma má í veg fyrir flesta bruna, með vanalegri aðgæzlu. Manitobabúar geta varnað þessu stórkostlega eldtjóni á lífi og eignum með því að viðhafa algenga varúð.

---

Gefið út í umboði fylkisins

**HON. W. R. CLUBB**
Minister of Public Works
and Labor and Fire
Prevention Branch

**E. McGRATH**
Provinical Fire Commissioner,
Winnipeg

# Tímarit

## Þjóðræknisfélags Íslendinga

## XVI. Árgangur

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megni að Íslendingar megi verða sem beztir borgarar í hérlendu þjóðlífi.

2. Að styðja og styrkja íslenzka tungu og bókvísi í Vesturheimi.

3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli og hvetja vill þá til framsóknar og virðingar til jafns við þá þjóðflokka aðra er þetta land byggja.

Hver einasti Íslendingur í þessu landi ætti að vera í félaginu. Ársgjald fyrir fullorðna er $1.00, unglinga frá 10 til 18 ára, 25 cent, börn innan 10 ára aldurs, 10 cent. Hver skilvís félagsmaður, er greiðir $1.00 tillag, fær tímarit félagsins ókeypis.

Markmið félagsins er, að vinna að framförum og samheldni meðal Íslendinga hér í álfu, og hjálpa til þess, að unglingum gefist kostur á að læra íslenzku, eftir því sem ástæður foreldranna kunna að leyfa.

Aðrar upplýsingar um félagið veitir "Félagsstjórnin," og má skrifa til hennar. Inngangseyrir og ársgjöld sendist "Fjármálaritara," en áskriftargjald að Tímaritinu "Skjalaverði."

*Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi*
Winnipeg, Manitoba.

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1933-34

*A. Heiðursfélagar:*

Próf. Árni Pálsson,
Reykjavík, Ísland
Einar H. Kvaran, rith.,
Reykjavík, Ísland
Jóhannes Jósefsson,
Reykjavík, Ísland
Próf. Sigurður Nordal,
Ph. D.,
Reykjavík, Ísland
Ragnar E. Kvaran,
Skrifstofu stjóri,
Reykjavík, Ísland
J. Magnús Bjarnason, rith.,
Elfros, Sask.
Próf. Halldór Hermannsson,
Ithaca, N. Y. U.S.A.
Dr. Vilhjálmur Stefánsson,
LL.D.,
New York, N. Y., U.S.A.

*B. Æfifélagar:*

Þorgils Þorgeirsson,
Winnipeg, Man.

*C. Ársfélagar:*

1. ÍSLAND

Einar Gunnlaugsson,
Stóra Sandfelli,
Skriðdal um Reiðarfj.
Jónas Jónasson,
Reykjavík
Mrs. Jónas Jónasson,
Reykjavík
Jónas Thordarson,
Ljósalandi í Vopnafirði
Séra Benjam. Kristjánsson,
Ytri Tjörnum,
Eyjafjarðarsýsla
Séra Friðrik A. Friðriksson
Húsavík, S. Þing.sýsla
Halldóra Sigurjónsson,
Reykjavík
Séra Jakob Jónsson,
Nes í Norðfirði, S. Múl.
Þ. Þ. Þorsteinsson,
Reykjavík, Ísland

2. CANADA

*Antler, Sask.*

Guðmundur Davíðsson
Bergvin Johnson
Magnús Tait

*Árborg, Man.*

Guðjón Abrahamson
Miss Halldóra Anderson
Björn Árnason
P. K. Bjarnason
Dr. S. E. Björnsson
Gerða Christopherson
Lúther A. Christopherson
G. O. Einarsson
Finnbogi Finnbogason
Jón Gíslason
Tryggvi Ingjaldsson
Böðvar H. Jakobsson
Eiríkur Jóhannsson
Eddy Johnson
K. Th. Johnson
S. S. Johnson
Marteinn M. Jónasson
B. J. Lífmann
Guðmundur Magnússon
Margrét G. Magnússon
Mrs. Sesselja Oddsson
Séra Sigurður Ólafsson
Mrs. Kristín Schram
Magnús Sigurðsson
S. Arthur Sigurðsson
Gunnar Sæmundsson

*Árnes, Man.*

Guðmundur Elíasson
Helgi Elíasson
Mrs. Anna H. Helgason
Ísleifur Helgason
Mrs. Guðrún Jónsson
Ólafur Jónsson
Jónas Ólafsson

*Ashern, Man.*
Sigurður Guðmundsson
Hermann Helgason
Guðmundur Pálsson
O. D. Thorlacius
Halldór Thorkelsson

*Baldur, Man.*
Sigurður Antoniusson
Jónas Björnsson
Ottó Björnsson
Kristján Ísfjörð
B. F. Ísberg
Fred Jóelsson
Ingi Johannsson
Thorfinnur Jóhannsson
J. K. Sigurðsson
Björgúlfur Sveinsson
Thorsteinn Sveinsson

*Bifröst, Man.*
Hallur F. Þorvarðsson

*Berensford, Man.*
Thorsteinn Thorsteinsson

*Brown, Man.*
Gísli Árnason

*Calgary, Alta.*
G. S. Grímsson
Sigurður Sigurðsson

*Cypress River, Man.*
Jón Th. Johnson
Magnús Nordal
M. J. Nordal
Sigurður Pétursson

*Eriksdale, Man.*
S. D. B. Stephanson

*Ebor, Man.*
Hinrik Johnson

*Geysir, Man.*
Þórður Anderson
Einar Benjamínsson
Miss Margrét Bjarnason
Björn Bjarnason
Jónas Björnsson
Tímóteus Böðvarsson
Mrs. J. Böðvarsson
G. O. Gíslason
G J. Magnússon
Gunnl. K. Oddson
Vilhjálmur Oddson
Vilhelm Pálsson
Friðfinnur Sigurðsson
J. G. Skúlason
Jón Skúlason

*Gimli, Man.*
Mrs. Christine Chiswell
Stefán Eiríksson
Guðmundur Fjeldsted
Freeman Freemansson
Jón Guðmundsson
Mrs. Ásdís Hinriksson
Elías Jóhannsson
Björn K. Jónsson
Lestrarfélagið "Gimli"
Séra Jóh. P. Sólmundsson
Guðni Thorsteinsson
Hjálmur Thorsteinsson

*Glenboro, Man.*
Páll Anderson
Kristján G. Anderson
Miss R. J. Davíðsson
Séra Egill H. Fáfnis
Jón Helgason
Theódór Jóhannsson
G. S. Johnson
Stefán S. Johnson
Alex Eldjárn Jónsson
Hans Jónsson
G. Lambertsen
P. G. Magnús
Tryggvi Ólafsson
G. J. Oleson
Árni J. Pálsson
H. Sigtryggsson

*Hayland, Man.*
Hávarður Guðmundsson
Sigurður B. Helgason
Geirfinnur Pétursson

*Hecla, Man.*
Finnur Bjarnason

*Hnausa, Man.*
Hallgrímur Austman
Frímann Frímansson
Gunnar Helgason
H. Hildibrandsson
Bjarni Marteinsson
Gísli Sigmundsson
Jón B. Snæfeld
Gestur Vídal
Mrs. Kristín Vídal
Sigvaldi Vídal
Miss Sigurrós Vídal
Miss Steina Vídal

*Hodgson, Man.*
Rögnvaldur S. Vídal

*Húsavík, Man.*
W. B. Arason

*Innisfail, Alta.*
Jóhann Björnsson

*Keewatin, Ont.*
Guðjón Hermansson
Bjarni Sveinsson
Mrs. Bjarni Sveinsson

*Langruth, Man.*
Sigurður Finnbogason
Mrs. S. Finnbogason
Jón Halldórsson
Böðvar Johnson
Björn Kristjánsson
Mrs. Ingibj. Kristjánsson
H. A. Thompson
Albert Thorðarson
John Thorsteinsson
Mrs. J. Thorsteinsson
Bjarni Tómasson

*Lundar, Man.*
Séra Guðm. Árnason
Gísli Grímsson
Eiríkur Hallsson
Phillip Johnson
Guðmundur Sigurðsson
Mrs. S. Sigurðsson

*Lethbridge, Alta.*
Mrs. Knight

*Markerville, Alta.*
Mrs. Helga Stephanson

*Moose Jaw, Sask.*
Mrs. Inga Thorlaksson

*Mozart, Sask.*
Jens Elíasson
Jón Arngrímsson

*Nek Westminster, B. C.*
Loftur Goodman

*Norwood, Man.*
Magnús Petersen

*Oak Point, Man.*
Björn Sigurðsson
Andrjes J. Skagfeld

*Oak View, Man.*
Sigurður Sigfússon
Búi Thorlacius

*Piney, Man.*
S. S. Anderson
Mrs. S. S. Anderson
Jóhannes Jóhannesson
S. J. Magnússon
Kristinn Norman
Thorsteinn Pétursson
P. S. Pétursson
Björn Stephansson
Guðmundur Thordarson
G. B. Thorvaldsson

*Poplar Park, Man.*
Sigurður Sigurðsson

*Powell River, B. C.*
Jón Sigurðsson

*Red Deer, Alta.*
Ófeigur Sigurðsson
Mrs. Kristín Sigurðsson

*Reykjavík, Man.*
Árni Björnsson
E. O. Erlendsson
G. Erlendsson
M. Erlendsson
Miss Margrét Erlendsson
Ingvar Gíslason
Ó. Gíslason
Mrs. Þóra Gíslason
T. Kjartansson
G. Ólafsson
Ingim. Ólafsson
O. W. Ólafsson
Á. Paulson
Óskar Sigurðsson

*Riverton, Man.*
Halldór Austmann
Jóhannes Helgason
Skúli Hjörleifsson
Pétur Jónasson
Séra E. J. Melan
Mrs. F. Sigurðsson
Sigurbjörn Sigurðsson
Jón Sigvaldason
Sveinn Thorvaldsson
Kristín Thorvaldsson

*Saskatoon, Sask.*
Próf. T. Thorvaldsson

*Selkirk, Man.*
Ásgeir Bjarnason

*Siglunes, Man.*
Ásmundur Freeman
Guðmundur Johnson

*Silver Bay, Man.*
Jón Björnsson
Júlíus Gíslason
Jón Gíslason
Hallur Hallsson
Björn Jónasson

*Steep Rock, Man.*
Hjörtur Guðmundsson
Guðmundur Hjartarson
Einar Johnson
Ó. J. Olson
Ólafía Vigfússon
Jón Stefánsson
Pálmi Stefánsson

*Stettler, Alta.*
M. Steinsson

*Swan River, Man.*
Halldór J. Egilsson

*Vancouver, B. C.*
Ben. B. Bjarnason
Mrs. H. S. Le Messurier

*Victoria, B. C.*
Christian Sivertz

*Víðir, Man.*
Jón Sigurðsson
V. Jóhannesson
Hjörtur Jónasson
Ingigerður Jónasson
Ingvar Th. Kristjánsson
Guðrún Magnússon
Franklin Pétursson
Guðrún J. Sigurðsson
Jón T. Sigurðsson

*Vogar, Man.*
Björn Eggertsson
Lestrarfél. "Herðubreið"
Jónas Kr. Jónasson
Guðmundur Jónsson

*White Rock, B. C.*
Th. G. Ísdal

*Winnipeg, Man.*
Jochum Ásgeirsson
Dr. Ágúst Blöndal
John Christophersson
Ásbjörn Eggertsson
G. F. Gíslason
Mrs. Guðríður Agnes Gunnlaugsson
Halldór Halldórsson
Dr. M. B. Halldórsson
Mrs. M. B. Halldórsson
Sveinbjörn Hjaltalín
Mrs. Jósefína Jóhannsson

Guðm. F. Jónasson
Þorbjörn Magnússon
Sigurður W. Melsted
Dr. Ófeigur Ófeigsson
Mrs. Ófeigur Ófeigsson
A. B. Olson
Dr. B. H. Olson
Ragnar H. Ragnars
Jón Sigurðsson
Capt. J. B. Skaptason
Mrs. Guðrún Skaptason
Finnur Stefánsson
Fred Stephenson
Árni Storm
J. J. Swanson
Ágúst Sædal
Jóseph Thomson

3. BANDARÍKIN

*Akra, N. D.*
Björn Sveinsson
Ásbjörn Sturlaugsson

*Anacortes, Wash.*
Margrjet J. Benedictsson

*Badger, Minn.*
J. J. Vatnsdal

*Baltimore, Md.*
Dr. Stefán Einarsson

*Blaine, Wash.*
S. A. Anderson
Þórir Björnsson
Ragnheiður Goodman
Gunnar Kjarvalson
Séra A. E. Kristjánsson
Mrs. Kristín F. Líndal

*Cavalier, N. Dak.*
J. K. Einarsson
Einar G. Eiríksson

*Chicago, Ill.*
Mrs. Paul J. Halldórsson
Árni Helgason
Jóhannes Sveinsson
C. H. Thordarson

*Duluth, Minn.*
Chris. Johnson
Mrs. Chris. Johnson

*Duxby, Minn.*
Jón Magnússon

*Edinburg, N. Dak.*
Hannes Björnsson
Margrét Guðmundsson
Kristján G. Kristjánsson

*Garðar, N. Dak.*
Gamaliel Thorleifsson

*Gloucester, Mass.*
Einar Anderson
Jónas B. Johnson

*Grafton, N. Dak.*
Guðjón Ármann

*Grand Forks, N. Dak.*
Próf. Richard Beck
Univ. of N. D. Library.

*Hallson, N. Dak.*
Árni J. Jóhannsson
Halldór Björnsson

*Hensel, N. Dak.*
Mrs. Málmfríður G. Einarsson

*Ivanhoe, Minn.*
Peter H. Foss
Bjarni Guðmundsson

*Huntingdon Park, Cal.*
Mrs. I. M. Jamieson
Dr. Paul V. Jameson

*Los Angeles, Cal.*
Þorgils Ásmundsson
Guðm. Thorsteinsson

*Madison, W. V.*
Sigfús Ólafsson

*Milton, N. Dak.*
S. S. Grímsson

*Minneota, Minn.*
María G. Árnason
Gunnar Björnsson
K. Valdimar Björnsson

*Mountain, N. Dak.*
Stefán J. Hallgrímsson
Thorgils Halldórsson
Chr. Indriðason
K. N. Júlíus
Sigurður Melsted
Jóseph J. Myres
Séra H. Sigmar
Th. Thorfinnsson

*National City, Cal.*
John S. Laxdal

*Pembina, N. Dak.*
G. Gíslason

*Point Roberts, Wash.*
Lestrarfél. "Hafstjarnan"

*Poulsbo, Wash.*
Mrs. H. S. Freeman

*Prize, Utah*
Miss Rose Davidson

*Red Wing, Minn.*
M. A. Thorfinnsson

*Ross, Minn.*
Grímur Ólafsson

*Rugby, N. Dak.*
Judge Guðm. Grímsson

*Sacramento, Cal.*
E. M. Thorsteinsson

*Salt Lake City, Utah*
Próf. Loptur Bjarnason

*Tacoma, Wash.*
E. S. Guðmundsson

4. DEILDIR

*A—"Brúin" Selkirk, Man.*

Mrs. Margrét Anderson
Mrs. Elisabel Austdal
Friðfinnur Austdal
Miss Dora Benson
Jóhann Benson
Mrs. Kristín Benson
Kristján Bessason
Þórður Bjarnason
Bjarni Dalman
Norman Dalman
Jón Sólvin Einarsson
Mrs. Ásta Eiríksson
Hávarður Elíasson
Grímur Eyman, Jr.
Guðjón Friðriksson
Miss Guðr. L. Guðmundsson
Kristinn Goodman
Hallur Gilsson
Guðmundur Guðmundsson
Jón J. Henry
Mrs. Ingveldur J. Henry
Jón Th. C. Henry
Jóhann G. Henry
E. J. Hinriksson
Sigurður Indriðason
Mrs. Guðrún Ísfeld
Miss Halldóra Jóhannesson
Gestur Jóhannsson
G. F. Jóhannsson
Ingi C. Jóhannsson
Jóh. Jóhannsson
Magnús Johnson
Mrs. Sigurbjörg Johnson
Klemens Jónasson
Hinrik Jónsson
Einar Magnússon
Mrs. Gróa Martin
Mrs. Rakel Maxon
Mrs. Arndís Ólafsson
Jón Ólafsson
Mrs. Kristín J. Ólafsson
Ólafur Ólafsson
Mrs. Ingibjörg Pálsson
Kristján Pálsson
Jóhann Pétursson
Jón Th. Reykjalín
Jóhann Sigfússon
Jón Sigurðsson
Mrs. Stefanía Sigurðsson
Miss Elín Guðrún Grace Sigurðsson
Jón O. S. Sigurðsson
Séra B. Theodór Sigurðsson
Sveinn Skaftfeld

Beaver House., London England
















# Hudson's Bay

**COMPANY**

•

## Látið Maríu Carter---

leysa úr vörukaupa vandamálunum. Skrifið þessari BAY kaupa-umsjónarkonu til Winnipeg búðarinnar, eða símið 3-2-2







## Hudson's Bay Company.

INCORPORATED 2ND MAY 1670.









# TÍMARIT

## Þjóðræknisfélags Íslendinga



SEXTÁNDI ÁRGANGUR, 1934

Ritstjóri: RÖGNVALDUR PÉTURSSON.




WINNIPEG, MANITOBA
Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi
1934

# Efnisyfirlit:

# ÁRNAÐARKVEÐJUR

út af 60 ára nýlendunámi Íslendinga í Ameríku, sendar Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi.

---

*SÍMSKEYTI FORSÆTISRÁÐHERRA ÍSLANDS*

*Reykjavík, 3. ágúst, 1934.*

*Í tilefni af sextíu ára minningarhátíð Íslendinga í Milwaukee sendir ríkisstjórn Íslands og íslenzka þjóðin Þjóðræknisfélagi Vestur-Íslendinga innilegar heillaóskir með gæfuríkt starf félagsins.*

*HERMANN JÓNASSON.*
*Forsætisráðherra Íslands.**

---

*)Skeyti þetta var sent síðastliðið sumar, eins og dagsetningin ber með sér, til hra. Ásmundar P. Jóhannssonar í Winnipeg, út af því að þá voru liðin sextíu ár frá fyrsta Þjóðminningardegi er Íslendingar héldu í Ameríku (Milwaukee Wisconsin), og hann beðinn að framvísa því við hátíðahöldin, er fram fóru um það leyti á Gimli og í Milwaukee, er mintust þessa atburðar. Skeytinu er beint til Þjóðræknisfélagsins).

## *MESSAGE FROM THE PRIME MINISTER OF CANADA*

*It GIVES ME much pleasure to offer my most cordial greetings to all Canadians of Icelandic descent on the occasion which will commemorate the first arrival in Manitoba of settlers from Iceland in the Autumn of 1875.*

*According to the Dominion census of 1931, there were then in Canada 19,382 persons of Icelandic origin living mainly in the Western Provinces of Manitoba, Saskatchewan, Alberta and British Columbia. The progress of the Icelanders as pioneers in Western Canada is well known and with their descendants they have made a very real contribution to the development of this Dominion.*

*In the history of the World, Canada ranks as a young country. Iceland, on the contrary, was settled by a vigorous race of people long before Canada had been discovered by Jacques Cartier. Thus, in addition to their personal qualities the Icelanders, who came to make their homes in this Dominion, were able to bring with them a fine old cultural tradition, for Iceland has always been renowned for song and poetry.*

*I am sure that the Icelandic National League will enjoy every success in its efforts to commemorate this important event in our national life and I send my very best wishes to all those who will be celebrating the sixtieth anniversary of the first arrival of their kinsmen upon our shores.*

*(Sgd.) R. B. BENNETT.*
*Prime Minister of Canada.*

Office of the Prime Minister, Canada.
Ottawa, Feb. 1st, 1935.

## *MESSAGE FROM THE PREMIER OF MANITOBA*

*IT IS MOST fitting that the Sixtieth Anniversary of the first arrival in Manitoba of the settlers from Iceland should be suitably celebrated. Of no group of men and women could it ever have been said more truthfully than of those first Icelanders who arrived in Gimli sixty years ago, that difficulties and obstacles brought out the best that was in them. From the very first day their sterling qualities impressed themselves strongly upon all who came in contact with them.*

*Lord Dufferin, the first Governor-General of the Dominion to visit Western Canada in 1887, addressed the Icelandic settlers, and on his return to Ottawa from his Western trip spoke in praise of their intelligence and industry and especially of their quickness in learning the English language.*

*The truth of Lord Dufferin's tribute has been proved by the experience of every year since that time. The progress which the people of Icelandic origin in Manitoba have made in the business life, in the professional life and in the public life of the Province is well known. It may be truly said that they possess all the characteristics and qualities that go to the making of good citizens.*

*May I on behalf of the Government, as well as myself personally, express our very best wishes for the future welfare and happiness of all the Icelandic people in Manitoba.*

*(Sgd.) JOHN BRACKEN,*
*Premier of Manitoba.*

Office of the Premier, Manitoba.
Winnipeg, Feb. 8th, 1935.

## *MESSAGE FROM THE PREMIER OF SASKATCHEWAN*

*IT IS WITH a feeling of interest and pleasure, that I note that citizens of Icelandic origin, will this coming summer, celebrate the 60th anniversary of settlement in Western Canada of the Icelandic race.*

*The Icelandic people have established an outstanding record in Canada. Not only in the districts where they have settled, have they helped to enrich the social and community life of our people, but they have striven, persevered and progressed, till today the names of Icelanders are written among those who rank high in all important walks of life.*

*It has been my privilege and pleasure, both as a University student in Manitoba, and since coming into public life in Saskatchewan, to become intimately associated with many of the Icelandic race. They have always impressed me by their keen thirst for knowledge, the manner in which they have so readily adapted themselves to this country, and the expediency with which they have become loyal and true citizens.*

*Their contribution to the citizenship of Canada has been great indeed.*

*With a sincere appreciation of your great heritage, on behalf of the Government of Saskatchewan, I tender best wishes for the success of your celebration this summer.*

*(Sgd.) JAMES G. GARDINER,*
*Premier of Saskatchewan.*

Office of the Premier, Saskatchewan.
Regina, Feb. 2nd, 1935.

# Landskoðunarferðin til Alaska 1874

*Eftir Rögnv. Pétursson.*

Nú eru senn liðin 65 ár frá hingaðkomu hinna fyrstu íslenzku innflytjenda. Tíminn hefir liðið. Það tekur því óðum að fyrnast yfir margt það, sem gjörðist á þessum fyrstu árum, sem eðlilegt er. Hinir gömlu eru fallnir frá, komnir undir græna torfu. Innflutninga tímabilinu í sögu álfunnar er lokið —því lauk árið 1914—og það kemur ekki aftur. Þó svo eigi að heita sem að megin atburðir hinna liðnu ára séu enn ferskir í hugum manna, þá er þó ýmislegt, þeim aðlútandi, sem orðið er að óljósum minningum, er eyðast munu og týnast með líðandi tíð og hverfandi kynslóðum.

Sumt er með öllu gleymt.

Þó 65 ár geti eigi talist langur tími, í sjálfri veraldarsögunni, þá hefir þó svo margt gjörst á þessum liðnu árum—breytingar svo snöggar og tíðar—að sem næst má segja að þessi ár þenji sig yfir langt tímabil í sögu hinna hérlendu þjóða, ef borin eru saman við það, sem áður var. Allar hinar meiriháttar framfarir, er síðar hafa komið í ljós, fóru, við byrjun þessa tímabils, þá fyrst að gjöra vart við sig; svo sem síminn, hagnýting raforku, hraðvinsluvélar til jarðyrkju og iðnreksturs, samgöngutæki af ýmsu tagi, hraðlestir o. fl.

Fyrstu 15 til 20 árin framan af þessu tímabili eru því í raun réttri sann-nefnd fornöld í sögu þjóðar vorrar hér í landi. Sennilega hafa eigi stórum meiri breytingar gjörst í lífi margra þjóða á síðastliðnum þúsund árum, en hér hafa orðið á þessum rúma mannsaldri, eða síðan 1874. En eins og allir vita, eru það slíkar og þvílíkar breytingar, sem, öllu fremur en aldir og aldaraðir, aðgreina tímabilin í sögu mannkynsins.

Þegar þessa er gætt, þá er það næsta eðlilegt að ýmsar ætlanir og ákvarðanir hafi gleymst, eða að engu orðið, á byltinga árunum, sem á eftir komu. Engir gátu sagt fyrir hið óorðna, eða hagað verkum sínum eftir því.

Því er svo varið með þessa fornöld vora, jafnt sem hinar aðrar fornaldir, að ætlanir hennar, athafnir og viðfangsefni, voru að mestu eða öllu leyti háð aðstöðu og anda þeirrar tíðar, og hlutu því að berast burt með straumi tímans. Þau voru áþekk veðurfari hinna fornu sumardaga—lík skýjunum, er hinn sterki sólarhiti lyfti upp af þjakaðri jörðunni. Um hádegisbilið reikuðu þau um himinhvolfið, færðust svo fyrir kveldblænum út að takmörkum sjóndeildarhringsins—oftast í vesturátt—drógust þar saman í fannhvít risavaxin fjöll, er stöðugt breyttu litum með ljósaskiftunum, unz þau að lokum urðu ósýnileg,—hurfu út í heiðbláma næturinnar. Um stundarsakir, framan af kveldinu, mátti greina þau. Leiftrin, er með ómælanlegum hraða fossa niður þessar fjallahlíðar, gáfu til kynna hvar þau voru og—hvert þau fóru. En svo leið á nóttina. Eldarnir dóu, ljósin slökknuðu, fjöllin hurfu.

Orka dagsins þvarr áður en lýsa tók af nýjum degi.

Hinar fornu ætlanir og ráðagerðir bárust á svipaðan hátt fyrir kveldblænum út að takmörkum sjóndeildarhringsins. Þær drógust saman í fjöll. Dægurskýin breyttu lit og lögun og færðust í vesturátt. En þar í er fólginn munurinn. Ár og dagar hafa liðið, heil mannsæfi—jafnvel tvær. En þó tíminn hafi liðið þannig á brott, þá leiftrar þó enn þá úr þeim skýjum. Eldar brenna enn þá á þeim fjöllum. Ennþá sézt til ferðamannahópanna er göngunni hraða niður brattlendið og hverfa eru inn í skógana eða út á sléttuna.

Hyrr er á sveimum,<br>
Haugar opnast.<br>
Brennr fold ok fen,

þegar horft er um öxl og litið er til baka til þessara liðnu daga.

* * *

Aðal tilgangurinn með grein þessari, er sá, að ryfja lítilsháttar upp, í ljósi þessara liðnu tíma, atburði nokkra, er gjörðust á þessari fornu öld, sem á sínum tíma sættu talsverðum umræðum, þó lítinn bæri þeir árangur þá í svip eða síðar meir fyrir framtíðina. Þó voru þeir ekki með öllu þýðingarlausir, sem seinna mun bent verða á. Að minsta kosti sýna þeir, og orsakir þær, sem til þeirra lágu, hver voru aðal umhugsunarefni manna um þessar mundir og hvað þeir álitu vera helzta skilyrðið fyrir velmegun sinni og framtíð hér í landi. Atburðir þessir eru landskoðunarferðir, er farnar voru, en þó einkum landskoðunarferðin er farin var til Alaska 1874.

Sem svo oft og mörgum sinnum hefir verið tekið fram áður, var það tilgangur Íslendinga, sem í fyrndinni fluttust hingað vestur, að nema sér hér land og stofna hér "sjálfstæða" íslenzka nýlendu, þar sem landkostir þættu sæmilegir og þeir gætu búið að sínu og út af fyrir sig. Þá styrkti það þá líka í þessum ásetningi, að þeir fundu brátt, eftir að hingað kom, að hinn helzti styrkur, sem þeim var gefinn til þess að standast samkepni við aðra þjóðflokka í landinu, var í því fólginn að halda saman, skapa sér sjálfir sína atvinnu og eiga ekki daglegt brauð undir vinnugjöfum annara. En þessu takmarki varð ekki náð, nema því aðeins að varanlegur samastaður væri fundinn. Aðsetur staðirnir, Washington eyja og Milwaukee í Wisconsin-ríkinu, Kinmount og Mooseland heiðar (er þá stóðu til boða) innan Canada, voru eigi slíkir samastaðir; það var reynslan búin að sýna og sanna. Þeir voru þrautalending, —áningarstaðir á ferðalaginu til sjálfs áfangastaðarins, þar sem sezt yrði að um kyrt og stofnuð "alfrjáls" íslenzk nýlenda.

Engar verulegar framkvæmdir voru þó hafðar í þessu efni, fyrstu árin. Atvinna var góð, einkum í Bandaríkjunum, ofan að árinu 1873, og hið fyrsta sem menn hugsuðu um, var að búa svo um sig í bili, þar sem þeir voru staddir, að þeim gætu aukist efni og kynni af landinu, svo þeir ættu hægra með að ráðstafa sér í framtíðinni. Var þetta skynsamlega hugsað, ef önnur öfl hefðu þá eigi tekið í taumana. En þetta ár skall yfir atvinnu- og verzlunar-deyfð um land

alt, er byrjaði með gjaldþroti og verðhruni í kauphöllinni í New York og víðar. Versnaði ástand þetta mjög á næsta ári. Atvinna varð lítil í bæjum og úti í sveitum illa launuð, þar sem hennar var að fá. Kom þetta harðast niður á þeim, er nýkomnir voru til landsins og eigi kunnu til allra verka og höfðu fyrir fjölskyldu að sjá. Varð það sjáanlegt, að ef eigi réðist því skjótar bót á þessu, yrði eigi nema um tvo kosti að velja, þann að kasta sér upp á náð hins opinbera og gjörast sveitlægur, hinn að leita burt úr bæjunum og út á auðnina og láta jörðina fæða sig. Örvaði ástand þetta að nýju áhugann fyrir nýlendunámi. Þörfin rak á eftir, að leita varanlegs bústaðar án frekari biðar.

En hvert var að fara?

Um nóg land var að velja, nóg voru rýmindin og helzt til mikil, en eigi gjörði það mönnum auðveldara að ákveða ákjósanlegasta staðinn. Alt var í óbygð—ókönnuð og óslitin auðn,—austan frá Stórvötnum og vestur á Kyrrahafsströnd, yfir endilanga álfuna frá Íshafi og suður að Mexicoflóa. Alla langaði til að verða sem heppnasta í valinu. Hvar á þessari miklu víðáttu var hagkvæmasti og bezti staðurinn? Hver gat svarað því? Úrlausn þeirrar gátu fékst aðeins með því að gjörður væri út leiðangur til þess að skoða þá staði, er menn höfðu helzt augastað á. En eigi var það jafn auðvelt og virðast mátti. Skorti margt til þess. Ferðatækin voru fá,—engar járnbrautir í óbygðinni, engir vegir, yfir óbrúuð fljót að fara, gegnum villugjarna skóga, engar óbyggilegar leiðbeiningar, nema landmælingabréf stjórnarinnar, þar sem þá var búið að mæla, en það var fremur óvíða.*) Þess utan hafði þetta í för með sér þann kostnað, er menn voru eigi færir um að bera. Flestir voru fátækir, og það lítið fé, sem sumir höfðu haft handa á millum, var til þurðar gengið eftir veturinn 1873-4.

Aðal framkvæmdirnar í þessu máli hófust meðal Íslendinga í Milwaukee, enda mun fyrsta viðleitnin til nýlendu náms hafa átt upptök sín þar. Þetta var stærsti bærinn, er Íslendingar höfðu numið staðar í og þar kendi atvinnukreppunnar einna mest. Þar var líka meiri mannafli fyrir og meiri efnum og þekkingu á að skipa en á hinum stöðunum.

Vorið 1873, 4. júní, komu til Milwaukee Torfi Bjarnason, síðar skólastjóri í Ólafsdal og bróðir hans Lárus Bjarnason. Dvöldu þeir skamma stund í borginni. Var efst í huga Torfa að flytja vestur og stofna nýlendu og ferðin farin til þess að skoða sig um. Héldu þeir bræður áfram ferð sinni til Nebraska og skoðuðu þar land bæði austan og vestan til í ríkinu. Vesturhluti ríkisins var þá óbygður og þar gnægð að fá af góðu landi til heimilisréttar, en eigi leizt Torfa á sig þar. Til Milwaukee kom hann aftur seint í september. Var þá kvatt til fundar og mun hann hafa gefið þar lýsingu af landi því, er hann skoðaði, bæði í Nebraska og Iowa, en þar lá leið hans um, er hann kom að vestan.

———

*)Keewatin héraðið var til dæmis ómælt, er Íslendingar fluttu þangað (til Nýja Íslands) 1874.

Eftir nokkra dvöl í bænum sneri Torfi heimleiðis og kom ekki vestur aftur. Eftir þeim lýsingum, er menn fengu af frásögn hans mun til tals hafa komið að leitast skyldi fyrir á þessum slóðum með nýlendustæði, þar sem hann hafði farið um.

Þetta sumar voru ýmsar ferðir farnar út frá þeim stöðvum þar sem búið var á, til nærliggjandi héraða bæði í atvinnuleit og til landskoðunar. Þá fluttu sig nokkrar fjöldskyldur, að sumu leyti fyrir áeggjan séra Páls Þorlákssonar, norður til hins svonefnda Shawano héraðs í Wisconsin-ríki og settust þar að sem bændur, inn á meðal Norðmanna. Hérað þetta er um 150 mílur norður af Milwaukee og all-langt upp frá Michigan-vatni. Skógur var þar mikill en landkostir léttir. Ekki gazt mönnum að þessu svæði né hinum öðrum, er þeir höfðu skoðað. Voru ýmsir annmarkar á þeim öllum, er eigi þóttu viðunandi, þegar um varanlegan framtíðarbústað var að ræða. Hið sama var að segja um þá er dvöldu norðan landamæranna í Canada, að eigi gazt þeim að þeim svæðum, er í grend voru við dvalarstaði þeirra.

Þó ferðir þessar bæru lítinn árangur urðu þær þó til þess, að það skýrðist fyrir mönnum hvers konar land þeir þyrftu helzt að velja sér til framtíðar bústaðar. Það var ekki nóg að finna einhvern stað, staðurinn þurfti að vera sniðinn eftir þörfum Íslendinga sjálfra. Hann þurfti einnig að vera laus við þá galla, sem orðið höfðu því valdandi að fólk sleit sig upp af ættjörðinni og flutti í fjarlægt land. Hann þurfti að láta það til, að fólk gæti stundað hinar sömu atvinnugreinar og það hafði vanist. "Hverjir voru þeir ókostir, er ýtt höfðu mönnum á stað til vesturferða?" var þá tíðum spurt, og svarið var undantekningar lítið þetta: "Ófrjáls stjórn, óblíð veðrátta, ófrjósemi landsins og von um betri afkomu." Staðurinn þurfti að vera laus við alla þessa ókosti; en hann þurfti líka að geta veitt fólki hin sömu fríðindi og landið, sem það hafði yfirgefið, og þó öllu meiri.

Til er greinargerð frá þessum tíma, rituð rúmu ári síðar en þetta var, er taka mun fram nokkurnveginn einróma álit megin þorrans á því hvaða kostum nýlendan verði að vera búin svo vel sé og við megi una. Styðst álit þetta áreiðanlega við þá reynslu, sem menn voru búnir að fá af búskap og bjargræðisvegum hér eftir hina stuttu dvöl sína í landinu. Þó greinargjörð þessi birtist í sérstöku riti, er hélt fram ákveðnu nýlendustæði, þá mun hún samt í öllum höfuð atriðum mega skoðast sem bergmál þeirra hugsana er í ljós voru látnar hjá megin hluta fólks. Hugsjónin og takmarkið um þessar mundir var: ein nýlenda fyrir alla, er tekið gæti á móti öllum, er síðar kæmu; nýlendu svæðið væri algjörlega sett til síðu fyrir Íslendinga, svo að þeir réðu þar lofum og lögum, gætu haldið þar við máli og menningu, þjóðerni og þjóðar siðum; annað Ísland í nýrri heimsálfu þar sem þjóðin gæti náð þeim vexti og viðgangi undir frjálsri stjórnarskipun, sem henni var meinað heima á ættjörðunni.

Álitið er á þessa leið:—

"Kröfur þær, sem reynsla vor hefir sýnt og skynsemin segir oss að sé ómissandi, eru þá þessar helztar:

1. Að landið hafi frjálsa stjórn og sem rýmst borgaralegt frelsi að verða má;
2. Að það sé frjórra og bjargræðissamara en á Íslandi;
3. Að þar sé gnægð lands, er nýkomendur geti numið ókeypis;
4. Að þar sé atvinna svo næg eða þá land svo agnsamt, að nýkomendur þurfi eigi að líða nauð í byrjuninni;
5. Að skógur sé nægur til húsagjörða, smíða og eldsneytis; en þó eigi eintómt skóglendi, er torvelt sé að yrkja;
6. Að loftslag sé eigi alt of ólíkt, því sem á sér stað á Íslandi; vor og haust blíðari, sumur lengri, en eigi miklum mun heitari en þar er;
7. Að landið liggi við sjó;
8. Að það sé lagað til kvikfjárræktar, og að atvinnuvegir séu yfir höfuð eigi gjörsamlega allir aðrir og ólíkir því, er á sér stað á Íslandi.
9. Að svo hagi til, að Íslendingar geti setið einir að landinu, án þess framandi þjóðir dreifi sér innan um þá."

* * *

Þetta sumar kom séra Jón Bjarnason vestur, sem kunnugt er, og þótt hann settist að í Decorah í Iowa ríkinu, stóð hann í nánu sambandi við landa sína í Milwaukee. Fann hann brátt til þess sem fleiri, er hugsuðu fram í tímann, hve nauðsynlegt það væri fyrir fólk að geta sem fyrst komið sér fyrir á einhverjum þeim stað, þar sem það gæti stuðst við eigin björg og þyrfti ekki til annara að leita. Mun hann fremur hafa hvatt en latt til þess að Íslendingar færu að dæmi annara þjóða, er inn í landið höfðu flutt og stofnuðu nýlendu þar sem þeir gætu búið um sig.

Síðla þetta sama haust kom Jón Ólafsson ritstjóri vestur. Dvaldi hann á ýmsum stöðum um veturinn en lengst af í Milwaukee. Kyntist hann þar líðan manna, og mun, sem aðrir, bráðlega hafa farið að hugsa um fyrirhugaða nýlendustofnun. Segist hann hafa átt bréfaskifti um þetta við séra Jón Bjarnason. Veturinn var erfiður og afkoma manna bágborin. Kyntist Jón ýmsum mönnum er frætt gátu hann um landkosti vestar í álfunni, og þar á meðal fyrverandi liðsforingja í sjóher Bandaríkjanna, Mr. Marston Niles lögfræðingi í New York, er var Íslands vinur mikill. Kom Jón máli sínu svo við hann að ádrátt mun hann hafa gefið honum um það að reyna til að fá Landbúnaðarráðuneytið til þess að styrkja Íslendinga til nýlendunáms og landskoðunar, þó eigi fengi sú tillaga þann byr að lokum, er báðir höfðu gjört sér vonir um. Eigi var unt að fá betri milligangara til þessa en Mr. Niles. Var hann kunnugur bæði sögu og fortíðar bókmentum Íslendinga. Samdi Niles þessi og sendi inn á Congress Bandaríkjanna, frumvarp, er samþykt var um bókagjöf til Íslands til heiðurs við þúsund ára hátíð þjóð-

arinnar. Sýndi hann bæði í þessu sem öðru að hann lét sig skifta kjör Íslendinga yfirleitt.

Annars furðar maður sig á því hve mikilli eftirtekt að Ísland sætti einmitt um þetta leyti: Síðla þenna vetur og framan af vorinu var mikið rætt í hérlendum blöðum um "þúsund ára hátíðina á Íslandi," er í vændum væri. Hvöttu þeir sem um þetta rituðu Bandaríkjaþjóðina til að minnast þessa hátíðahalds og taka þátt í því. Kom mentamönnum saman um það, að íslenzku þjóðinni væri sýndur maklegastur heiður við þetta tækifæri, með því að henni væri sendar að gjöf alls konar vísinda- og fræðibækur og mun prófessor Willard Fiske hafa verið upphafsmaður þess. Ritar Fiske um þetta manna fyrstur. Á lausu blaði dagsettu 9. apríl 1874, er mun hafa verið sent ýmsum fræðimönnum víðsvegar um land, getur hann þess að hann hafi fengið aðstoð slíkra manna sem skáldsins "Henry W. Longfellow, Dufferin jarls, Mr. G. W. Curtis, Mr. Bayard Taylor, Mr. F. L. Olmsted, auk margra fleiri," til þess að safna þessum ritum. Þar getur hann þess líka, að "á móti bókasendingunum taka, er merktar skulu 'Til Landsbókasafns Íslands, Reykjavík,' prófessor F. J. Child við Harvard háskóla, prófessor T. R. Lounsbury við Yale háskóla, Ritari The Smithsonian -Institute í Washington, Ritari hins ameríska landfræðifélags í New York og Bókavörður Cornell háskóla; enn fremur hefir Mr. Henry Braem, ræðismaður Dana í New York, góðfúslega lofast til að sjá um að bókasendingarnar komist alla leið."

Hve víðtæk og almenn þátttaka fræðimanna varð um þessar bókagjafir, er erfitt að ákveða. En það sem um þetta var ritað, um hina tilvonandi þúsund ára hátíð, og um sögu og bókmentir þjóðarinnar, varð alt til þess að vekja almenna athygli á landi og þjóð, og þá líka á Íslendingum, er komnir voru hingað. Átti próf. Fiske drýgstan hlut í því og verður honum það aldrei of rækilega þakkað. Hið ágæta við ritgjörðir þessar var það að þær voru allar samdar af innlendum fræðimönnum, er kynni höfðu af tungu, bókmentum og sögu íslenzku þjóðarinnar. Þá komu út, líka á þessu ári, auk hinnar ágætu Cleasby orðabókar, er Oxford háskólinn kostaði, þýðingar af nokkrum hinum meiri fornritum vorum. Varð alt þetta til þess að auka veg og sæmd Íslands út á við, oð greiða götu hinna íslenzku innflytjenda.

Í laugardags útgáfu blaðsins *Wisconsin State Journal* 23. maí, 1874, er birtur útdráttur úr bréfi frá prófessor Fiske til prófessor R. B. Anderson. Getur Fiske þar um bókasendingarnar til Íslands. Segir hann að fjórir kassar séu farnir af stað frá sér; tveir til Stiptsbókasafnsins í Reykjavík og tveir til Bókasafns Norður og Austur-Amtsins á Akureyri, í alt 525 bundnar bækur, auk fjölda bæklinga, af ýmsu tagi. Þá segist hann hafa sent myndabækur og uppdrætti er ætlað sé barnaskólum, auk þess nokkra kassa af blómafræi til ýmsra staða á landinu.

Þá getur hann þess að "*Albany*

*Institute,*" vísindafélag í borginni Albany, sé að undirbúa beina ferð til Íslands og ráðgjöri að leigja skip til fararinnar frá New York. Verði fargjald, fram og til baka, fært ofan í $150 til $175.

Ennfremur getur Fiske þess, að hann hafi fengið bréf frá Dr. Isaac I. Hays heimskautafaranum fræga, er ráðinn sé í að fara til Íslands, til þess að taka þátt í minningarhátíðinni um "landnám" þeirra Ingólfs og Leifs, sem fulltrúi Ameríska landfræðifélagsins. Muni hann sigla frá New York og koma við á Nova Scotia, Nýfundnalandi og Grænlandi. Á bakaleið frá Íslandi fari hann um Noreg og Færeyjar.

Einnig getur próf. Fiske um það að lagafrumvarp hafi nú verið samþykt í báðum deildum Congressins, um að gefa til Íslands eintak af öllum þeim ritum, sem stjórnin hefir látið prenta og auk þess, það af einstökum bókum í vörzlum Congress bókasafnsins, er safnið á í tveimur eintökum; ennfremur séu $500 veittir til þess að kosta umbúðir og burðargjald. Er frumvarp þetta hið sama og Mr. Niles samdi og kom inn á þing.

Bréf frá prófessor Lounsbury við Yale háskólann segist Fiske líka hafa fengið, og geti próf. Lounsbury þess að bókasending Yale háskólans muni verða "mjög virðuleg." Þá segir Fiske að próf. March, engil-saxnesku fræðimaðurinn, geti þess einnig í bréfi til sín að ríkisbókavörðurinn í Harrisburg, Pennsylvania muni senda bækur il Íslands. Loks getur Fiske þess að fjöldi fólks í Providence Rhode Island óski ekki eingöngu eftir að gefa bækur til bókasafnsins í Rvík, heldur hafi ákveðið að heimsækja Ísland á þessu sumri.

— — — —

Skjótlega eftir að þeir kyntust Jón og Mr. Niles, mun Jón hafa ráðfært sig við hann um framtíð Íslendinga er til landsins voru komnir. Réði Niles eindregið til þess að þeir settust að í Bandaríkjunum með því að þar væri frjálsara og afkomusælla að búa, og mun hann hafa hvatt Jón til þess að beita sér fyrir því. Benti hann honum á hin miklu landrými í Vesturríkjunum og í Alaska, er þá var nýlega orðin eign Bandaríkjanna. Mun hann jafnvel hafa gefið í skyn að Íslendingar myndu geta komist þar að hvaða skilmálum sem þeir vildu.

Þá voru líka Alaska-kaupin um þessar mundir orðin að bitbeini millum stjórnmálaflokkanna. Að vísu höfðu þau kaup komið til tals í stjórnartíð Democrata, nokkru fyrir Þrælastríð, en eigi af þeim orðið fyr en þetta seinna. Keypti Bandaríkjastjórn landflæmi þetta af Rússakeisara 1867 fyrir $7,200,000. Þótti stjórnarandstæðingum sem fé því hefði verið illa varið og myndi seint heimtast. Var Repúblíkum fært það til skuldar yfirleitt. Stóðu nú deilur um þetta í stórblöðunum "Tribune" og "Sun" í New York, og var sú skoðun hispurslaust látin í ljós, að Bandaríkjaþjóðin mundi aldrei nein veruleg not hafa af landi þessu önnur en þau, að greiða vextina af kaupfénu, er tekið hafði verið að

láni.*) Mátti því ætla að stjórnin yrði lipur er til samninga kæmi, að veita þar þau umráð og sérréttindi, er um yrði beðið.

Leið nú svo veturinn að ekkert var gjört. Um vorið 1874 var stofnað félag í Milwaukee til þess að gangast fyrir landskoðun og nýlendu námi auk fleiru. Hefir félag þetta ýmist verið nefnt *Framfarafélag* eða *Íslendingafélag*, og mun það hafa borið bæði nöfnin sem "*Framfarafélag Íslendinga.*" Verksvið þess, auk nýlendunáms, var að vinna að *framför, samheldni* og *einingu* meðal Íslendinga. Fyrir félagsstofnuninni stóð aðallega Ólafur Ólafsson frá Espihóli, þó margir fleiri ættu þar þátt í. Ólafur var sjálfkjörinn foringi; bæði var hann efnaðastur þeirra manna er þarna voru, og svo var hann öllum fróðari og góðgjarnari. Á fundi, er haldinn var snemma um sumarið, var ákveðið að gjöra menn út í landskoðun til Iowa og Nebraska. Voru kosnir til ferðarinnar Sigfús Magnússon (prests á Grenjaðarstað) og Jón Halldórsson frá Stóruvöllum í Bárðardal. Lögðu þeir af stað frá Milwaukee 5. maí. Mun stjórnin og járnbrautarfélagið Burlington & Missouri R. R., er átti mikið land þar vestra, eitthvað hafa greitt fyrir með ferðakostnaðinn. Máttu þeir félagar stanza hvar sem þeir vildu, og skoða sig um. Þegar vestur kom fundu þeir að alt stjórnarland var upptekið. Höfðu annara þjóða menn sezt að á annari hverri fermílu (section) "svo ekki var um alíslenzka nýlendu að tala." Skrifuðu þeir félagsbræðrum sínum þetta í Milwaukee, að þar væri eigi um annað að ræða en járnbrautarland, er kosta átti alt frá $3 til $12 ekran. Því fé höfðu menn ekki út að svara. Ofan á það bættist, að skemdir urðu þar miklar þá um sumarið af engisprettum. Eyðilögðu þær bæði sáðlönd og engjar og geysaði sú plága þar í þrjú ár. Dró þetta í viðbót mjög kjark úr mönnum, er nauðuglega treystu sér til landakaupanna. Varð því ferðin árangurslaus. Festi Jón kaup í landi þar syðra, en Sigfús sneri til baka aftur og hvarf heim til Íslands þá um haustið.

Við þessar fréttir var farið að athuga fleiri staði. Við umtal það, sem þjóðhátíðin vakti í blöðunum drógst athygli innflutninga ráðuneytisins í Canada að þessum innflytjendum. Varð fylkisstjórnin í Nova Scotia fyrst til að leita þeirra samninga að Íslendingar flyttu þangað. En hvorki var þar landkostum til að dreifa eða rýmindum svo að þar yrði stofnuð fjölmenn nýlenda. Nova Scotia var með elztu fylkjum í canadiska sambandinu og alt hið bezta úr landi löngu upptekið. Urðu því fáir til að gefa sig fram í Milwaukee og hagnýta sér þá kosti er í boði voru.*) Þá varð og mönnum ljós sú hættan, er næst gekk at-

---

*)Hve skammsýnt þetta álit var, hefir seinni tíminn sýnt. Upp að áramótum 1902, frá 1867, höfðu afurðir landsins numið $212,-840,000, og tekjur er lögðust beint í ríkissjóð $9,555,009. Skiftust afurðirnar í þrjá höfuð flokka. Fiskiveiðar $60,000,000. Selskinn og dýrafeldir $52,000,000: Gull $100,000,000. Kopar og silfur $840,000.

*)Kjörin voru þau að hverjum búanda voru boðnar 100 ekrur af skógarlandi ókeypis og bjálkakofi. Ein ekra var rudd fyrir garðstæði; jarðvegur var bæði sendinn og grýttur.

vinnuleysinu, að ef fólk skiftist upp í ótal smá bygðarlög, væri sambandinu slitið og menn glötuðu þá hvortveggja, þjóðerni sínu og sjálfstæði á skömmum tíma.

Hve rík sú tilfinning var að vernda hvorttveggja kemur fram í ritgjörð, er samin var um þetta leyti. Mun hún færa fram hin sömu rök, máli sínu til stuðnings, og þá voru á hvers manns vörum. Þar er einnig bent á nauðsynina að halda saman. Kafli þessi hljóðar á þessa leið:—

"Það er eðlilegt, að menn frá sama landi, aldir upp í sama loftslagi, við sömu störf og lífskjör, með sama máli og þjóðerni og venjum, þurfi sömu skilyrði fyrir vellíðan og velmegan á sál og líkama. Krafir náttúrunnar neyða þá alla til að velja sér bólfestu í plássum með líku ytra ásigkomulagi, en krafir andans vekja hjá þeim löngun og þörf til að búa fremur saman við þá, er sömu andlegu skilyrðum eru bundnir, sem hafa sömu endurminningar, sömu vini, kunningja og skyldmenni, sömu ættjörð kæra og sama innihald andlegs lífs, heldur en að búa fjarri öllum er skilja minningar þeirra, langanir og þrá,—sorg og gleði. — Þetta veldur nauðsyninni til að halda saman fyrir Íslendinga í framandi landi . . . (til) að finna stað þar sem þeir geti búið nálægt hver öðrum. . . . . Þetta á sér fremur stað um Íslendinga en aðra, sem fjall-landa-búar unna, ávalt meir en aðrir, frelsi og fósturjörð. Ástin á fósturjörðinni heimtar fullnægju. . . . . Vesturfarinn er eigi getur fullnægt henni beinlínis, full nægir henni bezt og eðlilegast með því að elska þeim mun heitara þær dýrustu leifar fósturjarðarinnar, er hann hefir með sér flutt, *en það er þjóðernið*. . . . . Hann finnur það að ef hann gefur upp þjóðerni sitt fyrir inu útlenda þjóðerni, þá lætur hann það þjóðerni kúga sitt eigið. En þar rís hugur hans á móti. *Vér erum fámennir Íslendingarnir, og verðum að halda saman allir,* ef vér viljum geyma þjóðernið í framandi landi. Þessvegna verðum vér að halda saman *í einni nýlendu*."*)

Hinir ýmsu staðir, er til mála höfðu komið voru einnig athugaðir í ritgjörð þessari. Þó öllum kæmi saman um það, að fullkomið stjórnfrelsi réði í báðum löndunum, Bandaríkjunum og Canada, þá hölluðust þó sumir að þeirri skoðun að öllu frjálsara myndi vera í Bandaríkjunum og "vænlegra til *framfara,*" því þar væri lýðveldi. En það var ýmislegt fleira, sem bar að athuga, svo sem landgæði, veðráttufar og afstöðu, en þó sérstaklega það hvort nýlendustæði þessi væri nógu stór og rúmgóð fyrir alla Íslendinga, er væntanlega myndu flytja vestur. Þá bar þess að gæta hvort Íslendingar fengju að sitja einir að landinu, svo að inn á meðal þeirra yrði ekki þrengt annara þjóða fólki,—"útlendingum," eins og menn komust þá að orði. En það var stærsta atriðið. Að öllum þessum stöðum þótti nokkuð og enginn svara fyllilega til kröfum þeim, er menn hlytu að gjöra. Það sem þeim var helzt fundið til foráttu er dregið

---

*)"Alaska &c. Um stofnun íslenzkrar nýlendu." Jón Ólafsson. Washington, D.C. 1875. Bls. 42 og 43.

þarna fram og er lýsingin á þessa leið:

"Canada er að vísu all-frjálst land, en þó eigi lýðveldi. Hvað snertir gnægð ónumins lands, þá á hún sér að vísu stað í Canada; en það land hefir þá annmarka, er sumpart gjöra það ófýsilegt fyrir efnalitla nýkomendur. Sumarhitar eru þar geysi-miklir, vetrar harðir og grimmir, skógur víða of mikill svo landið verður torvelt að yrkja og jörðin sjálf víða ófrjó. (Hér er átt við þá staði, er Íslendingar voru komnir á og það land, er skoðað hafði verið umhverfis þá). Atvinna er þar víða fremur stopul. Í Wisconsin er eigi annað eftir ónumið en það úrkast úr landi, er enginn hefir viljað nýta. *Showano County* eða *Ljósavatnshreppur*, sem það nú er kallað meðal landa hér er lélegt land, og þar að auki svo lítið að um það er ekki að tala..... Til Nebraska hefir helzt þótt vert að leita, en þar er heimabúðarland eigi orðið að fá nema í vesturhlutanum,.... en um síðustu ár hefir ríki þetta verið plágað af engisprettum, er öllum gróðri hafa eytt.... Skóg skortir eigi í Michigan, enda er land þar ófrjótt. Á Nova Scotia koma vetrar verri miklu en á Íslandi.... Á því er vafi hvað land það hefir fram yfir Ísland.

Loftslagið er fjarskalega áríðandi atriði. Íslendingar eru eigi afar hitum vanir og verður því illa vært við strit-vinnu í afarhitum, enda er lífi og heilsu hætta búin; en í öllum þeim ríkjum, er nefnd hafa verið, eru sumarhitar fjarskalegir.... Það eru langt frá því sælustu löndin þar sem "alt brennur og frýs" eins og í helvíti. Í Wisconsin (og Canada) og Vesturríkjunum eru vetrar grimmari og harðari miklu en þá verst er á Íslandi.

Þá er þess er gætt, að ekkert land er liggur langt frá sjó hefir eins temprað loftslag og hin er að sjó liggja... þá liggur í augum uppi að æskilegast væri að hafa nýlenduna við sjávarsíðu."

Þegar nú fullséð þótti um það að hentugur nýlendustaður fengist í nærliggjandi héröðum á þeim kjörum er menn höfðu hugsað sér, nefnilega ókeypis, var farið að athuga aðra staði, er lengra voru í burtu og möguleikana til þess að komast þangað og búa þar um sig. Kom þá fyrst til greina Alaska, samkvæmt áður gefinni bendingu Mr. Niles. Þó langt væri þangað að fara varðaði það minstu, því langt mátti líka heita út í allar óbygðir, er erfiðleikarnir voru teknir til greina. Var boðaður fundur snemma miðsumars og þar afráðið að senda menn vestur þangað, til þess að yfirlíta landið og fá sem glöggvust kynni af því.

Aðal hvatamaður þessarar farar var Jón ritstj. Ólafsson. Hafði hann eftir kynni sín við Niles, lesið lýsingar af landinu, er rannsóknarleiðangur að tilhlutan Bandaríkjastjórnar hafði safnað. Bókin var eftir Lieut. W. H. Dall: "Alaska and its Resources," gefin út í Boston 1870.*) Er þar glögt yfirlit yfir jarðmyndun, gróður, veiði og bjargræðisvegi landsins.

*)Lýsingar W. H. Dalls hafa síðar verið gefnar út í "History, Geography and Resources of Alaska, Vol. II. Harriman's Alaskan Expedition; Smithsonian Institute, Wash., 1902.

Mun Ólafur hafa kynt sér rit þetta og sjálfsagt einhverjir fleiri og því orðið fúsir til að fallast á þessa ráðagjörð. Frá fundarhaldinu skýrir Jón Ólafsson í áðurnefndu riti ("Alaska") á þessa leið:—

"Um þetta leyti vakti vinur minn einn og vinur Íslands hérlendur (Mr. Niles?) athygli mína á Alaska; eg bar málið undir aðra og leizt öllum vel á. Eg las bók Dall's og leitaði allra upplýsinga er eg gat um landið; kvaddi síðan landa í Milwaukee á fund og skýrði fyrir þeim málið; stakk upp á að velja menn þrjá til að fara og skoða landið, og skyldu þeir gjöra það á sjálfra sín kostnað. Bauð eg lið mitt þeim, er kosnir yrðu til að reyna fyrir aðstoð vinar míns Niles í New York að útvega þeim að minsta kosti létti í förinni, eða fría ferð að nokkru leyti. Var eg kosinn með öllum atkvæðum til fararinnar og Ólafur Ólafsson og Árni Sigvaldason. Árni gat síðar ekki farið; en við Ólafur tókum Pál Björnsson (Péturssonar frá Valþjófsstað, systurson Jóns) í hans stað. Íslendingar í Wisconsin sendu þá bænaskrá til forseta Bandaríkjanna (U. S. Grant hershöfðingja) og báðu hann að styrkja og aðstoða skoðunarför vora. Svaraði hann því máli vel og léði oss herskip albúið í San Francisco til að sigla á til Alaska; var það seglskip og hafði alls 18 fallbyssur og yfir 200 manns."

Skip þetta, sem hér um ræðir hét *Plymouth* og var notað sem heræfingar skip í sjóflota Bandaríkjanna. Strax eftir fundinn leitaði Jón til Niles með að gjörast milligangari í því að sendinefndin fengi styrk til fararinnar, og ókeypis flutning. Kom þá fyrst til greina hvernig flytja skyldi sendimennina frá San Francisco og norður. Grant forseti, er tekið hafði við bænaskránni, er honum var send, vísaði þessu flutningsmáli strax til flotamálaráðuneytisins, með þeim fyrirmælum, að sendinefndinni yrði séð fyrir flutningi. Gjört hafði verið ráð fyrir að senda skip þetta norður til sjómælinga, en því var nú frestað til næsta sumars. Í þess stað var ákveðið að það gerði ferð norður með nefndarmenn, hefði stutta viðdvöl, kæmi til baka aftur og undirbyggi svo ferð sína í þenna sjómælingaleiðangur á næsta ári. Er skýrt frá þessu öllu rækilega í dagblaðinu *New York Sun,* í langri fréttagrein, með fyrirsögninni "*Iceland and Alaska.*" Þá er og bænarskrá Íslendinga til forsetans, auk ýmsra miður ábyggilegra upplýsinga um Ísland og íslenzku þjóðina, einnig birt í þessum fréttapistli. Er þess getið að undir bænaskrána hafi ritað 43 manns og þar á meðal sendinefndin. Minst er þar á sendimennina og farið um þá lofsamlegum orðum, og sagt að þeir tali jafnmörgum tungum og þeir telji fingur á báðum höndum! Um sendingu skipsins norður er farið þeim orðum, að það kosti stjórnina ekkert að flytja sendimenn norður, en hinsvegar "veiti það skipshöfninni mjög svo tímabæra og heilsusamlega æfingu í sjómensku og skips-aga." Fregnritarinn gjörir ráð fyrir að skipið muni vera lagt af stað um það leyti sem ritgjörðin birtist. Gjört er ráð fyrir í bænaskránni að dvelja

Í hinum síðarnefnda er yfirlit gefið yfir "goðafræði, sögur og sagnir" Norðurlanda og bent á þýðingu þeirra fyrir nýju (ensku) bókmentirnar.—

Alls eru þetta 19 skólar: 8 í Austurríkjunum (Mass., Vt., N.Y. (3), N.J., Pa.—að Virginia meðtaldri); 9 í Miðvestur-ríkjunum (Ohio (2), Mich., Ind., Ill., Missouri, Minn. (2), Kansas), og tveir í Californíu.

Þess má geta að í lestrarbókum, sem gefa úrval úr heimsbókmentunum, eða bókmentum Evrópu eru oft einhverjir kaflar úr Eddu eða sögunum.

III.

Í þessu yfirliti, sem bundið er við kenslu í íslenzkum fræðum hefir ekki verið rúm til að geta margra fræðimanna, sem fengist hafa — og fást jafnvel enn — við íslenzk fræði að meira eða minna leyti.

Til dæmis um þessa menn skal eg fyrst nefna þann, sem mér er kunnastur, prófessor Kemp Malone hér í J. H. U. Hann kveðst aldrei hafa haft tækifæri til að kenna íslenzku, en ritgerð hans um hljóðfræði íslenzkrar tungu (The Phonology of Modern Icelandic, 1923) er áreiðanlega eitthvert hið skarplegasta rit á því sviði, þótt eigi sé það að sama skapi læsilegt. Annars er hann nákunnugur fornritum vorum og hefir ritað fjölda skarplegra greina um samband þeirra, eða réttara sagt, sagna þeirra við fornenskar (Béowulf, Widsiþ) og forngermanskar sagnir. Honum má og þakka það, að háskólinn hér á nú orðið allgott, íslenzkt bókasafn.

Þá má nefna prófessor A. LeRoy Andrews (Cornell), sem ritað hefir um lýgisögur og gefið út Hálfssögu (Altnord. Sagabibliotek 1909); H. G. Leach, ritstjóra tímaritsins "Forum" sem ritað hefir merkilega bók, Angevin Britain and Scandinavia (1921) um ensk áhrif á Norðurlönd á 12. og 13. öld; og loks Margaret Schlauch, sem, auk ritgerða og þýðinga á Völsungasögu og Ragnars sögu Loðbrókar, hefir ritað markverða bók um lýgisögurnar: Romance in Iceland (1934).

Sir William A. Craigie, málfræðingurinn mikli og hinn góðfrægi Íslandsvinur, hefir um nokkurt skeið verið prófessor í ensku við University of Chicago, en hann hefir, sem alkunnugt er, ritað merkilegar bækur og fjölda ritgerða um íslenzk efni. (Sjá um hann ritgerð Snæbjarnar Jónssonar, Eimreiðin, II., 1927.). Sveinbjörn Johnson, prófessor í lögum við University of Illinois, hefir samið bókina "Pioneers of Freedom" (1930) og vinnur að rannsókn forn-íslenzkra laga.

Af þýðendum má nefna þá A. G. Brodeur, er þýddi Snorra Eddu (1916); og H. A. Bellows, sem þýddi Sæmundar Eddu (1923) fyrir American-Scandinavian Foundation. Auk þess Thorstein Veblen, er þýddi Laxdælasögu (1925). — Nýlega hefir Theodore Jörgensen skrifað sögu norskra bókmenta— History of Norwegian Literature (1933)—og þar með hinna fornislenzku.

Fleiri mætti eflaust til tína, sem

áhuga hafa haft og hafa á íslenzkum fræðum; af eldri mönnum eru tveir hér við Johns Hopkins: Hermann Collitz fyrv. prófessor í germönskum fræðum, og Tunny Frank, prófessor í latínu er á yngri árum sínum skrifaði um forn-íslenzkar þýðingar úr latínu og setninga fræði Eddu.

Af hinum yngri mönnum má nefna tvo, sem báðir hafa áhuga á lýgisögunum: George S. Lane, Catholic University of America og J. H. Jackson, William and Mary College, Williamsburg, Virginia. Lane fæst við Bragða-Mágusar sögu, en Jackson hefir ýmsar lýgisögu-útgáfur á prjónunum. Eflaust mætti finna fleiri þótt hér verði látið staðar numið.

## IV.

## EFTIRMÁLI

Alt síðan á dögum Arngríms lærða hafa útlendir fræðimenn sókst eftir fræðslu þeirri, er íslenzkar bókmentir og íslenzk tunga geyma. Fyrst og fremst voru það, eins og nærri má geta Norðurlandabúar, er leituðu eftir og fundu sína eigin sögu í íslenzku bókmentunum, seinna komu Þjóðverjar og seinast Englendingar auga á gildi þeirra. Fyrir rúm um hundrað árum síðan varð íslenzkan í hendi snillingsins R. C. Rasks sá töfrasproti, er lauk upp fyrir honum nýjum heimum í myrkviðum málfræðinnar. Fyrstur manna kom hann auga á og lýsti byggingu málsins og sá um leið skyldleika þess, eigi aðeins við önnur germönsk mál, heldur einnig við hin fornu klassisku mál, latínu og grísku. Með litlu íslenzku málfræðinni sinni, sem hann hafði a. n. l. skrifað í skóla meðan hann brauzt við að lesa Heimskringlu á frummálinu, lagði Rask hornsteininn að hinni miklu byggingu, sem hélt áfram að rísa hærra og hærra um næstu hundrað árin: hin germönsku málvísindi. Rasks og íslenzkunnar er að vísu sjaldnar minst í sambandi við þetta afrek af því að honum entist hvorki heilsa né líf til að gera germönsku fornmálunum jafnt undir höfði. Það gerði J. Grimm, enda er hann að jafnaði talinn faðir germanskra málvísinda. Þessi vísindagrein blómgaðist einkum í Þýzkalandi og það til skamms tíma, en hefir nú síðustu tíu árin eða svo verið á fallanda fæti. Ástæðan til þess var sú, að málvísindin höfðu smámsaman klofnað frá bókmenta vísindunum og vaxið geysilega. Maður, sem vildi læra þýzku eða þýskt mál varð eigi aðeins að kunna þýzkt nútíðarmál til hlítar, heldur einnig miðþýzku, forn-háþýzku, forn-lágþýzku, fornensku, forn-íslenzku og gotnesku, auk þess að kunna góða grein á hinu svonefnda germanska frummáli og sambandi þess við fjarskyldari tungur, hin indo-germönsku málin, eins og latínu og grísku o. s. frv. En eins og nærri má geta varð "kunnáttan" í þessum mörgu tungum oft nokkuð einhliða. Þýzkir stúdentar munu þó hafa lært íslenzka málfræði sæmilega vel og oft orðið læsir á málið, en eins og gefur að skilja höfðu þeir ekki tíma til að glugga neitt

að ráði í bókmentirnar. Þessi kensluaðferð hefir einnig rutt sér til rúms á Norðurlöndum og lifir þar jafnvel betra lífi nú en í heimahögunum. Í Englandi hefir hún einnig rutt sér til rúms, en aldrei orðið einvöld. Englendingar hafa frá öndverðu litið hlutina öðrum og praktiskari augum en Þjóðverjar. Í fyrstu voru þeir svo praktiskir, að þeir gátu ekki séð til hvers í skrattanum menn væru að hnýsast í þessi gömlu germönsku fræði yfir höfuð að tala. Þeir létu hið fræga fornkvæði sitt Beowulf—Bjólfs-kviðu liggja óútgefið og lesið í British Museum þangað til Dana-konungur sendi íslenzkan fornfræðing, Grím Thorkelín, til Englands að svipast um eftir handritum, er snertu Dana-sögu. Thorkelín gaf út Beowulf (1815) fyrstur manna, en gamli N. F. S. Grundtvig las hann fyrstur manna af talsverðum skilningi, þýddi hann á dönsku, og dró Englendinginn sundur og saman í háði, þar til hann gat ekki lengur á sér setið og fór að sinna þessum fornu fræðum sínum. Brátt lærðu þeir af Grimm virðingu fyrir öðrum germönskum málum og nauðsyn þess að lesa þau til skýringar móðurmálinu, og á dögum þeirra Guðbrands Vigfússonar og Eiríks Magnússonar voru íslenzk fræði ekki annarsstaðar með meiri blóma utan Norðurlanda en í Englandi. Síðan hafa ávalt verið einhverjir góðir fræðimenn í Englandi, sem sint hafa íslenzkum fræðum og hefir áhuginn á þeim sýnilega farið í vöxt síðustu árin. En þrátt fyrir þýzku áhrifin á enska fræðimenn hafa fæstir þeirra fest sig við formshliðina, málið sjálft, heldur hefir áhuginn verið meiri á efninu; því var það að Englendingar fengu skjótt þýðingar af íslenzkum fornritum og hafa ávalt bætt við þær nýjum og nýjum ritum.

Í Ameríku er auðséð að þessir tveir straumar hafa mæst. Sumstaðar hefir áhuginn verið mestur á málfræðinni, á þýzka vísu, annarsstaðar hefir hinn enski áhugi á efninu orðið ofan á. Er þetta sjáanlegt af kensluskrám skólanna og mundi þó koma betur í ljós, ef eftir væri grafist. Hér við bætist svo hinn sérstaki áhugi er menn af norrænum stofni, einkum Norðmenn, hafa á málinu og bókmentunum. Þó er það sýnilegt að mjög fáir leggja á sig mikið nám vegna málsins sjálfs. Málfræði er yfirleitt ekki vinsæl fræðigrein í þessu landi. Miklu meiri áhugi virðist vera á efninu sjálfu, bókmentunum, en því miður er málið of erfitt til þess að margir nenni að leggja það á sig að verða læsir á það, og það jafnvel ekki sjálfir Norðurlandabúar. Þetta er auðvitað sízt af öllu tiltökumál, þegar þess er gætt, að mikill fjöldi fyrstu kynslóðarinnar af hvaða þjóðflokki sem er nennir hvorki né vill læra mál foreldra sinna. Þjóðræknir innflytjendur geta reitt hár sitt og skegg yfir þessu ræktarleysi barnanna, og málfræðingarnir mega fórna höndunum yfir tornæmi og óvilja stúdentanna gegn útlendum tungum, en það er vafasamt að slíkt komi að nokkru gagni. Hitt er auðvitað snjallara að aka segl-

um eftir vindi og reyna að mæta áhuga og kröfum stúdentanna á miðri leið með þýðingum af fornritunum og léttum byrjendabókum eins og t. d. lesbókum Sir William Craigie's. Reyna mætti og að gera málfræðina sem einfaldasta, sníða hana stranglega við barna og byrjenda hæfi. Textana mætti gefa út með skýringum neðanmáls, eða ef til vill með þýðingu á annari hvorri blaðsíðu. Einkum virðist þetta mundu vera tiltækileg aðferð þar sem þess væri æskt, að breiða út þekkingu á málinu vegna bókmentanna og hinna fornu menningarverðmæta, með öðrum orðum í löndum Norðurlandabúa í Miðvestur-ríkjunum, og þá ekki sízt meðal afkomenda Íslendinga. Virðist mér sem þetta mundi auðförnust leið til þess að teygja þá aftur að hinum forna týnda arni máls síns og menta. Þó má ekki gleyma því að íslenzkan er í eðli sínu svo margbrotin og erfitt mál, að án nokkurrar áreynslu frá nemandans hálfu verður kunnáttan í henni kák eitt, og næsta ófullkomin.



# Séra Jónas A. Sigurðsson

Í síðasta skifti er eg sá þig,
Þú sagðir í gamni við mig:
"Ó, sendu mér vísu." Eg vissi' ei,
Að væri' eg að kveðja þig.

"Að yrkja ljóð um þig látinn?"
Sem leiftur mér skrapp af vör.
"Nei, ljóð, á meðan eg lifi,"
Þú lagðir á streng sem ör.

Og aldrei eg orti' um þig vísu,
Í afstöðu komið skarð.
Eg frétti þitt dauðsfall. En dæmið,
Mér djúpsett í huga varð.

*Jón Kernested.*

# Hákon Farmann

Eftir *J. Magnús Bjarnason.*

Sumarið 1875 tóku nokkrar íslenzkar fjölskyldur sér bólfestu á Mooselands-hálsum í Nýja-Skotlandi. Á tveimur stöðum á því svæði sáust glögg merki þess, að þar höfðu málmnemar haft bækistöð sína um skeið, fyrir fáum árum, því að þar voru dálítil rjóður í skóginum og bjálkakofar, sem enn voru ekki orðnir mjög hrörlegir. Annað þessara rjóðra var á hinni svokölluðu *Riders*-hæð. Þar var í þrjú ár maður að nafni John Rider, og var hann af enskum ættum. Hann leitaði gulls þar á hálsunum en að mestu árangurslaust. Um hann gengu margar ýkjukendar sögur. Síðasta veturinn, sem hann var á hálsunum, viltist hann í skóginum og komst með naumindum til mannabygða. Og skömmu síðar fór hann til Englands, og ætlaði þaðan í gull-leit til Ástralíu.

Hitt rjóðrið var á hæð, sem kölluð var *Sailors*-hæð, þar var allstórt byrgi og fremur nýlegt. Árið 1873 var þar maður, sem nefndur var *Sindbad the sailor*, og var hann (eins og John Rider) að grafa til gulls á ýmsum stöðum þar á hálsunum; en hvort hann fann þar nokkurt gull, vissi víst enginn. Um hann gengu margar kynlegar sögur, og voru þær flestar nokkurs konar hetju-sagnir, en enginn þóttist þó vita hið rétta nafn hans. Hann var sagður að vera danskur eða hollenzkur, og hafði verið lengi í siglingum, og því var hann alment nefndur *Sindbad the sailor*. En hann hvarf skyndilega af Mooselands-hálsum, og var haldið að hann hefði farið heim til Danmerkur eða Hollands, eftir að hafa dvalið um hríð í bænum Trúró.

Íslendingum á Mooselands-hálsum var það kunnugt, að fyrir víst þrír íslenzkir menn hefðu verið um hríð í Nýja-Skotlandi áður en nýlendan á hálsunum myndaðist. Einn þeirra þriggja manna fór heim til Íslands og kom aldrei aftur; annar fór líka skömmu síðar til Íslands, en kom brátt aftur vestur um haf og fluttist til Manitoba bjó þar lengi góðu búi, og er dáinn fyrir nokkrum árum; og hinn þriðji hvarf úr sögunni strax og hann kom til Nýja-Skotlands, og héldu sumir að hann hefði farið til Suður-Ameríku og dáið þar, eða á leiðinni þangað. — Síðasta árið, sem eg var austur við haf, hitti eg í svip íslenzkan mann, sem enginn í nýlendunni á Mooselandshálsum hafði nokkru sinni heyrt getið um; en eg hefi þá hugmynd, að hann hafi verið málmneminn, sem kallaður var *Sindbad the sailor*. Og skal eg nú í fáum orðum segja frá því, með hvaða hætti eg hitti hann:

Það var einn dag í byrjun septembermánaðar 1881, að eg átti leið um Musquodoboit-dalinn í Nýja-Skotlandi. Eg var þá á sextánda ári, og átti heima í íslenzku nýlendunni á Mooselands-hálsum. Eg var sendur til bónda nokkurs, sem var skozkur og hét Thomas Camp-

bell; og bjó hann austarlega á hinum svonefndu Hlynviðar-hálsum fyrir norðan bæinn Lower Stewiacke, um 35 mílur enskar frá nýlendunni. Var erindið til Campbell's það, að sækja nokkra dali, sem hann skuldaði föður mínum. —Eg lagði af stað að heiman fótgangandi snemma morguns og ásetti mér að ná til hins skozka bónda þá um kvöldið, vera þar nætursakir, og komast heim aftur næstu nótt. En eg hafði aldrei áður farið alla þessa leið, og varð eg því oft að spyrja til vegar, þegar vestur í Musquodoboit-dalinn kom; og tafði það mig nokkuð. Mér var oft sagt það þá um daginn, að skamt fyrir austan Hlynviðar-hálsana væri búgarður, sem nefndur væri *Lindsay's Farm*, og skyldi eg ganga þangað heim og spyrja rækilega til vegar, áður en eg legði á stað upp hálsinn fyrir vestan, því að þar þætti vandratað.

Það var komið fast að sólsetri, þegar eg náði til Lindsay's Farm. Það var stór og fallegur búgarður, og höfðu tveir Íslendingar verið þar vinnumenn um nokkurt skeið og kunnað þar vel við sig. En nú voru þeir löngu farnir þaðan. Eg gekk nú heim að húsinu, sem var bæði fallegt og reisulegt og stóð spölkorn frá þjóðveginum, og drap á dyr. Roskin kona, há og tíguleg, kom til dyranna. Og það var frú Lindsay sjálf — eigandi búgarðsins. Eg heilsaði henni og bað hana að gera svo vel að segja mér til vegar til herra Thomas Campbell's. Hún tók kveðju minni kurteislega og sagði mér mjög ítarlega hvaða leið eg skyldi fara. Benti hún mér á akbraut, sem lá þar upp hálsinn, og sagði að eg skyldi halda áfram þá akbraut, þangað til að eg kæmi að brú, er lægi yfir Elksá. Yfir þá brú átti eg ekki að fara, en halda heldur áfram upp með gilinu, og mundi eg þá koma eftir fáeinar mínútur að húsi herra Campbell's. — Eg þakkaði frú Lindsay fyrir þessar leiðbeiningar og kvaddi hana.

"Segðu mér eitt," sagði hún, þegar eg var í þann veginn að leggja af stað; "hvað heitir þú? Og hvaðan kemurðu?"

Eg sagði henni nafn mitt, og gat þess að eg kæmi frá íslenzku nýlendunni á Mooselands-hálsum.

"Hefirðu gengið alla leið frá nýlendunni í dag?"

"Já," sagði eg.

"Og hvað gamall ertu?"

"Eg er á sextánda árinu," sagði eg.

"Eg vil að þú farir ekki lengra í kvöld," sagði frú Lindsay; "það eru rúmar fjórar mílur til Campbell's, bráðum skellur myrkrið á, og þú ert orðinn þreyttur og svangur. Vertu hér í nótt."

Eg þakkaði henni þetta góða boð, en kvaðst þurfa endilega að komast til herra Campbell's þetta kvöld. Eg sagðist ekki vera þreyttur og ekki svangur, og eg sagði að mér þætti ekki mikið fyrir því, að hlaupa fjórar mílur.

Hún bað mig þá að þiggja mjólk að drekka. Það sagðist eg skyldi þiggja. Fór hún þá inn í húsið og kom að vörmu spori aftur með skál fulla af mjólk og rétti mér.

Og enn á ný bauð hún mér að vera þar til næsta dags, eða þá að bíða þangað til að vinnumenn sín-

ir kæmu heim af engjunum með hestana, svo hægt væri að fara með mig í léttivagni vestur til Campbell's. Eg þakkaði henni fyrir öll þau góðu boð, en tók það fram um leið, að eg væri ekki lúinn, og lagði síðan á stað og var hinn öruggasti.

"Mundu það, að fara ekki yfir brúna, heldur upp með árgilinu austan megin," hrópaði hún á eftir mér.

Eg sagðist skyldi hafa það hugfast.

Eg gekk nú rösklega og næstum hljóp við fót. Og þegar eg nokkru síðar leit til baka, sá eg að frú Lindsay stóð enn fyrir utan dyrnar á húsinu og horfði á eftir mér.

Þegar eg var kominn upp á brekkubrúnina, var dagsett. En tunglið var að koma upp. Og nú lá vegurinn inn í þéttan, hrikalegan myrkvið. Lá nú við að eg iðraðist eftir, að hafa ekki þegið hið góða boð frú Lindsay, því að mér þótti alt annað en skemtilegt, að horfa inn í skóginn. Eg herti samt upp hugann og greiðkaði sporið.

Ekki hafði eg lengi farið eftir þessum dimmu skógargöngum, þegar eg heyrði hófadyn mikinn fyrir vestan mig, og færðist hann óðum nær. Og rétt í því, að eg kom í krók, sem á brautinni var, sá eg mann á hvítum hesti koma á móti mér. Eg vék mér til hliðar og bjóst við að maðurinn mundi ríða fram hjá. En í þess stað steig hann af baki og fór að laga til hnakkinn á hestinum. Maðurinn var að sjá unglegur og þreklegur; en eg sá ekki vel andlit hans fyrir barðabreiðum hatti, sem hann hafði á höfðinu. Eg kastaði á hann kveðju, og tók hann undir, en mjög dræmt, og herti á hnakkgjörðinni um leið.

"Hvað varð af manninum, sem með þér var?" sagði hann eftir stutta þögn og leit til mín.

"Það er enginn maður með mér," sagði eg.

"Þú þarft nú ekki að segja mér neitt um það," sagði hann og brýndi raustina ofurlítið. "Eg sá tvo menn koma fyrir krókinn á brautinni, og annar þeirra gekk við staf. En nú er hann horfinn, og hefir því skotist hérna út í skóginn um leið og eg steig af baki."

Eg reyndi til að fullvissa hann um að eg væri einn míns liðs, og að eg hefði engan mann séð frá því að eg fór frá Lindsay's Farm og þangað til eg mætti honum. En hann sagðist eiga bágt með að trúa því.

"Hvaðan kemurðu?" sagði hann.

Eg sagði honum það.

"Ertu ekki hræddur að vera einn á ferð um nótt í dimmum skógi?"

"Nei," sagði eg. "Eða við hvað ætti eg að vera hræddur?"

"Við myrkrið í skóginum. Það er margt, sem í skóginum býr."

"Eru þá bjarndýr hérna í skóginum?" spurði eg.

"Þau eru sjaldan á ferð um þessar slóðir."

"Hvað ætti eg þá að óttast?" spurði eg.

"Geturðu ekki ímyndað þér, að stigamenn séu hér á ferð um nætur?"

"Eg óttast ekki stigamenn," sagði eg, "því að eg hefi enga peninga á mér."

"En stigamenn, sem kynnu að mæta þér, gætu þó ímyndað sér, að þú værir ekki alveg peningalaus, þar sem þú ert langferðamaður, og þeir mundu leita í vösum þínum, til þess að ganga úr skugga um það."

"Og þeir mundu ekkert finna í vösum mínum, nema gamlan sjálfskeiðing," sagði eg.

"Sjálfskeiðinginn mundu þeir hirða."

"Samt fengi þeir hann ekki alveg fyrirhafnarlaust," sagði eg og bar mig nokkuð borginmannlega, þó mér þætti þetta tal mannsins fremur óviðkunnanlegt.

"Ojæja!" sagði hann. "Þú vilt láta mig trúa því, að þú sért engin kveifa. En hvert ertu að fara?"

"Til herra Campbell's. Er nú langt þangað?"

"Hálf önnur míla. Það er fyrsta húsið, sem þú kemur að, og er skamt fyrir vestan gilið."

"En mér var sagt að það væri austan megin við ána, og að eg ætti ekki að fara yfir brúna," sagði eg.

"Hver sagði þér það?"

"Frú Lindsay."

"Þú hefir tekið skakt eftir, eða frú Lindsay hefir orðið mismæli, því að þú verður að fara vestur yfir brúna, til þess að komast til Campbell's. Húsið er tæplega hundrað faðma frá gilinu, og stendur þétt við veginn." Og um leið og hann sagði þetta, steig hann á bak hestinum, hélt austur veginn og fór mikinn.

Eg hélt vestur hálsinn og gekk greitt. Eftir nokkra stund kom eg að brúnni, sem lá yfir Elksá, þar sem hún rann eftir þröngu og djúpu gili ofan af hálsinum. Elksá er ekki mikið vatnsfall, nema í leysingum á vorin, og var nú aðeins lítill lækur. — Við gilið nam eg staðar dálitla stund og var á báðum áttum um það, hvort heldur eg ætti að halda áfram yfir brúna, eða fara brautina, sem lá upp með gilinu að austanverðu. Eftir nokkra umhugsun réð eg það af, að fara heldur vestur yfir brúna, því að mér heyrðist með köflum menn vera að tala saman ekki all-langt fyrir vestan gilið.— Þegar eg var kominn góðan spöl frá brúnni sá eg alt í einu ljósi bregða fyrir skamt fram undan. Og eftir stutta stund kom eg að stórri hlöðu, sem var þétt við veginn. Skamt frá var hvítt og reisulegt íveru-hús, sem stóð undir stórum runna af eplatrjám. Og þóttist eg vita, að þetta væri búgarður Thomas Campbell's.—Við hlöðuna var kona með mjólkurskjólu í hendi, og lítil stúlka, sem hélt á ljóskeri. Eg heilsaði þeim og spurði konuna, hvort herra Thomas Campbell ætti hér ekki heima.

"Nei," sagði konan; "Thomas Campbell býr fyrir austan ána og um hálfa mílu frá brúnni. Það er Duncan Campbell, sem á hér heima. Og hann er sonur minn. En hvað heitir þú, og hvaðan kemurðu?"

Eg sagði nú konunni alt af létta: hvað eg héti og hvaðan eg kæmi, að frú Lindsay hefði vísað mér til vegar og sagt mér að fara ekki lengra vestur en að brúnni, en að ungur maður á hvítum hesti hefði mætt mér á hálsinum og sagt mér að Campbell ætti heima fyrir vest-

an Elksá, og að eg hefði að lokum farið eftir hans leiðsögn. Sagðist eg vera glaður að vita, að eg væri þó ekki kominn lengra en þetta af réttri leið, og að nú mundi eg rata til herra Thomas Campbell's.

"Það verður bezt fyrir þig að vera hér í nótt," sagði konan, þegar eg var í þann veginn að kveðja hana og snúa til baka að brúnni. "Þú hefir komið langan veg í dag, og þú ert orðinn þreyttur. Í fyrramálið getur þú fundið Thomas Campbell. — Maðurinn á hvíta hestinum sem þú mættir á hálsinum í kvöld, er Duncan sonur minn. Hann hefir ætlast til, að þú yrðir hér nætursakir, því að hann veit, að Thomas Campbell og hans fólk verður á samkomunni, sem haldin verður í nótt í skólahúsinu niðri í dalnum og kemur ekki heim fyr en í dögun á morgun. Eg vil þessvegna að þú verðir hér í nótt."

Eg tók þessu góða boði með þökkum og var hjartanlega feginn að geta fengið þarna næturgistingu, því að eg var orðinn bæði þreyttur og svangur. Og gekk eg heim að húsinu með konunni og litlu stúlkunni.

(Eg fékk síðar að vita, að þessi kona var ekkja Malcolms Campbell, sem var skipstjóri um langt skeið og nafnkunnur merkismaður í Nýja-Skotlandi og átti lengi heima í Dartmouth. Hann dó stuttu áður en Íslendingar tóku sér bólfestu á Mooselands-hálsum. Frú Campbell bjó nú með sonum sínum tveimur, Duncan og Robert, á þessum búgarði við Elksá, og var Duncan talinn fyrir; og það var hann, sem eg hitti um kvöldið á hálsinum).

Þegar eg kom inn í húsið, vísaði frú Campbell mér til sætis í borðstofunni, og litlu síðar bar hún mat og drykk á borð fyrir mig. Hún sagði mér að hún og litla stúlkan ætluðu að sækja samkomuna, sem haldin yrði um nóttina í skólahúsinu niðri í dalnum, og þar yrði systir sín líka. En hún sagðist ætla að búa um mig, áður en hún legði af stað, á legubekknum þar í stofunni, og gæti eg lagt mig til svefns þegar eg vildi.

"Þegar þú vaknar á morgun," sagði hún, "þá verðum við öll komin heim, því að samkoman varir ekki lengur en til klukkan eitt eða tvö í nótt. — En áður en þú ferð að hátta, geturðu ef þú vilt, talað við hann herra Farmann, því að hann fer ekki með okkur til samkomunnar. Hann er Íslendingur eins og þú."

"Á Íslendingur hér heima?" spurði eg og leit stórum augum á frú Campbell.

"Já," sagði hún; "og eg er viss um að hann hefir gaman af að tala við þig. Það er svo langt síðan hann var með Íslendingum. Eg hefi þegar látið hann vita, að þú verður hér í nótt."

Undir eins og eg var búinn að borða, sagði frú Campbell að eg skyldi koma með sér yfir í herbergið hans herra Farmanns. Og var eg fús til þess. Við gengum svo út úr borðstofunni, og komum von bráðar að dyrum, sem voru innar í húsinu. Konan drap hægt á hurðina og sagði um leið: "Herra Farmann, hérna kem eg

með drenginn, sem eg mintist á við þig áðan.''

Dyrnar lukust upp undir eins. Og fyrir framan okkur stóð roskinn maður, lágur og grannur og ofurlítið lotinn. Hann var að sjá nokkuð hvatskeytlegur, en þó jafnframt glaðlegur, og bauð góðan þokka. Hár hans var silfurgrátt og eins skeggið, sem var þétt og ekki sítt.

''Eg skal annast um drenginn, frú Campbell,'' sagði hann. Og rödd hans var viðfeldin. Hann tók því næst í hönd mína, heilsaði mér á íslenzku og bauð mér inn í herbergið til sín. En frú Campbell bauð okkur góða nótt og gekk fram í borðstofuna.

Herbergið, sem herra Farmann hafði til umráða, var fremur stórt. Þar var vel uppbúið rúm, stór bókaskápur, fallegt skrifborð, íslenzk kista, og tveir stólar. Á borðinu var skrautlegur lampi, og nokkur dagblöð lágu þar, sem hann hafði verið að lesa, þegar frú Campbell drap á dyr.

''Herra Farmann,'' sagði eg, þegar eg var seztur, ''eg bjóst sízt við því, þegar eg fór að heiman í morgun, að eg myndi hitta Íslending í kvöld.''

''Kallaðu mig *Hákon,*'' sagði hann í lágum hljóðum. ''Það er skírnarnafn mitt.''

''Hvers son ertu?'' spurði eg.

''Eg hefi kallað mig *Farmann* síðan eg kom til þessa lands, því að eg var lengi við sjóinn riðinn og 'lá úti á sætrjám vetur og varmt sumar,' eins og þeir að orði komust, gömlu karlarnir — Víkingarnir.''

''En hvað hét faðir þinn?''

''Þú hefir sjálfsagt aldrei heyrt mín getið,'' sagði hann, hreyfði blöðin, sem lágu á borðinu, og lét sem hann hefði ekki heyrt spurningu mína.

''Nei, aldrei. Og eg bjóst hreint ekki við því að eg mundi hitta Íslending hér um slóðir.''

''Atvikin höguðu því samt svona til, að við hittumst hér í kvöld,'' sagði hann og brosti góðlátlega. ''Í morgun fórst þú á stað af Mooselands-hálsum með þeim ásetningi að ná til Thomas Campbell's í kvöld og vera þar natursakir. Og í morgun var eg í heyönnum niðri í dalnum fyrir vestan, og bjóst ekki við að koma hingað heim fyr en að þremur dögum liðnum. En atvikin komu því til leiðar, að eg var knúður til að skreppa heim um nónbilið í dag og verð að bíða hér þangað til í fyrramálið. Og eins komu atvikin því til leiðar, að þú mættir manni hér á hálsinum í kvöld, manni, sem af ásettu ráði og í góðu skyni vísaði þér hingað. Atvikin eru oft undarleg. Við skiljum ekki það lögmál, sem stjórnar því, er við mennirnir köllum *tilviljun.*''

''Ertu búinn að vera lengi hér í Musquodoboit?'' spurði eg.

''Eg var búinn að vera rúm þrjú ár hér í Nýja-Skotlandi, þegar Íslendingar tóku sér bólfestu á Mooselands-hálsum. Það var ofurlítið atvik, sem olli því, að eg fluttist til þessa fylkis í staðinn fyrir að fara til Utah, eða þá til Wisconsin. Atvikin hafa altaf stöðugt verið að breyta áformum mínum og fyrirætlunum frá því fyrst að eg komst á legg, svo eg

hefi aldrei getað náð því takmarki, sem eg hefi sett mér.''

''Hvað var það, sem kom þér til að setjast að í þessu fylki?'' spurði eg hálf-hikandi.

''Það var í sjálfu sér svo smávægilegt, að það tekur því ekki, að segja frá því. En það atvik hafði það í för með sér, að eg fór að grafa til gulls á hálsunum, þar sem íslenzka nýlendan er nú. Þar bygði eg mér kofa nálægt Tangierfljótinu, um þrjár mílur frá hæðinni, þar sem John Rider, hinn enski, hafði reist kofann sinn. Þú kannast vafalaust við hina svokölluðu *Riders-hæð?*''

''Já. — Eg hefi heyrt margar kynlegar sögur um John Rider. Og eg hefi líka heyrt margar sögur um hinn dularfulla gullnema, sem kallaður var *Sindbad the sailor.*''

''Einmitt það!'' sagði Hákon. ''Hann John Rider var vissulega undarlegur maður. Hann leitaði að gulli á Mooselands-hálsum, en hann fann það aldrei. Hann var nokkurs konar soppur, sem atvikin slóu fram og aftur um leikvöll tilviljunarinnar og þau hröktu hann að lokum, nær dauða en lífi, af hinum hrjóstrugu hálsum. Og hann var löngu farinn þaðan burtu, þegar eg kom þar.''

''Fanstu þar nokkurt gull?'' spurði eg.

''Eg var þar aðeins eitt ár. Höndin, sem stýrir atvikunum, gjörði þar einnig vart við sig og kom í veg fyrir það að eg gæti haldið áfram að vera þar.''

''Var þér þá bannað að leita þar að gulli?'' spurði eg. Eg vildi endilega fá að vita meira um æfi þessa manns, en vildi síður að hann væri langorður um orsakir og afleiðingar hvers einstaks atviks.

''Hver gat bannað mér að grafa til gulls á þeim eyði-hálsum?'' sagði Hákon, og það brá fyrir leiftri í augum hans, sem voru stálgrá og hörð. ''Eg slasaðist. Það var um hávetur. Eg gat enga björg mér veitt. En það voru rúmar tuttugu mílur til mannabygða.''

''Hvernig slasaðist þú? Var það beinbrot? Eða hjóstu þig í fótinn með öxi?''

''Það skiftir minstu, hvernig það vildi til,'' sagði Hákon hálf-önuglega. ''Eg bara slasaðist og gat mig hvergi hrært í kofanum. En þá kom mér óvænt hjálp. Ungur veiðimaður var á ferð um hálsana og kom í kofann til mín af tómri tilviljun. Hann bauðst til að flytja mig til mannabygða. Hann hafði léttan sleða með sér og bjó um mig á honum. Hann gekk svo fyrir sleðanum og dró hann eftir hinum mjóa og krókótta stíg, sem lá í gegnum skóginn, alla leið vestur yfir hálsana og ofan í Musquodoboit-dalinn. Það var þrekraun mikil og reyndi á karlmensku og þolgæði, því að ófærð mikil, sökum snjóþyngsla, var alla leiðina. Hann lagði á stað með mig um kvöld, því að tunglsljós var á. En um dagmál vorum við komnir til læknisins á Colback. Það bjargaði lífi mínu. Og hetjan unga, sem reyndist mér svona vel, var maðurinn, sem þú hittir á hálsinum hérna í kvöld og vísaði þér hingað. Hann var mér hinn góði Samaríti,

og ber af öllum ungum mönnum hér sem gull af eir."

"Varstu lengi veikur?" spurði eg.

"Eg lá rúmfastur í sjö vikur. Og allan þann tíma vitjaði þessi ungi maður um mig á hverjum einasta degi. Hann átti þó heima fullar fjórar mílur frá gistihúsinu, þar sem eg lá."

"Svo hefir þú farið hingað, þegar þér var batnað."

"Eftir slysför mína var eg í Trúró í næstum tvö ár. Þar vann eg mér inn töluverða peninga, og var fastráðinn í því, að fara heim til Íslands haustið 1875. En þá kom á ný dálítði atvik fyrir, sem með öllu breytti áformi mínu. Eg hætti við að fara til Íslands, og hinn góði vinur minn, Duncan, bauð mér að fara til sín og dvelja hjá sér eins lengi og eg vildi. Því boði tók eg með þökkum. Og hér vil eg una alla þá daga, sem eg á eftir að lifa, því að hér fer vel um mig."

"En því hættir þú við að fara til Íslands?" spurði eg hikandi.

Hákon lét sem hann hefði ekki heyrt spurningu mína. Hann spratt á fætur, gekk að dyrunum, opnaði þær og leit fram í ganginn. "Já, þá eru þær að fara, hún frú Campbell og María litla," sagði hann; "þær ætla að sækja skemtisamkomuna, sem haldin verður í nótt niðri í dalnum." Hann lét svo aftur hurðina og settist á ný við borðið.

Eg ætlaði nú endilega að leggja fyrir hann aftur sömu spurninguna. En hann fór strax að spyrja mig um ýmislegt viðvíkjandi fólkinu í nýlendunni. Hann vildi vita, hverjir það væru, sem farið hefðu þá um sumarið vestur í Rauðárdalinn, og hvenær hitt fólkið ætlaði að leggja á stað. Hann kvaðst álíta það alveg rétt gjört af nýlendubúum, að flytja burtu af hinum hrjóstrugu Mooselands-hálsum. En hann tók það fram um leið, að samt væri enginn vafi á því, að þeir hefðu lært mikið þann tíma, sem þeir væru búnir að vera þar.

"Það voru undarleg atvik, sem fluttu Íslendinga upp á þá hálsa," sagði hann; "og það eru óviðráðanleg atvik, sem nú eru að ýta þeim þaðan burtu. Sá, sem stýrir þeim atvikum, er vitur, og hann slær engu þeirra út tilgangslaust. Hönd hans er að vísu ósýnileg, en máttug og óskeikul."

"Eg skil það ekki," sagði eg. "En mætti eg fá að vita, af hverju þú hættir við að fara heim til Íslands?"

"Þei! Mér heyrðist vera barið á framdyrnar," sagði Hákon, stóð upp og gekk fram í ganginn. En hann kom aftur að vörmu spori. "Það var bara vindurinn," sagði hann í lágum hljóðum. "Og eg vil taka það fram, einu sinni enn, að alt, sem lifir og hrærist í heiminum, er sífeldlega háð ófyrirsjáanlegum atvikum og tilviljunum. — Á yngri árum mínum þekti eg mann nokkurn, sem hafði marga þá kosti til að bera, sem karlmann mega prýða. En þessi dularfullu atvik sóttu svo þrálátlega að honum, að flestar hans fyrirætlanir og áform urðu að engu. Hann var alinn upp í föðurhúsum, í miklu eftirlæti, ásetti sér snemma að ganga skólaveginn, komast í góða

stöðu, verða ríkur og vinna ættjörð sinni alt það gagn, sem hann mætti. En atvikin höguðu því svo til, að hann lærði aldrei meira en lestur og skrift, var alla æfi félítill kvæntist aldrei, fór í siglingar (sem háseti á kaupfari), kom á margar hafnir, þar sem hann var æfinlega gestur og útlendingur, og á efri árum settist hann að hjá fólki, sem var af öðrum þjóðflokki en hann, í afdal einum í framandi landi. Og upp úr langri æfi hafði hann að lokum alls ekki neitt, nema það, að nokkru góðu og greindu fólki varð hlýtt til hans. En það er líka það bezta, sem maður getur haft upp úr lífinu, og er mikils virði. — Og skilur þú nú?"

"Já," sagði eg. En samt var langt frá því, að mér findist eg skilja þenna einkennilega mann.

Nokkru síðar sagði Hákon að mér mundi vera bezt að fara að hátta, því að eg hlyti að vera þreyttur og sifjaður. Hann gekk svo með mér yfir í borðstofuna, og logaði þar ljós á lampa, og var búið að búa um mig á legubekk, sem var þar innar í stofunni.

"Þegar þú kemur á fætur á morgun," sagði Hákon, "þá verð eg allur í burtu, því á-morgun verð eg við heyskap í dalnum. Að líkindum hittumst við aldrei framar, þar sem þú ert í þann veginn að flytja vestur til Winnipeg, en eg verð hér, það sem eftir er æfinnar. — Já, þú vilt fá að vita, hvort eg er hér sem vinnumaður, eða minn eiginn húsbóndi. Alt, sem eg get sagt þér því viðvíkjandi, er það: að eg á hér heima, og að eg er hér eins frjáls og loftið, sem eg anda að mér. Og allir eru mér góðir og elskulegir, en Duncan þó beztur. — En áður en eg kveð þig og býð þér góða nótt, ætla eg að láta þig heyra viðlagið við gamalt vikivaka-kvæði. Það er svona:

"Utan eftir firðinum, sigla fagrar
fleyr,
sá er enginn glaður eftir annan
þreyr."

Hann hafði þessi vísuorð yfir þrisvar eða fjórum sinnum, tók síðan í hönd mína, bauð mér *góða nótt,* gekk fram að dyrunum, leit aftur sem snöggvast, bauð mér aftur *góða nótt* og gekk yfir í herbergið sitt. Eg sá hann aldrei eftir það, því að þegar eg fór á fætur um morguninn (og það var snemma), var hann lagður á stað fyrir góðri stundu, og að líkindum kominn alla leið ofan í dalinn fyrir vestan.

Á meðan eg borðaði morgunverðinn, talaði frú Campbell við mig um ýmislegt; en það var eins og hún forðaðist að minnast á Hákon. Eg reyndi aftur og aftur til að spyrja hana um hann, en svör hennar voru þá þannig, að eg var engu nær um það, sem mig langaði til að vita. Samt var það auðheyrt á þeim fáu orðum, er hún sagði um hann, að hún áleit hann góðan mann og greindan; og hún gaf það í skyn, að hún og synir hennar ættu honum mikið gott upp að inna.

Að afloknum morgunverði lagði eg aftur á stað. Frú Campbell gekk með mér yfir að brúnni á Elksá og vísaði mér á veginn, sem lá þar upp með gilinu. Eg kvaddi þar þessa ágætu, skozku konu og þakkaði henni fyrir góðgerðirnar.

Eftir fjórðung stundar var eg kominn til Thomas Campbell's. Hann bjó laglegu búi þar á hálsbrúninni. Bar eg strax fram erindi mitt og tók hann því vel. Hann vildi að eg yrði þar um kyrt um daginn og legði ekki á stað heim fyr en næsta dag. En eg sagðist verða að komast heim þá um kvöldið, því að faðir minn væri á förum vestur til Winnipeg. Afhenti herra Campbell mér þá dalina, sem hann skuldaði föður mínum, og ók með mig í léttivagni um tíu mílur norður Musquododoitdalinn. Á leiðinni var hann mjög skrafhreyfinn og spaugsamur og lék á als oddi, þó hniginn væri á efri aldur. Hann sagði mér ýmsar munnmælasögur um skáldið Robert Burns og fór með margar vísur eftir hann. Að lokum snerist tal okkar um Hákon og fólkið, sem hann bjó með. Heyrði eg strax á tali Thomas Campbell's að hann hafði gott álit á nágrannafólki sínu, enda var það náskylt honum; og hann fór lofsamlegum orðum um Íslendinginn (Hákon), sem hann sagði að væri sannur mannvinur.

"Hann herra Farmann er að vísu nokkuð undarlegur maður í háttum og dæmalaust sérvitur," sagði herra Campbell, "en hann er jafnframt mikill mannkostamaður og fróður um margt. Hann hefir sagt mér, að Nýja-Skotland sé land það, er forfeður hans fundu fyrir mörgum öldum og nefndu *Vínland* — ekki *Markland*, eins og sumir haldi fram, heldur sjálft *Vínland*. Þetta getur auðvitað verið einber hugarburður; en það getur líka verið satt. Og um það skulum við ekki skrafa, drengur minn Eg hefi þekt herra Farmann nú í full sex ár—og það að öllu góðu. Hann undi sér ekki í þessu landi, fyrst framan af, og ætlaði endilega heim aftur til ættlands síns haustið 1875, en hætti svo við það áform alt í einu."

"Veiztu af hverju hann hætti við að fara til Íslands?" spurði eg.

"Já, það veit eg með vissu," sagði herra Campbell. "Hann hætti við það af þeirri ástæðu, að hann lagði fram alla sína peninga (um fimm hundruð dollara), til þess að hjálpa þeim Duncan Campbell og bróður hans út úr skuldakröggum, sem þeir voru komnir í. En herra Farmann áleit Duncan velgerðamann sinn, því að Duncan bjargaði lífi hans, þegar hann (Farmann) slasaðist voveiflega úti í skógunum á Mooselands-hálsum, um tuttugu mílur frá mannabygðum, sem varð með þeim hætti, að skot hljóp úr byssu, sem hann handlék, og fór í öxlina á honum. Þegar honum batnaði, fór hann til Trúró, komst þar í létta vinnu, og gat lagt til hliðar um fimm hundruð dollara á tveim árum. Afréð hann þá að fara alfarinn til Íslands. Kom hann hingað í lok septembermánaðar árið 1875, til þess að kveðja Duncan. Varð hann þá þess var, að Duncan og bróðir hans voru í miklum skuldum, og þeir sáu sér engan kost annan en að selja mest af því, sem þeir höfðu undir höndum, og þar á meðal tvo hvíta gæðinga, sem þeim bræðrum þótti mjög vænt um. Þegar svo herra Farmann vissi með vissu, hvernig högum Duncans var háttað, hætti hann við að

fara til Íslands, bað vin sinn (Duncan) að þiggja alla þá peninga, sem hann átti, og láta þá ganga upp í skuldirnar. Duncan þáði þetta drengilega boð, en þó aðeins með því móti, að herra Farmann lofaði því, að flytjast til þeirra bræðra og vera hjá þeim það sem eftir væri æfinnar. Fluttist herra Farmann til þeirra þá um haustið, og hefir reynst því fólki vel. Það fólk er nú komið í góð efni og er það án efa þessum góða og göfuglynda Íslending að miklu leyti að þakka. En hann er með köflum undarlegur nokkuð og virðist hafa óbilandi trú á *forlög*."

Herra Campbell sagði mér ýmislegt fleira um Hákon en eg er löngu búinn að gleyma flestu af því.

Þegar eg kvaddi herra Campbell, var komið undir hádegi. Þá átti eg eftir að fara um 25 mílur, en eg náði háttum heima um kvöldið. Og alla leiðina var eg að hugsa um hin einkennilegu vísuorð, sem Hákon lét mig heyra um leið og hann kvaddi mig:

"Utan eftir firðinum sigla fagrar fleyr,
sá er enginn glaður eftir annan þreyr."

Eg skildi þau ekki þá, en nú finnst mér eg hafa hugmynd um, við hvað hann átti.

# The Way

*Eftir Dr. G. J. Gislason*

We lived in a world of Matter,
Of commerce, of wealth and of might;
And trusted our civilization,
To save us and lead us aright.

It changed to a world of Sorrow,
Of wars, desolation and pain;
Of grief for the dead and the wounded,
Of fear that they suffered in vain.

It changed to a world of Hatred,
Of greed, and of malicious deceit;
Of lust, of the Vanquished, for vengeance,
Of the Victors distrust and conceit.

It changed to a world of Famine,
Of pestilence, dread and despair;
To a world of human wreckage,
That Heaven alone can repair.

We live in a world of Chaos,
That nothing can set aright,
But Christ and his saving message
Of Justice, of Love and of Light.

# Björnstjerne Björnson og faðir minn

Eftir *Stgr. Matthíasson.*

Eg minnist þess frá bernskuárum mínum, að faðir minn hafði ýmislegt að athuga við skáldbróður sinn Björnstjerne Björnson. Og eg sé það nú, er eg les bréf föður míns, sem hann hefir skrifað Stgr. Thorsteinsson fyrir og um 1870, að þá þegar hefir farið að brydda á nokkurri andúð hjá honum gegn norska skáldinu.

Í einu bréfinu dags. 29. marz 1870 kastar hann fram nokkrum stökum til að spyrja Stgr. (sem þá var í K.höfn) um útlendar fréttir. Þar á meðal er þessi staka:

"Hvað er nýtt úr Noregi,
nötrar 'det storpralende'
bjarnstjörnótta búrhveli,
bylur ekki' í þess tröllhausi?"

Og í bréfi, dags. Móum 8. okt. sama ár, segir hann: "Mikill gauragangur er í Norðmönnum og því 'bjarnstjörnótta.' Hann vill að við söfnum atkvæðum hér á landi, hvort menn vilji koma undir Noreg. Því vil eg ekki pæla í; okkur er bezt, eins og vant er, að fara hægt, ekki sízt í stórræðunum."

Loks segir hann í bréfi þ. 25. nóv. sama ár: "— — — Jón Ólafsson strauk til Noregs. Það 'bjarnstjörnótta' vill að Íslendingar subscriberi um alt land bænarskrá til Norðmanna um þeirra hjálp til að losast við Danskinn. Já — tali hann nú við Jónsa litla. En Kjalnesingar fást seint til að syngja Marseillaisen."

Þetta nægir til að sýna, að faðir minn hefir framan af átt dálítið erfitt með að fella sig við Björnson, en margir voru farnir að lofa hann mjög um þær mundir. Honum fanst hann óþarflega hávaðasamur og aðsópsmikill í pólitíkinni og ýmsum blaðadeilum; en "skáld er hann," segir hann í einu bréfinu, er hann minnist á leikrit hans Sigurd Slembe og finnur því margt til foráttu. Sjón varð þó sögu ríkari þegar hann 1872 heimsótti Björnson; en við þau kynni fanst honum Bj. vera allmikill stórbokki en bæði þröngsýnn og kreddubundinn.

Björnson var þá aðeins fertugur, er þeir hittust (en faðir minn var þremur árum yngri), og Björnson losnaði með árunum svo furðu vel við kreddur og þröngsýni að faðir minn mátti vel við una og gat gleymt ókurteisinni í tilbót. Já, yfirleitt var hann seinast orðinn vel ánægður með frammistöðu Björnsons. En lengi framan af átti hann bágt með að gleyma því hve Björnson hafði farið í skap hans. Heyrði eg hann oft minnast á þetta í vinahóp.

Mér þótti þetta hálf leiðinlegt vegna Björnsons, því það litla, sem eg þekti hann þá, var af góðu einu, t. d. af *Kátum pilt* og nokkrum öðrum sögum er mér hafði líkað vel að lesa. Og svo var nú það, að mér fanst eftir myndum að dæma, sem þeir Björnson og pabbi væru harla líkir í sjón svo sem væru þeir bræður. Vangaskeggið gerði mikið, og drættirnir kring-

um nefið og munninn, og svo nefið sjálft sem var stórt á báðum (en reyndar talsvert bogið framan á Björnson), og loks var ekki um að villast sama hýra mannúðarsvipinn hjá báðum.

Eg hugsaði mér, að úr því að guð almáttugur tók sig til og skapaði tvö skáld, sem væru, hvort í sínu lagi, við hæfi beggja náskyldra frændþjóðanna, þá hlyti hann að skapa bæði skáldin lík hvort öðru—nökkut svá (eins og fornmenn sögðu. En svo var Ibsen. Hann og faðir minn voru einnig svipaðir; en það er önnur saga að segja frá því. Því get eg þó skotið inn, að lengi framan af hafði faðir minn miklu meiri mætur á Ibsen en Björnson, og því var það, að hann réðst í að þýða Brand (1884), en lítið sem ekkert eftir Björnson, fyr en seinna. Eg hygg það hafi verið fyrst undir aldamótin að honum var farið að geðjast betur og betur að Björnson. Að vísu hafði honum þótt mikið koma til *Arnljóts Gellini* og *Sverris konungs* og margra kvæða hans, en þó allra mest til leikritsins *Over Evne* og skáldsögunnar ágætu *Paa Guds Veje*. Og í Noregsför sinni 1898 kyntist hann skáldskap Björnsons enn betur.

Ekki hafði hann þó fyrir því að heimsækja hann þá. En hann kyntist í þeirri ferð mörgum góðum Norðmönnum, sem höfðu miklar mætur á Björnson og meðal þeirra var t. d. skáldið Anders Hovden. Þegar heim kom þýddi hann fjölda af kvæðum eftir mörg norsk skáld, og ekki sízt Björnson. Og til marks um, að hann þá var farinn að líta öðrum augum á Björnson en áður, má telja þýðingu hans á kvæði eftir Anders Hovden um Björnson. En sú þýðing er, að eg hygg, eins vel gerð og hann sjálfur hefði ort kvæðið og meint það. Það byrjar svona: (Sjá Östlunds útg. III. bls. 189):

"Hver er sá garpurinn gildi,
sem gnæfir við loftin blá,
fríður sem Fáfnisbani
með fagursilfraða brá?
Sjáið þar Björnstjerne Björnson!"

"Faðir hans Noregur nefnir
þann niðja: sitt hrós og von;
hann segir: 'Eg á nú engan
eins eigulegan son.' "

Og eitt versið (sem seinna hefir verið heimfært upp á föður minn af próf. Árna Pálssyni í heillaóskaskeyti á áttræðisafmælinu) er svona:

"Finst hér á víðri fold
í fólkinu dropi blóðs,
sem hann ei fjörgaði og fylti
til fagnaðar, eða til móðs?"

Það var vorið 1872, sem faðir minn heimsótti Björnson. Hann hafði þá um veturinn dvalið á Englandi og síðan í Danmörku og vildi nú einnig sjá Noreg áður hann færi heim. Hafði hann farið í þessa löngu utanför til að létta sér upp og reyna að láta hvarfla af sér hinn sára harm eftir sviplegt fráfall fyrstu tveggja eiginkvenna sinna, en þær misti hann á sóttarsæng hverja af annari. Hann var þá prestur í Móum á Kjalarnesi (síðan 1867) og hafði þar oft átt erfiða daga innan um fátækt og harðæri annað slagið; en að vísu voru bjartir sólskinsblettir á milli, eins og þessi vísa hans ber vott um:

"Margan yndismorgun
man eg er gullu svana-
hljóð og sól í heiði
hló í gömlum Móum.
Þó um kveld og kulda
Kjalar- hærra talar
næðing hels og nauðir
-nesið við hana Esju."

Það voru þessar Kjalarnesraunir hans, sem knúðu hann til utanferðar. Og ferðin varð honum ógleymanlega frjóvgandi og skemtileg.

Á Englandi hafði hann kynst frjálslyndum trúmönnum og lesið rit ýmsra andans skörunga enskra og amerískra, sem kastað höfðu mörgum leiðum kirkjukreddum, en voru eigi að síður vel kristnir. Og í Danmörku kyntist hann Grundtvigs "glaða" norræna kristindómi og lýðháskólahreyfingunni, sem honum geðjaðist vel að. En enn þá meira varð hann þó heillaður og snortinn af raunsæisstefnu hins eldfjöruga snillings Georgs Brandesar.

Með þessu og þvílíku andans veganesti var hann í þann veginn að halda heim, en brá sér þó fyrst til Noregs til að heilsa upp á Dofra og frændur vora, og til þess einnig þar "að heyra tímans hana gala."

Og hann fór eigi erindisleysu eins og kvæði hans *Til Noregs* ber vott um; en það byrjar þannig:

"Nú hef eg litið landið feðra minna,
það landið, sem mér hló á bernskudögum,
er sál mín drakk af helgum hetjusögum
frá Hálegg upp til Gríms hins loðinkinna."

Hér var hann heima hjá sér, í söguheimi frægra forfeðra, eins og væri honum snögglega lyft upp í æðra veldi átthaga sinna.

"Mér finst eg sjái móður minnar móður,
eg málið þekki, svip og alla drætti,
hér ómar alt af helgum hörpuslætti,
eg hlusta til, af djúpri undrun hljóður."

Hann fann sér skylt að heilsa nú upp á hið upprennandi þjóðskáld Norðmanna, og fór að finna Björnson. En þá þegar fór mikið orð af honum fyrir mælsku og skáldsnilli, þó miklu meira yrði síðar. Átti Björnson þá í miklum pólitízkum erjum bæði í Danmörku og Noregi og fór bæði "geyst ok rasandi."

"Hann þrumar sem Þór yfir foldu,
svo þokan af tindunum flýr;
það leiftrar af kraftanna kyngi
og kringum hann ofviðrið gnýr."

Svo kvað Hovden um hann í kvæði því, er fyr var getið. Og enn kvað hann:

"Hvast eins og haukur á flugi
horfir hann yfir frón;
hænsnin í gæsagörðum
glúpna, því búið er tjón."

En faðir minn var þá sem oftar lítið pólitískur og skeytti lítið um alt dægurþras, heldur þess meir um önnur æðri andans mál. Þar fann hann nú sér til sárra vonbrigða, að Björnson var furðu þröngsýnn og trúði enn á "undur" og kraftaverk og var enn þá hafnaður í norska þokuheiminum, eins og hann komst að orði.

---

Faðir minn segir svo frá í endurminningum sínum (Sögukaflar bls. 219), að einn góðkunningi Björnsons í Danmörku hafi gefið sér meðmælabréf til hans, en honum láðist að framvísa því, þar eð Björnson tók honum strax vel, og sagðist kannast við hann af umtali annara.

Björnson bjó þá í fallegu húsi í skógarlundi í nánd við Osló.

Þegar faðir minn kom inn lá Björnson snöggklæddur á legubekk

og reis á fætur. Samræður hófust fljótt, en brátt kom að því, að hvor hafði sína sérstöku meiningu um flesta hluti. Faðir minn segir svo frá:

"Einhvern veginn leizt okkur óðara sitt hvorum og kynlega leizt mér, satt að segja, á Björnstjerne. — — Þegar hann reis upp af bekknum rismikill og rammefldur, breiðvaxinn og brúnamikill, feitlaginn og framsettur, rauðbirkinn og búlduleitur, datt mér ósjálfrátt í hug: Þessi maður minnir mig á Magnús okkar sálarháska! Svo ósvífið er ímyndunaraflið, o. s. frv."

Og enn segir hann:

"Samræður okkar féllu fremur stirt, enda þóttist Björnson vita flest betur en eg hvar íslenzkum málum var komið; kvað hann vin sinn Hilmar Finsen hafa frætt sig um alt, sem hann vildi vita um okkar hag; stóð þá sem hæst, *hið norska samlag,* sem Norðmenn höfðu stofnað með miklum drengskap og örlæti, því þeir þóttust hafa frétt slæmar sögur af einokun danskra kaupmanna og hugðust því mundu lána oss keppinauta móti Dönum. Björnson var að vísu Íslandsvinur allmikill, en mjög fanst mér þekking hans og röksemdir standa til bóta, en lítt tók hann mínar tillögur til greina."

— — —

"Björnson var þá enn Grundtvígsinni; þótti honum eg vera helzti frárækur og frjálslyndur í trúarefnum og spurði hvort eg tryði ekki á undrið (mysteriet). 'Hvaða undur?' spurði eg. Hann svaraði því heldur dræmt, en kvaðst ekki þora að sleppa 'undrinu.' Eg svaraði á þá leið, að sú mundi tíðin nærri, að honum leiddist undraþokan norska. Hann lét það þá svo vera. Það varð og orð að sönnu. Því fáum árum síðar þótti enginn vantrúarmaður í Noregi skæðari en Björnson."

Eftir að viðræður þessar höfðu staðið nokkra stund, batnaði samkomulagið, því Karólína húsfreyja kom til sögunnar með rausn og alúð og blíðkaði skap skáldanna með vel framreiddum mat. Við borðið settist nú ásamt þeim, fríður hópur fjölskyldunnar og fáeinir vinir þeirra hjóna, sem hafði verið boðið. Urðu þá fjörugar samræður og kom þá upp annar og betri gáll á Björnson—eða eins og faðir minn segir sjálfur:

"Er eg var seztur við hlið skáldmæringsins og borðræður byrjuðu færðist fjör í hann og var hann þá hinn skemtilegasti. — Þekti og enginn maður Björnson fyr en hann tók alvarlega til máls eða var í góðu skapi, fékk hann þá nýjan svip, bæði ægilegan og andríkan, bæði þýðan og stórmannlegan, og engan ræðuskörung meiri eða maka hans áttu Norðmenn um hans daga." — — —

Hvorki matur né mælska gat þó yfirskygt óþægilegu endurminninguna um hina fyrri samræðu— a. m. k. lengi á eftir. Sézt það t. d. greinilega á bréfum, sem faðir minn skrifaði þeim Stgr. Thorsteinsson og Jóni Sigurðssyni nokkru seinna*).

Jóni Sigurðssyni skrifar hann

*)Bréf föður míns munu bráðum koma út.

(í bréfi dagsett Björgvin 15/6 1872) á þessa leið:

"— — — Eg heimsótti líka þá miklu stjörnu (ursus major) á skáldskaparhimni Norðmanna= Björnstjerne. Ekki kunni eg við þann mann; hann er ótrúlega forskrúfaður, fanst mér; heimti í þaula fantatiskan fróðleik af mér um hina og þessa, en ignoreraði alveg gest sinn: mig; mín "Stikkenhed" hefir nú eflaust aukið mikið á, en 'elskværdig' er Björnson ekki. — —

"Í pólitík okkar fanst mér Björnson líka eitthvað hringlandi og vindbelgingslegur og tók eg mér vara fyrir, að hræra ekki mikið þar upp í honum. Manninn vantar stillinguna og lítur æðistórt á sinn mjög svo lofaða mikilleik; skap hans er stórgjört og heitt en gáfan risavaxin til skáldskapar, en það eru hyggindi sem í hag koma."

Enn skal eg tilfæra stað í Söguköflunum þar sem faðir minn minnist óbeinlínis á framkomu Björnsons. Það er á bls. 323, þar sem hann segir frá því er hann í tvö skifti hitti Henrik Ibsen og spjallaði við hann: —"Tvisvar sinnum átti eg tal við hann og þótti mér karl æði stirður og orðfár, en þó kurteysari maður en Björnson."

Þeir hittust aðeins þetta eina sinni, faðir minn og Björnstjerne, —aðeins í þetta eina skifti, sem nú var sagt frá.

Faðir minn mundi upp frá því Björnson vel, fylgdi þroska hans og las rit hans eins og væru þau á hans eigin máli.

Björnson kann hins vegar að hafa munað eftir komu föður míns til hans, en tæplega mun hann hafa fylgst nokkuð með skáldskap hans, lífskjörum og starfi. Hæpið að hann hafi þekt og skilið nokkuð af kvæðum hans.

Nú get eg ímyndað mér, að öldungis eins og föður mínum mislíkaði framkoma Björnsons er þeir fundust, þá hafi Björnson mislíkað engu síður við föður minn, og það svo að hann hafi lengi munað það. Þeim sýndist sitt hvorum um þau mál er þeir ræddu, þeir þóttust báðir vita margt vel, hvor í sínu lagi, og þurfa lítið hvor til annars að sækja Þeir slitu samtalinu án samkomulags; og þó þeir slíðruðu sverðin, og gleymdu öllum skærum meðan frú Karólína gaf þeim gott að borða, þá færðust þeir þó lítið nær hvor öðrum og skildu á eftir —kurteyslega að vísu en kærleikslítið.

Þeir sáust aldrei framar og skiftust ekki á bréfum eða kveðjum. Að vísu skrifaði faðir minn Björnson og sendi honum kvæði á sjötugsafmæli hans, *en því bréfi svaraði Björnson ekki og aldrei þakkaði hann kvæðið*. Hvers vegna ekki? Það var þó kvæði, sem Björnson mátti telja sig vel sæmdan af og var ekki einasta persónuleg kveðja frá föður mínum til hans, heldur "kveðja til skáldsins" frá Íslandi. En sem sagt, Björnson þakkaði ekki nema þá eins og tíðkast með almennri þökk auglýstri í blöðunum fyrir auðsýndan heiður og vinsemd á sjötugsafmælinu, en það var vissulega ekki nóg fyrir svo gott kvæði.

En kvæðið, sem margir munu þekkja (sjá Úrval, bls. 213), hefir fyrir einkunnarorð byrjunina á hrynhendu Arnórs jarlaskálds til Magnúsar góða:

Haukur réttr ertu Hörðadróttinn,
hverr gramr er þér stórum verri, o. s. frv.

og byrjar þannig:

"Noregs frægi, nýi skáldaspillir
Norðurlöndin sýnast eitt í dag,
meðan skáldið gjörvall heimur hyllir
heiðra son sinn þau með einum brag.

Haukur ertu Hörðadrottinn fríður,
hvass á brún sem fyrrum ern og frjáls,
Dofra fóstri, frændi kær, þér býður
frægðarkveðju land þíns gamla máls.

Hér kvað við annan tón. Nú var föður mínum farið að lítast betur á Björnson en honum leizt við fyrstu samfundi þeirra 1872. Hann hafði auðvitað löngu gleymt þeim erjum, og eins og svo að segja allir, ekki sízt andans menn, hafði hann löngu lært að meta hinn arnfleyga skáldjöfur Norðmanna og dáðist að mælsku hans, mannúð og snild jafnt í bundnu sem óbundnu máli. Þessvegna hleður hann á skáldbróður sinn lofinu alveg óspart og segir:

"Enginn síðan aldinn skáldaspillir
orti ljóð um þann, sem féll á Storð,
enginn síðar sannleiks hörpustillir
söng og kendi drengilegri orð;
enginn kappi hjó svo hart og svifti
heillar þjóðar dauðri vanatrú,
enginn svanur landsins hjarta lyfti
listasnjalt og kröftugt eins og þú."

Og svo koma enn fimm erindi hvert öðru vingjarnlegra í garð Björnsons — þakkaróður fyrir frjálslyndi hans og drenglunduðu baráttu fyrir sannleik og réttlæti. Ef Björnson hefði lesið og skilið þetta kvæði er óhugsanlegt annað en að hann hefði hlakkað svo yfir því, að hann hefði a. m. k. komið öðrum til að njóta þess með sér og hefði síðan skrifað föður mínum hið hlýjasta þakkarbréf, eins hlýtt og hann gat bezt miðlað af sínum mikla *bjarnyl*. Tel eg þá sennilegt, að ekki hefði slitnað sambandið milli þeirra úr því.

Það má vera, að Björnson hafi lesið eða byrjað að lesa kvæðið, en þá hefir hann ekki skilið það eða réttara ekki gefið sér tíma til að reyna að skilja það eða fá hjálp til að skilja það, og hefir hann þá lagt það á glámbekk og síðan hefir honum gleymst að athuga það nánar. Þetta þykir mér miklu sennilegra, heldur en að bréfið hafi glatast og aldrei komist í hendur Björnsons, en þeirri skoðun hélt frú Karólína Björnson fram mörgum árum seinna. Eg var staddur í Noregi haustið 1919 og kyntist þá hinni gáfuðu konu og miklum Íslandsvini Ingu Björnson (bróðurdóttur skáldsins).. Eg sagði henni frá því, að Björnson hefði aldrei þakkað kvæðið, sem eg nú í þetta skifti las upp fyrir hana og þýddi jafnóðum eftir beztu getu. Hún var afarhrifin af kvæðinu og vildi fullyrða að alveg væri fráleitt að Björnson hefði nokkurn tíma fengið það, úr því hann aldrei mintist á það, en hún hét strax næsta dag að finna frú Karólínu að máli og spyrja hana hvað hún vissi um það. Hún gerði þetta og kom dáðum-hróðug til mín aftur daginn eftir með skilaboðum um að frúin vildi gjarnan sjá mig og spjalla við mig frekar um þetta mál, en svo mikið mundi mega telja víst að bréfið og kvæðið hlytu að hafa glatast úr því Björnson mintist á

hvorugt við sig, en hún sagðist minnast vel föður míns, er hann heimsótti þau og þessvegna lang aði hana nú til að kynnast mér. Því miður var eg þá á förum frá Osló og gat ekki þegið boðið—og hefi eg stundum harmað það hve eg þá var tímabundinn, en sannast að segja var eg þessvegna síður áfjáður að kynnast gömlu konunni, að eg vissi að hún var þá hrum orðin og karlæg og erfitt að tala við hana vegna heyrnardeyfu hennar, enda hugsaði eg sem svo, að lítið myndi nýtt fram koma í málinu.

En af föður mínum er það að segja, að honum þótti í fyrstu kynlegt að hann skyldi aldrei fá þakkarlínur frá Björnson fyrir kvæðið. Þá rifjaðist það upp fyrir honum að hann hefði skrifað utan á til hans *til Gaustad* í staðinn fyrir til Gausdal þar sem búgarður hans stóð, en Gaustad er geðveikrahæli, m. ö. o. langstærsti vitlausra spítali í Noregi, og gat hann þess í spaugi að út af þeim vistaskiftum mundi Björnson hafa stygst og rifið sundur bréfið með öllu saman. Annars held eg að pabbi hafi fljótt sætt sig við þá hugsun, að bréfið hafi hlotið að glatast fyllilega og síðan gerði hann sér ekkert far um að grafast frekar eftir því hvernig í hlutunum lá.

Hann var þá löngu búinn að fyrirgefa Björnson þröngsýnið við fyrstu viðkynningu þeirra, þegar hann furðaði sig á að Björnson var ekki lengra kominn *á andans leið* en að vera enn þá kreddubundinn kirkjumaður. En eins og hann einnig tekur fram breyttist veður í lofti fyr en varði, og Björnson kastaði öllum kreddum og samdi síðan hvert ritið öðru andríkara og snjallara og hlaut áheyrn alls hins mentaða heims.

En föður mínum þótti hann seinast fara svo langt í vantrú, vafasemdum og trúleysi að næst lá andlausri efnishyggju. Fanst honum þá, sem seinni villan ætlaði að verða verri þeirri fyrri. Um það vitnar kvæði, sem faðir minn orti að gamni sínu veturinn 1907. Það var í tilefni af grein, sem birtist í tímaritinu Samtiden, þar sem Björnson svaraði stuttlega spurningu eins blaðamanns um það hvernig hann liti á ódauðleik sálarinnar. Þótti föður mínum svarið neikvætt og þunt og sæma illa slíkum andans manni. Þessvegna stældi hann hið alkunna kvæði Björnsons*): "Over de höje Fjelde"—og sneri því upp á hann sjálfan; þar í er þetta:

> "Undrer mig hvad du fik at se
> over de höje fjelde.
> Öjnet du bare is og sne?
> Hvad blev der af det grönne træ?
> Kommer det aldrig over,
> drömmer det endnu og sover?

og þetta:

> Hvad —?— Kunde *du* heller aldri naa
> over de höje fjelde?
> Blev det hele du vandt og saa,
> det hele som ung du troede paa
> vrag af et skib, som forliste
> bund i din dödninge kiste?

Faðir minn hirti ekki að ergja Björnson með því að senda honum þessar stökur og tæplega mun þeim hafa verið veitt eftirtekt í

---

*)Sjá blaðið Norðurland 7. des. 1907 og í 4. árg. Iðunnar 1918, bls. 315 er þessum gamanstökum snúið á íslenzku af Jónasi Jónassyni.

Noregi fremur en öðru mörgu, sem birtist í blöðum vorum.

Og þótt föður mínum (sem fyrir áhrif andatrúarrita og miðilsfunda er hann hafði verið á þóttist orðinn sannfærður um persónulegt framlíf) þætti Björnson ekki fylgjast þar með eins og skyldi, erfði hann það ekki við hann, en hélt áfram að dást að gáfum hans og mikla dugnaði.

Kom það vel í ljós í erfikvæðinu er hann orti við lát Björnsons 1910 (sjá Úrval bls. 264).

Það hefst þannig:

"Brast við hátt
er bogastrengur
Þambarskelfis
þjóðsorg vakti;
brast enn bogi
beztur í Noregi,
en hremsa hvín
Við hjarta þjóðar?"

og eitt erindið hljóðaði svo:

"En því stóð ófriður
um afarmenni,
að hann merkið bar
né matst við aðra,
merki mannfrelsis,
merki stórhuga,
merki þjóðsóma
gegn þjóðarlýgi."

En svo eg víki aftur að hvarfi kvæðisins á sjötugsafmælinu, þá hefi eg oft velt því fyrir mér hvernig alt muni hafa atvikast.

Eins og eg áður drap á, þykir mér afarósennilegt, að bréfið og kvæðið hafi týnst og ekki komist alla leið til Aalestad þar sem Bj. bjó. Hitt þykir mér miklu trúlegra, að hvorttveggja hafi komist inn á heimili Björnsons og það engu síður þó það væri stílað til vitfirringaspítalans. Til heimilis Björnsons hlaut svo að segja hvert bréf að komast skilvíslega, jafnvel þó ekki stæði utan á því nema Noregur sem heimilisfang, en spaugilega misritunin Gaustad gat á engan hátt stygt Björnson, heldur þvert ámóti komið honum til þess að gefa slíku bréfi og sendanda nánari gaum. Og enn finst mér trúlegt að þetta bréf hafi mætt sömu forlögum eins og mörg önnur í þeim mikla byng af bréfum og bögglum og heillaskeytum og lofkvæðum, sem hrúguðust saman á heimili skáldsins kringum sjötugsafmæli hans. Þar kendi margra grasa og skal eg aldrei trúa því, að Björnson hafi nokkurn tíma sjálfur komist í gegnum þann bréfasæg, enda mikill þorri þeirra á ýmsum torskildum eða honum óskiljanlegum tungumálum. Það mundu fleiri skáld en Björnson hafa hroðað af þeim lestri og látið konu og börn hafa fyrir því að kynna sér hvað þar væri feitt á stykkinu og segja sér síðan.

*Íslenzkan var fyrir Björnson (og fjölskyldu hans) engu skiljananlegra mál, eða þó jafnvel torskildara en færeyska fyrir okkur Íslendinga, en fyrir börn hans, eins og marga Norðmenn, hygg eg íslenzkan hafi verið enn torskildari.*

Og enn verður mér að láta mér detta í hug, að bæði Björnson og þá ekki síður fólk hans, hafi litið svo á, að það sem íslenzkt væri—gæti ekki talist neitt sérlega merkilegt og mætti því fremur týnast en margt frá stærri þjóðunum og merkari.

Hvorki faðir minn né önnur skáld vor í þá daga náðu nokkurri

erlendri frægð eins og sum skáld íslenzk hafa náð seinna.

Ég hygg að faðir minn hafi stundum fundið nokkuð til þess, að hann náði ekki eyrum annara þjóða líkt og þeir Björnson og Ibsen.

Eitt sinn kvað hann þetta:

Eitt er landið Ægi girt
yzt á Ránarslóðum,
fyrir löngu lítilsvirt
langt frá öðrum þjóðum.
Um þess kjör og aldarfar
aðrir hægt sér láta;
sykki það í myrkan mar
mundu fáir gráta."

Þetta kvæðiserindi föður míns hljóðaði upp á fósturjörðina, en það hljóðaði einnig upp á öll landsins börn og þar með einnig upp á sjálfan hann. Og hann var ekki vanur að skæla út af smámunum! Í næstu andránni var hann vís að segja með Þórði í Koti: "Gerir ekkert, bara betra!"

Hann öfundaði ekki Björnson, því hann vissi að Björnson var engu sælli í sínum stærri verkahring en hann í sínum smærri. Báðir voru gæfumenn af því þeim var mikið gefið til að geta miklu miðlað öðrum.

# Memories

*Eftir Dr. G. J. Gíslason*

Sweet memories, beneath your verdant bowers,
Fair garden of past joys—ever green
Enraptured we relive the blissful hours,
Of bygone days in resurrected sheen.

Our dreams of the Future are but childish Joys,
Draping our coming days in fair disguise,
That the next chilling storm of life destroys,
And leaves us as fools, bereft of Paradise.

The Present with its stern exacting duty,
Is but tomorrow's past—to recollect,
A moment brief, to crown with love and beauty,
That it may live in happy retrospect.

The Past alone remains, it is the treasure,
Of our achievements, failures, smiles and tears;
The ever growing source of pain and pleasure,
That richly dowers all our future years.

# Islenzk fornrit og enskar bókmentir*

Eftir *prófessor Richard Beck.*

## I.

Þegar eg hugleiði hversu víðfeðm og djúptæk áhrif íslenzkra fornbókmenta hafa orðið, kemur mér löngum í hug frásögnin víðfræga úr Snorra-Eddu um hina góðu gersemi Óðins, gullhringinn Draupni; en, eins og kunnugt er, lagði Óðinn hann á bál Baldurs, og fylgdi hring þessum síðan sú náttúra, að níundu hverja nótt drupu af honum átta gullhringir jafnþungir á metum. Auðvitað ætlast eg ekki til, að sú samlíking sé tekin bókstaflega; en með henni vildi eg þrýsta inn í meðvitund lesenda minna tveim staðreyndum.

Í fyrsta lagi því, að íslenzkar fornbókmentir hafa—þó eigi hafi þeim í eiginlegri merkingu verið varpað á neitt Baldursbál—komist lifandi og í fullu gildi gegnum hreinsunareld aldanna, og er það meira en sagt verður um flest samtímisrit þeirra. Í öðru lagi þessu, og það leiðir af hinu fyrra atriðinu, að íslenzkar fornbókmentir hafa öldum saman verið uppspretta vakningar og andlegrar orku. Frá þeim hafa flætt straumar lifandi vatns út yfir mörg þjóðlönd Norðurálfu, og allar götur hingað til Vesturheims. Fornrit vor hafa, beinlínis eða óbeinlínis, fætt af sér hreint ekki fá bókmentaleg snildarverk, bæði með því að leggja skáldunum í hendur stórfeld og lífræn viðfangsefni, eða með því, að beina skapandi skáldgáfu þeirra inn á nýjar brautir.

Væri það því, að leggja mörg lönd undir fót, ef lýsa ætti nákvæmlega áhrifum íslenzkra fornbókmenta utan Íslands, enda hafa heilar bækur og fjöldi sérstakra ritgerða, á ýmsum málum, verið skráðar um það efni, þó margt sé þar órannsakað og enginn hafi enn sem komið er færst í fang, að semja heildar-yfirlit yfir þau áhrif, eins og dr. Sigfús Blöndal bendir réttilega á í grein sinni "Áhrif íslenzkra bókmenta" ("Tímarit Þjóðræknisfélagsins" 1930); er þar þó um merkilegt verkefni að ræða, en víðþætt og vandasamt að sama skapi. Allglögga hugmynd um það, hve víðlent er orðið ríki íslenzkra fornrita og hvernig straumar frá þeim hafa runnið í meginkvíslir bókmentalegra hreyfinga á liðnum öldum, geta menn fengið með því að kynna sér hina fróðlegu bókfræðislegu ritgerð Halldórs prófessors Hermannssonar "Old Icelandic Literature" (*Islandica* 1933), en landnám þeirra fer stöðugt vaxandi. Hér verða einkum rædd áhrif fornrita vorra á enskar bókmentir, en til fyllri skilnings og sannara mats á frjóvgandi lífsafli þeirra, jafnframt svipast um af hæstu tindum, út yfir þau lönd, utan hins enska heims, þar sem áhrifa þeirra hefir gætt að nokkrum mun.

---

*)Ritgerð þessi er að stofni til erindi flutt á ársþingi Þjóðræknisfélagsins í fyrra, en birtist hér mikið breytt; ýmislegt hefir verið felt úr en öðru aukið við.

II.

Lítum snöggvast til Íslands sjálfs. Nægir í því sambandi að minna á þann margviðurkenda sannleik, að rétt eins og það varð ógæfa Norðmanna, Dana og Svía, að þeir urðu viðskila við fortíð sína og sögulegar erfðir, varð það hamingja hinnar íslenzku þjóðar, að fornbókmentir hennar og söguleg arfleifð urðu afltaugin í menningarlegu lífi hennar um aldaraðir; hún slitnaði aldrei úr eðlilegu þróunarsambandi við fortíð sína. Réttilega segir dr. Páll Eggert Ólason: "Ást þjóðarinnar á tungu sinni og fornritum, efldi þjóðernistilfinningu hennar, hélt þjóðlegum bókmentum við hjá henni og leiðbeindi henni við upptöku nýrra skoðana og siða er til Íslands fluttust;—í stuttu máli, var drifhjól allra þjóðlegra framfara. Þessi innri kraftur, er sóttur var jafnt og stöðugt til almennings, hefir frá fyrstu tíð verið meginstoð hinnar íslenzku þjóðar." ("Endurvakning íslenzkra fræða," Tímarit Þjóðræknisfélagsins, 1930, bls. 104). Því má bæta við, að fornrit vor hafa haft mikil og margvísleg áhrif á íslenzkar bókmentir síðari alda; ýms höfuðskáld vor, auk smærri spámannanna, hafa sótt þangað yrkisefni og hugmynda-auð, ef ekki eldinn sjálfan, að minsta kosti eldsneytið. Og eigi hafa íslenzk skáld þurft í annað hús að venda hvað snertir fyrirmyndar sögu og ljóðform.

Rennum nú sjónum út fyrir landsteina Íslandsstranda. Eins og vænta má hefir áhrifa íslenzkra fornrita gætt mjög mikið í menningarlegu lífi og bókmentum frændþjóða vorra á Norðurlöndum, en þó ekki fyr en á síðustu öldum, af þeim sögulegu ástæðum, sem fyr getur, viðskilnaði þeirra við forntungu þeirra og fortíð. Mörg öndvegisskáld Dana, Norðmanna og Svía á seinni öldum hafa verið hugfangin af íslenzkum fornbókmentum og beitt snildargáfu sinni á viðfangsefni þaðan, ósjaldan með glæsilegum og ríkulegum árangri. Í þeirri fríðu fylkingu eru, auk annara: Öhlenschlager, Grundtvig, Drachmann, Ibsen, Björnson, Sigrid Undset, Tegnér, Strindberg, og Selma Lagerlöf. Til frekari lýsingar á sambandi íslenzkra fornrita og síðari alda bókmenta annara Norðurlandaþjóða, má vísa til framannefndrar ritgerðar dr. Blöndals.

Í þýzkum bókmentum gætir áhrifa frá íslenzkum fornritum, enn sem komið er, stórum minna en ætla mætti, þegar til greina er tekinn þjóðernislegur skyldleiki og það, hve mikinn og góðan skerf þýzkir fræðimenn hafa lagt til vísindalegra rannsókna á íslenzkri tungu og sögu, og á bókmentum vorum. Þó er svo að sjá, sem þýzkir nútíðarrithöfundar séu farnir að gera meira að því en verið hefir, að taka til meðferðar viðfangsefni úr íslenzkum fornbókmentum, því að nýlega eru komin út í Þýzkalandi tvö skáldrit bygð á Grettis sögu.

Þó Ísland og bókmentir þess hafi átt, og eigi, aðdáendur í Frakklandi, hafa þær ekki haft teljandi áhrif á franskar bókmentir, enda er þar um fjarskylda þjóð að ræða

bæði að þjóðernis-tengslum og hugsunarhætti. Ekki er það heldur fyr en á síðustu árum, að fornsögunum íslenzku hefir verið snúið á franska tungu eða önnur rómönsk mál; en fagnaðarefni er það, að kynni af þeim fara vaxandi í Frakklandi. Í fyrra kom til dæmis út vönduð þýðing á Grettis sögu eftir Fernand Mossé, en hann hefir áður (1914) snúið Laxdæla sögu á frakknesku. Með auknum kynnum af íslenzkum fornritum meðal Frakka, er ekki ólíklegt, að rithöfundar þeirra fari að velja sér þaðan efni í skáldrit sín.

III.

Er þá komið að aðal-efni þessarar ritgerðar:—áhrifum íslenzkra fornrita á enskar bókmentir. Um þetta merkilega efni hefir lítið verið ritað á íslenzku. Hið helsta er ritgerð dr. Jóns Stefánssonar "Íslenzk áhrif á enskar bókmentir," í Tímariti hins íslenzka Bókmentafélags 1890; ritgerð André Courmont's "Guðrún Ósvífursdóttir og William Morris," í Skírni 1913; og fyrnefnd grein Blöndals hér í ritinu, en mjög er þar farið hratt yfir sögu, nema um Morris. Á ensku hefir hinsvegar margt verið um þetta efni ritað og eru þessi rit markverðust og ítarlegust: Conrad H. Nordby, "The Influence of Old Norse Literature upon English Literature," New York, 1901; Frank Edgar Farley, "Scandinavian Influences in the English Romantic Movement," Boston, 1903; C. H. Herford, "Norse Myth in English Poetry, Manchester, 1919; og Ralph Bergen Allen, "Old Icelandic Sources in the English Novel," Philadelphia, 1933. Hefi eg eðlilega stuðst mjög við þessar heimildir, en sjálfur einnig gert samanburð á mörgum ritunum ensku við hinar íslenzku fyrirmyndir.

Það er ekki fyr en með endurvakning íslenzkra fræða á 17. og 18. öld, að augu lærðra manna á Norðurlöndum (utan Íslands) og annarsstaðar í Norðurálfu fara að opnast fyrir auðlegð og fegurð íslenzkra fornbókmenta. Var það mjög að þakka hollum áhrifum frá ritum Arngríms Jónssonar hins lærða, sem góðu heilli hlutu mikla útbreiðslu víðsvegar um lönd, og mega Íslendingar jafnan minnast Arngríms með þakklátum hug fyrir víðtæka þjóðræknislega og menningarlega starfsemi hans. Með sannorðum og djarfmæltum ritum sínum kvað hann niður margan draug óhróðurs og ósanninda um land vort og þjóð, sem gengið höfðu ljósum logum erlendis og farið vítt yfir. Áhrif hans náðu einnig til Englands. Íslandslýsing hans ("Brevis Commentarius de Islandia"), sem prentuð var á latínu í Kaupmannahöfn 1593, og auðvitað varð kunn í hinum enskumælandi heimi á þeirri tungu, kom út í Lundúnum í enskri þýðingu sex árum síðar, í hinu fræga safnriti Richard Hakluyt's "Collections of Early Voyages," sem víðlesið varð.

Fram á 18. öld voru það þó fornfræðingar einir á Englandi, sem nokkur veruleg kynni höfðu af íslenzkum fornritum, og sóttu þeir fræðslu sína aðallega í latneskar þýðingar og önnur rit fræðimanna á Norðurlöndum. Einkum varð hið fræga rit Thomas Bartholins

"Um orsakir hugrekkis Dana að fornu" (1689) enskum fornfræðingum á 18. öld, og öðrum þeim, sem fræðast vildu um norræn efni, hreinasta gullnáma, en í riti þessu eru latneskir útdrættir úr fjölda íslenzkra fornkvæða og sagna.

Annað rit, sem víðkunnugt varð og í miklum metum meðal fræðimanna á Englandi og víðar, var safnritið mikla um norræn fræði ("Thesaurus"), sem enski klerkurinn dr. George Hickes, síðar biskup, gaf út í Oxford í þrem bindum (1703—1705). Í formála sínum hvetur hann lesendur öfluglega til að nema norrænu, vitnar iðulega í íslenzk fornrit og prentar úr Hervarar sögu, á frummálinu og í óbundnu máli á ensku, kvæði Hervarar, er hún kveður Angantý upp úr haugnum á Sámsey og nær sverðinu Tyrfing. ("Angantýr vaknar".)*).

Hinn frægi enski þjóðkvæðasafnari, Thomas biskup Percy, lét prenta í Lundúnum 1763 bækling, sem hér kemur mjög við sögu, en hann nefnist "Five Pieces of Runic Poetry Translated from the Icelandic Language" (Fimm rúnakvæði þýdd úr íslenzku), og voru þar meðal annars þýðingar í lausu máli á "Krákumálum," "Höfuðlausn" og "Hákonarmálum"; vöktu kvæði þessi mikla athygli, því að til eru af þeim í enskum bókmentum fjöldamargar síðari þýðingar og stælingar. Þessar þýðingar Percy's eru þó ekki gerðar eftir frumkvæðunum, heldur eftir þýðingum annara á ýmsum málum. Fór það að vonum, að þekking hans og annara fyrstu aðdáenda íslenzkra fræða á Englandi, sem bygðu á ritum þýðenda í stað frumritanna, væri ærið gloppótt, enda kemur það víða fram. Hins er þó skemtilegra að minnast, að Percy biskup var einn af helztu brautryðjendum íslenzkra fræða á Englandi, ekki helzt og fremst fyrir þýðingar sínar á rúnakvæðunum fimm, þó merkilegar væru, heldur öllu fremur fyrir það, að hann sneri á ensku því ritinu, sem sérfræðingar telja, að átt hafi drýgstan þáttinn í því, að vekja á Englandi víðtækan áhuga á norrænum bókmentum.

Þetta merkisrit var Danmerkursaga svissneska fræðimannsins P. H. Mallets, rituð á frönsku og prentuð í Kaupmannahöfn og Geneva í mörgum bindum, en hin enska þýðing Percy's á tveim fyrstu bindunum kom út í Lundúnum 1770 undir nafninu "Northern Antiquities" (Norræn fornfræði). Var þar saman kominn geysimikill fróðleikur um menningu og sögu Norðurlandabúa hina fornu, þó þar kendi ýmsra grasa, ásamt útdráttum og þýðingum úr íslenzkum fornritum. Hefir sagt verið, að Mallet hafi orðið fyrstur manna til að klæða norræn fornfræði í al-

*)Í ofannefndri ritgerð sinni um áhrif íslenzkra bókmenta á enskar bókmentir segir dr. Jón Stefánsson, að John Dryden, höfuðskáld Englendinga á 17. öld, hafi á elliárum þýtt á ensku þessi ljóð Hervarar, og gefið út bæði frumtextann og þýðinguna í kvæðasafninu "Miscellany Poems." En hér er málum blandað. Í þessu riti var prentuð upp þýðing dr. Hickes á kvæðinu, án þess þó að þýðandi væri nefndur, og kvæðið sjálft á frummálinu. (Smbr. ofannefnt rit Farleys, bls. 47—48). Rétt er það samt, að Dryden hefir haft einhver kynni af fornum fræðum norrænum. Sézt það fyrst og fremst á því að hann tekur upp í safn sitt þýðinguna á Hervararkvæðinu og frumkvæðið. Auk þess lýsir hann í einu rita sinna norrænu (tevtónsku) goðahofi og yrkir lofsöng til Óðins.

þýðlegan búning. Svo mikið er víst, að enska þýðingin varð vinsæl mjög og hafði mikil áhrif. Hefir hún síðan verið prentuð í endurbættum og auknum útgáfum; en það er til marks um varanleg áhrif hennar, að þriðja útgáfan (1847) glæddi stórum áhuga Willards Fiske's á íslenzkum fræðum.

Þá er hitt ekki ómerkilegra, að fræðimenn telja, að fyrsta höfuðskáld enskt, sem sótti yrkisefni í íslenzk fornrit, hafi leitað þangað til fanga fyrir áhrif frá "Northern Antiquities"; en það var Thomas Gray, eitt af ágætustu skáldum Englendinga á seinni hluta 18. aldar, höfundur afbragðskvæðisins "Elegy in a Country Church Yard" (Kirkjureiturinn), sem er eitthvert allra víðfrægasta kvæði í enskum bókmentum, og Íslendingum er kunnugt í þýðingum þeirra Einars skálds Benediktssonar og síra Eyjólfs Melans.

Margt ber því vitni, að Gray hefir verið talsvert kunnugur norrænum fræðum. Um hitt hafa fræðimenn ekki orðið á eitt sáttir, að hve miklu leyti hann hafi kunnað norræna tungu; hafi svo verið, mun þekking hans á henni hafa verið af næsta skornum skamti. Kvæði hans um íslenzk efni "The Fatal Sisters" (Valkyrjurnar) og "The Descent of Odin" (Niðurstigning Óðins) eru miklu fremur eftirlíkingar en þýðingar á "Darraðarljóðum" Njálu og "Vegtamskviðu" (Baldursdraumum) Sæmundar Eddu. En einmitt vegna þess, að skáldið bindur sig ekki um of við bókstaf frumkvæðanna hefir honum tekist, að ná anda og krafti þeirra að hreint ekki litlu leyti. Gray varð þannig "hið fyrsta málsmetandi skáld utan Íslands, sem skyggnist inn í töfraheim fornaldarinnar og kemur auga á lýsigullið, sem dreifir myrkrunum," eins og dr. Jón Stefánsson kveður heppilega að orði.

Og þessar stælingar Gray's af íslenzkum fornkvæðum gerðu tvent: þær drógu athygli fjölda manna að auðlegð og sérkennileik fornbókmenta vorra, og beindu hugum ýmsra skálda inn á nýja braut, að rómantískum viðfangsefnum, hinu forna, fjarlæga og stórfelda. Með þessum og keltneskum kvæðum sínum varð Gray einn af helztu fyrirrennurum rómantísku bókmentastefnunnar á Englandi.

Kringum aldamótin 1800 komu út tvö rit, sem mjög urðu til þess, að auka áhuga og þekkingu enskumælandi lesenda á íslenzkum fræðum. Árið 1797 gaf A. S. Cottle út þýðingu sína í bundnu máli af Sæmundar-Eddu, hina fyrstu á enska tungu, með ítarlegum formála, skýringum og inngangskvæði eftir skáldið Southey, sem síðar mun vikið að. Ekki er hér þó um að ræða nema þýðingu á nokkrum hluta frumritsins, því að Cottle lagði til grundvallar verki sínu fyrsta bindið af Eddu-útgáfu Árna Magnússonar nefndarinnar, sem prentuð var í Kaupmannahöfn 1787, og þýðir auk þess ekki "Sólarljóð," sem þar eru prentuð í viðauka. En þó ýmislegt megi finna að þýðingu Cottle's er hún engu að síður merkileg, ekki sízt þegar

litið er á hana sem brautryðjandaverk.*)

Herbert G. Wright, sem rannsakað hefir samband skáldsins Southey við Norðurlönd og bókmentir þeirra, segir, að hann hafi farið að kynna sér íslenzk fornkvæði fyrir áhrif frá Cottle.**) Kom árangurinn af þeim áhuga fram í því, að Southey orkti, sem að ofan greinir, langt inngangskvæði að Eddu-þýðingu Cottles, og anda sumar ljóðlínurnar ríkri aðdáun á yrkisefninu. Hafði Southey einnig við orð, að semja skáldrit um norrænt efni, en aldrei varð þó af því. Í ritdómi ("Quarterly Review," 1827) um heildarútgáfu rita læknisins F. Sayer's, sem orkt hafði ýmislegt um norræn efni og lýðhylli átti að fagna á sinni tíð, kemur einnig fram áhugi Southeys á fornum fræðum íslenzkum, einkum goðafræði Norðurlanda. Hann skildi það ennfremur glögt, og viðurkendi, að straumar frá forn-íslenzkum bókmentum hafa átt sinn þátt í, að hrinda af stað vorleysingunum í ensku menningarlífi, rómantísku stefnunni, sem skapaði nýja gullöld í enskum bókmentum á öldinni sem leið.

Í kjölfar hennar nokkrum árum síðar (1804-1806) sigldi þýðingasafn William Herbert's, "Select Icelandic Poetry" (íslenzk úrvalsljóð), og er þar að finna margt hinna kunnugustu fornkvæða vorra í útdráttum eða heild sinni. Stendur Herbert skör framar fyrirrennurum sínum meðal enskra þýðenda íslenzkra fornkvæða, að þekkingu og nákvæmni, þó stundum bregðist honum bogalistin. Urðu þýðingar hans einnig víðkunnar og vitna ýms skáld aldarinnar til hans í ritum sínum, t. d. Byron lávarður.

Það var einnig fyrir áhrif frá þýðingum Herbert's af íslenzkum fornkvæðum, að vinur hans Walter Savage Landor, eitt af merkisskáldum þeirrar tíðar, orkti ljóðsöguna *Gunnlaug and Helga* (Gunnlaugur og Helga, 1805) út af Gunnlaugs sögu ormstungu, all kröftuglegt kvæði og fágað að formi, þó vart verði sagt, að skáldið hafi lifað sig til hlýtar inn í anda sögunnar. En svo er að sjá sem Landor hafi, að minsta kosti í bráð, orðið næsta hrifinn af íslenzkum fornbókmentum, því að í bréfi til vinar síns skáldsins Southey (í febrúar 1811) fer hann um þær miklum aðdáunarorðum. (Farley, áðurnefnt rit, bls. 170, neðanmáls).

Kemur þá að þeim manninum, sem af öllum enskum merkisskáldum á fyrri hluta 19. aldar mun eflaust hafa búið yfir mestri þekkingu á norrænum fræðum og verið hugfangnastur af þeim, en það var sjálfur skáldsagna-snillingurinn Walter Scott, enda varð hann fyrir nokkrum áhrifum af íslenzkum fornritum.*)

Ungur tók Scott trygð við hin

*) Síðan hafa komið út þrjár enskar heildarþýðingar af Sæmundar-Eddu, ein á Englandi og tvær vestan hafs, og að auk einnig á Englandi þýðing af goðakvæðunum. En eg hefi í huga að skrifa sérstaklega um enskar Eddu-þýðingar hér í ritinu.

**) "Southey's Relations with Finland and Scandinavia," Modern Language Review, Cambridge, 1932.

*) Ítarlegasta frásögn um kynni Scotts af norrænum fræðum er að finna í ritgerðinni: "Scott and Scandinavian Literature," eftir Paul R. Lieder, "Smith College Studies in Modern Languages," Vol. II, 1920-21. Sjá einnig framannefnt rit Nordbys.

fornu fræði vor. Innan við tvítugt samdi hann ritgerð um siðu og háttu norrænna þjóða, sem þótti lýsa víðtækri þekkingu á viðfangsefninu og miklum áhuga á fræðirannsóknum. Einnig sézt það af bréfum Scott's, að þegar á næsta ári er hann farinn að sökkva sér niður í hið víðkunna rit Bartholins, "Um orsakir hugrekkis Dana að fornu," er að framan var nefnt, og fjöldi tilvitnana í ritum skáldsins ber þess órækan vott, að hann hefir alla æfi haft mestu mætur á Bartholin. Auk þess vitnar hann í fleiri rit um forn-norræn fræði, svo sem bækur Þormóðs Torfasonar (Torfaeus), einkum útgáfu hans af Hrólfs sögu kraka. Scott var einning, sem líklegt var um mann jafn áhugasaman um norræn efni, kunnugur eftirlíkingum Gray's af íslenzkum fornkvæðum og þýðingu Cottle's á Sæmundar-Eddu; ennfremur skrifaði Scott langan og skarpan ritdóm um þýðingar Herbert's af íslenzkum kvæðum, og loks endursagði hann Eyrbyggju á ensku og var hún fyrst prentuð 1814. Skráin yfir bækur Scott's í Abbotsford bera einnig vitni áhuga hans á norrænum fræðum; hann átti kringum fimtíu bindi rita um Norðurlönd, meðal þeirra allmargar íslenzkar fornsögur á frummálinu og í þýðingum og skulu þessar taldar: Knytlinga saga, Landnámabók, Víga Glúms saga, Gunnlaugs saga ormstungu, Hervarar saga og Eyrbyggja. Má benda á það hér, að Scott mun hafa skilið talsvert í íslenzku, enda gerði móðurmál hans honum léttara fyrir að komast niður í Norðurlandamálum; mestan fróðleik sinn um norræn efni sótti hann samt í latneskar og enskar þýðingar, sér í lagi hinar fyrnefndu; eigi er því heldur að neita, að þekking hans á norrænum fræðum er stundum harla ónákvæm, þó honum takist sumstaðar allvel að lifa sig inn í norrænan hugsunarhátt.

Tilvitnanir í goðafræði og bókmentir Norðurlanda eru dreifðar um fjöldamörg skáldrit Scott's; hér sem annarsstaðar var það hið stórfelda, yfirnáttúrlega og æfintýralega, sem laðaði að sér huga hans; honum verður tíðrætt um dverga völvur og berserki. Langmest gætir þó áhrifanna frá norrænum bókmentum í þessum ritum Scott's: ljóðsögunni "Harold the dauntless" (Haraldur hugrakki, 1817) og skáldsögunni "The Pirate" (Sjóræninginn, 1822). Í "Haraldi hugrakka" tók höfundur sér fyrir hendur að lýsa norrænum víking að hætti fornra skálda; kvæðið er kröftugt á köflum, en æði mikilla öfga kennir í lýsingunni. Skáldsagan "Sjóræninginn" gerist í Orkneyjum, en Scott hafði ferðast um þær stuttu áður en hann ritaði sögu þessa. Inn í frásögnina fléttar hann ýmsar sögusagnir, sem hann hafði heyrt af vörum eyjarskeggja, og tilvitnanir í norræn fræði. Hinn norræni andi birtist þó einkum í kvæðunum í sögunni; víkingslundin kemur þar víða fram í kröftugri mynd. Kvæðið, sem seiðkonan Norna þylur mitt í æðisgangi stormsins, ber mikinn svip af "Völuspá."

Ofangreind dæmi eru næg sönnun þess, að Scott hafði lifandi áhuga á norrænum fræðum, og hélst

svo fram á efri ár hans. Þó verður vart sagt, að áhrifa frá fornÍslenzkum bókmentum gæti í frásagnaraðferð hans. Áhugi hans á þeim fræðum bar eigi að síður merkilegan og eflaust harla víðtækn árangur; hann hélt ótrautt áfram starfi þeirra Percy's og Gray's, að vekja athygli enskumælandi lesenda á íslenzkum fornritum. Fyrir uppástungu hans, og með aðstoð hans, var það einnig, að farið var að gefa út (1827) tímaritið "The Foreign Quarterly Review," með það markmið fyrir augum, að kynna enskum lesendum bókmentir Norðurlanda. (Liedder, ofannefnt rit, bls. 56).

IV.

Þegar kom fram á 19. öldina fór áhugi enskra fræðimanna fyrir íslenzkum fornbókmentum og kynni almennings af þeim stórum vaxandi; bæði var það, að jarðvegurinn hafði nú verið plægður um langt skeið, og ekki síður hitt, að enskumælandi lesendum varð nú hægar um vik, að kynnast fornritum vorum án milliliða, eftir að hin mikla íslenzk-enska orðabók þeirra Guðbrandar Vigfússonar og Richard Cleasbys kom út þjóðhátíðarárið 1874. Hinn enski kaupmannssonur hóf það stórvirki 1840, og sparaði hvorki krafta né fé til þess, að það mætti í framkvæmd komast, en er hann dó frá því óloknu, var Guðbrandur, sem kunnugt, er fenginn til að ljúka við verkið og búa það undir prentun. Hafa ávextirnir af þessu orðabókarstarfi orðið hinir ríkulegustu að því er snertir aukið íslenzkunám og aukinn lestur íslenzkra bókmenta í hinum enska heimi og utan hans. Má eflaust svipað segja um áranguirinn af samvinnu þeirra Guðbrandar og F. York Powell's að stórfeldum útgáfum og enskum þýðingum íslenzkra fornrita, sem skemtilegar eru og vekjandi, þó auðvitað séu þær ekki gallalausar.

Af enskum atkvæðaskáldum um og eftir miðja 19. öld, sem hrifin urðu af íslenzkum fornbókmentum, skal fyrstur talinn skáldspekingurinn Thomas Carlyle. Í hinum frægu fyrirlestrum sínum "Heroes and Hero-worship" (Hetjur og hetjudýrkun, 1841) túlkar hann með andagift og eldmóði norræna goðatrú, einkum í fyrsta kaflanum, um hetjuna sem guð. Er auðsætt, að Carlyle hefir átt næman skilning á lífsskoðun norrænna manna, og kemur fram í nefndu riti óblandin aðdáun á Íslandi og fornbókmentum þess.*) Einkum dáði hann hreystilyndið forníslenzka; hann taldi norræna goðatrú fremri hinni grísku að hreinskilni (sincerity), þó hin síðarnefnda ætti meiri yndisþokka (grace). En Carlyle var svo skapi farinn, að honum þótti meira varið í hreinskilnina en þokkann. Carlyle kyntist "Heimskringlu" Snorra Sturlusonar í þýðingu Samuels Laing's, sem út kom 1844, og fanst svo mikið til hennar koma, að hann sótti þangað efniviðinn í bók sína "The Early Kings of Norway" (Fornkonungar Noregs, 1875), sem er að miklu leyti samandregin endursögn á Heims-

---

*) Að sögn Willard Fiske's sjálft, var þetta rit Carlyle's ein af þeim bókum, sem luku upp fyrir honum fegurðarheimum norrænnar tungu og bókmenta.

kringlu, en fjör og flug eru í frásögninni hjá Carlyle, mörg leiftur hans lifandi ritsnildar.

Í þessu sambandi má nefna tvö yngri samtíðarskáld Carlyle's, amerísk, þá Henry Wadsworth Longfellow og James Russell Lowell, sem báðir tóku sér yrkisefni úr íslenzkum fornritum. Um Longfellow má bæta því við, að það var fyrnefnd Heimskringluþýðing Laing's, sem kom skáldinu til að leita sér viðfangsefna í fornritum vorum; er þar fyrst að telja kvæði Longfellow's "The Challenge of Thor" (Þórseggjan), norrænt mjög að bragarhætti og anda, inngangskvæðið að kvæðaflokki hans um Ólaf konung Tryggvason ("The Musician's Tale") í ritinu "The Tales of a Wayside Inn (1863); en þó margt sé þar snjallra lýsinga og frásagna, nær skáldið hvergi nærri eins vel forn-íslenzkum anda og stílþrótti og hann gerði í "Þórseggjan" sinni. Ekki er þó að efa það, að þessi kvæðaflokkur Longfellow's varð til þess að draga athygli fjölda nýrra lesenda að íslenzkum fornsögum.

Lowell orkti eitt merkiskvæði um íslenzkt efni "The Voyage to Vínland" (Vínlandsferðin, 1868), og er það miklu norrænna að blæ og anda heldur en kvæðaflokkur Longfellow's um Ólaf Tryggvason. Víða annarsstaðar í kvæðum Lowells bregður fyrir samlíkingum úr íslenzkum fornritum og tilvitnunum úr þeim, og er því bersýnilegt, að hann hefir verið harla kunnugur fornsögum vorum og fornkvæðum.

Um Vínlandsferðirnar — Ameríkufund Íslendinga—hafa ýmsir aðrir enskir og amerískir rithöfundar samið skáldrit, og er lítt að kynja, þó afreksverk þetta í siglingum og landafundum hafi heillað hugi sögu- og ljóðskálda.

Robert M. Ballantyne, skozkur rithöfundur reið þar fyrstur á vaðið með skáldsögunni "Norsemen in the West" (Norrænir menn vestra, 1872), en lélega er þar á sögulegu efni haldið, frásögnin dregin á langinn og því leiðinleg. Þó var bók þessi prentuð sex sinnum á átta árum í Lundúnum, og hefir fólk af þeim viðtökum að dæma girnst að lesa um ferðir þessar, en litlum vinsældum átti hún hinsvegar að fagna í Vesturheimi. Miklu betur sögð og skemtilegri er skáldsagan "The Thrall of Leif the Lucky" (Þræll Leifs heppna, 1902), eftir Ameríkukonuna Ottilie Adeline Liljencrantz, enda heldur hún sér stórum fastar við jörðina og söguleg sannindi heldur en margir þeir, sem ritað hafa um þessi efni og fylt óspart í eyðurnar með taumlausri ímyndun sinni. Önnur amerísk skáldkona, Genevra Snedden, gaf út fyrir ekki mörgum árum síðan (1924) prýðisvel sagða, fjöruga og fróðlega unglingasögu um svipað efni, "Leif and Thorkel" (Leifur og Þorkell), og fléttar inn í frásögnina glöggar lýsingar á siðum og lífi norrænna manna. Skáldsaga Maurice Hewlett's um Guðríði konu Þorfinns Karlsefnis verður tekin til athugunar með öðrum skáldritum þess höfundar út af efni úr íslenzkum fornsögum.

Ýmsir hafa því ráðist í, að færa í skáldsögubúning atburðaríka æfi

Leifs heppna, og hafa þó ekki öll þess konar rit um hann verið talin hér að ofan. Nýlega hefir amerísk kona, Lida Siboni Hanson að nafni, færst í fang, að gera karli föður Leifs sömu skil, og var skáldsaga hennar "Eric the Red" (Eiríkur rauði) prentuð í New York í fyrra (1933), læsileg bók, einkum ætluð unglingum, sem lýsir með talsverðri glöggskygni æfiferli söguhetjunnar og skapgerð. Hefir höfundurinn lagt til grundvallar frásögn sinni og lýsingum ýms ábyggileg heimildarrit, svo sem bók Arthur M. Reeves um Vínlandsferðirnar.

Sem frekari vott þess, að Ameríkufundur Íslendinga heldur enn þá áfram að draga að sér athygli rithöfunda, skal þess getið, að rétt nýlega (í nóvember 1934) er kominn út í New York langur kvæðaflokkur eftir Henry Chapin, sem nefnist "Leifsaga," og ritdómari stórblaðsins "New York Times" fer lofsamlegum orðum um, segir að þar sé dramatísk saga sögð á dramatískan hátt, og spáir bókinni vinsælda.

Hverfum nú aftur að enskum rithöfundum á seinni helming 19. aldar. Fjarri fór, að Carlyle væri hinn eini þeirra, sem heillaðist af íslenzkum fornbókmentum og fengi þar efnivið eða byr í seglin til ritstarfa. George Webbe Dasent, sem Íslendingar standa í þakkarskuld við fyrir þýðingar á íslenzkum fornritum, einkum fyrir snildar þýðingu hans á Njálu, sem orðin er klassiskt rit, samdi einnig skáldsöguna "Vikings of the Baltic" (Víkingar í Eystrasalti, 1875) og fylgir þar einkum Jómsvíkinga- og Knytlingasögu; er þetta löng saga og þáttamörg, víða vel með efni farið en of miklar málalengingar.*)

Miklu merkilegra frá bókmentalegu sjónarmiði er þó hið fagra og áhrifamikla kvæði "Balder Dead" (Dauði Baldurs, 1855) eftir skáldið og ritdómarann Matthew Arnold, samtíðarmann Dasents. Vegna frumleiks þess og hugsanagöfgis verðskuldar kvæði þetta sess meðal enskra merkiskvæða 19. aldar. Rétt er það eflaust skoðað, að friðarhugur Arnold's hafi dregið athygli hans að Baldri, er beztur var, bjartastur og réttdæmastur norrænna guða —hinn norræni Kristur. Skáldið hefir séð í honum persónugerð friðarhugans og sálargöfginnar. Gray og mörg önnur ensk skáld eftir hans dag höfðu orkt um hið stórfelda, hamrama og harðúðga í forn-íslenzkri lífsskoðun og bókmentum. Arnold varð til þess fyrstur enskra skálda, að flytja inn í bókmentir þjóðar sinnar endurhljóm af þýðari og mildari tónum í skáldahörpunni norrænu.

Rithöfundurinn Edmund Gosse, yngri samtíðarmaður Arnold's var víðkunnur fyrir áhuga sinn á bókmentum Norðurlanda. Hann skrifaði tvö rit um forn-íslenzk efni, kvæðið "The Death of Arnkel" (Dauði Arnkels, 1885), og sorgarleikinn "King Erik" (Eiríkur konungur, 1876), sem er miklu merkast þessara rita; náin kynni höfundarins af norrænum efnum og skilningur hans á þeim leynir sér ekki. Bóthildur, höfuð kven-

*)Um Dasent, sjá ritgerð Halldórs Hermannssonar, Skírnir, 1919.

persóna leikritsins, er stórlyndur kvenskörungur, í ætt við Brynhildi og Bergþóru.

Skáldið og klerkurinn Sabine Baring-Gould endursagði Grettis sögu á ensku, fyrir unglinga, undir nafninu "Grettir the Outlaw" (Útlaginn Grettir, 1889), lipurlega og skemtilega. Hefir hann slept ýmsu úr frásögninni, en aukið við lýsingum á íslenzkum staðháttum og venjum; var hann hvorutveggja nokkuð kunnugur af sjón og reynd, því að hann ferðaðist á Íslandi 1861, einkum á þeim slóðum þar sem Grettis saga gerist, og ritaði um það bókina "Iceland: Its Scenes and Saga" (1863).

Henry Rider Haggard, sem mörgum íslenzkum lesendum er kunnur af þýddum sögum hans, lætur skáldsögu sína "Eric Brighteyes" (Eiríkur bjarteygði, 1891) gerast á Íslandi á víkingaöldinni (söguöldinni); nær hann þar furðu vel anda og stíl íslenzkra fornsagna, og bregður upp skýrri mynd af ríkjandi aldarhætti. Atburðalýsingarnar eru oft áhrifamiklar, skaplýsingarnar óflóknar en sannfærandi, samtölin kjarnyrt og eðlileg.

Á þá við, að segja frá því skáldinu, sem varð fyrir sterkari áhrifum af íslenzkum fornbókmentum heldur en nokkur annar enskur rithöfundur enn sem komið er, en það var William Morris,*) eitt af höfuðskáldum Englendinga á seinni hluta 19. aldar.

Eins og alkunnugt er, voru þeir um langt skeið samverkamenn Morris og Eiríkur meistari Magnússon og sneru á enska tungu fjölda íslenzkra fornsagna, þeirra meðal flestum hinum merkustu. Voru þýðingar þessar stórvirki, þó deila megi um hve ákjósanlegar þær séu frá málsins sjónarmiði, og hafa dregið athygli fjölda margra víðsvegar um hinn enskumælandi heim að íslenzkum fornbókmentum. Hitt er ekki ómerkilegra, að það mun hafa verið fyrir áhrifin frá Eiríki, eins og dr. Stefán Einarsson leggur áherzlu á í sögu hans, að Morris fékk það dálæti á Íslandi og íslenzkum fræðum sem raun bar vitni. Ferðir hans til Íslands uku einnig stórum þekkingu hans og ást á íslenzkum fræðum; hann kyntist merkum sögustöðum, umhverfi Íslendinga og lífsháttum.

Þrjú eru þau höfuðrit Morris, sem fjalla um forn-íslenzk efni; og eru tvö þeirra "The Lovers of Gudrun" (Elskhugar Guðrúnar) og "The Fostering of Aslaug" (Fóstrun Áslaugar) að finna í hinu mikla skáldverki hans "The Earthly Paradise" (Hin jarðneska Paradís, 1868-70). Efnið í "Elskhugar Guðrúnar" er sótt í Laxdælasögu; það er harmsagan örlagaþrungna um ástir þeirra Guðrúnar, Kjartans og Bolla. Ekki er því að neita, að frásögn kvæðisins er með nokkrum nútíðarblæ, en víða glitrar þar á gulli hinnar hreinustu skáldsnildar; lýsingarnar á söguhéraðinu eru prýðilegar, og ekki eru sumar mannlýsingarnar með minna snildar-handbragði, einkum er Bolli stórfeld persóna

---

*)Um hann, sjá ritgerðir dr. Jóns Stefánssonar og Séra Matthíasar Jochumssonar í Eimreiðinni 1897 og 1923, Sögu Eiríks Magnússonar í Cambridge eftir dr. Stefán Einarsson, 1933, og ritgerð dr. Guðmundar Finnbogasonar í Skírni, 1934.

og ógleymanleg. Guðrún og Hrefna, sem heil höf skilja að skaphöfn, önnur harðlyndið sjálft —hin þýðlyndið í konulíki, klæðast einnig holdi raunveruleikans fyrir sjónum lesandans. Skáldið opnar oss sýn inn í sálir þeirra, og vér verðum fyr en varir þátttakendur í harmleik lífs þeirra.*)

"Fóstrun Áslaugar" er orkt út af þjóðsögn í Völsungasögu, fallegt kvæði, en stendur þó hvergi nærri jafnfætis "Elskhugum Guðrúnar," enda var efni þess hvergi nærri eins mikilfenglegt og harmsagan máttuga í Laxdælu.

En líta má á "Fóstrun Áslaugar" sem forspil að ágætasta og stórfenglegasta söguljóði Morris, "Sigurd the Volsung" (1876), en það er afar löng drápa í fjórum bindum, orkt út af Völsungasögu, en höfundurinn hefir einnig haft til hliðsjónar Eddukvæðin um sama efni. Hér var mikilúðlegt og margþætt yrkisefni, stórbrotnar söguhetjur, er sættu hinum þyngstu örlögum, enda rísa á-stríðuöldur mannlegs hjarta hátt í þessari ljóðsögu, og geystur straumur harms og heiftar rennur þar í stríðum streng; en í baksýn er hrikalegt umhverfið íslenzka, þó þar bregði einnig fyrir blæmildari myndum frá suðrænum löndum og sólríkum. Eins og hæfir svo mikilfenglegu efni, er kvæðaflokkur þessi tígulegur og tilkomumikill; bragarhátturinn fellur ágætlega að efninu; höfuðstafir og stuðlar koma þar fyrir og fléttast smekklega inn í frásögnina; kenningar notar Morris einnig að íslenzkum sið, og fer jafn snildarlega með þær og höfuðstafina og stuðlana; málið á kvæðinu er hreint og hreimmikið. Sem vænta má í svo löngum ljóðaflokki, ná ekki allir kaflar hans sama hámarki í ljóðsnild, en gnægð er þar skáldlegra lýsinga og áhrifamikilla.. Gullfögur er t. d. lýsingin á því þegar Sigurður hefir riðið Vafurlogann og vekur Brynhildi á Hindarfjalli; er langt að leita yndislegri myndar eða sviphreinni. Úr harðara málmi, en jafn minnisstæð, er frásögnin af því er Brynhildur, sem nú er orðin drotning Gunnars, gengur inn í höll hans og varpar kveðju á Sigurð fornvin sinn; eða þá lýsingin á fundum þeirra Brynhildar og Guðrúnar niður við ána; og mætti svo lengi telja.

Morris er einnig, sem nefnt var, snillingur í náttúrulýsingum, og verða þær oft rammíslenzkar. Hafði íslenzkt landslag greypst svo djúpt inn í hug skáldsins, að stundum þegar hann er að lýsa erlendum stöðum, verður lýsingin háíslenzk, eins og í skáldsögunni "The Roots of the Mountains" (Fjallarætur, 1889). Þar bregður hann upp fyrir lesendum "stórum hraunbreiðum og dökkum hömrum, fljóti, sem nefnt er "Shivering flood" (Skjálfandi) og eldfjalli með íshettu, er heitir "Shieldbroad" (Skjaldbreiður). (Blöndal).

Síðan í byrjun þessarar aldar hafa ekki allfá ensk skáld samið kvæði eða leikrit um efni úr íslenzkum fornsögum; verður nú

*) Í hinni snjöllu ritgerð sinni "Guðrún Ósvífursdóttir og Morris," í Skírni, 1913, lýsir A. Courmont skarplega meðferð Morris á Laxdælu.

vikið stuttlega að hinum markverðustu slíkra ritverka þeirra.

Hinn kunni og snjalli skozki rithöfundur John Buchan hefir ritað ágæta smásögu "Hightown under Sunfell" (Hátún undir Sólfelli) um lífið á víkingaöldinni, sem prentuð er í sagnasafni hans "The Path of the King" (Vegur konungsins, 1821). Er saga þessi jafn prýðileg að fögru máli og skörpum skilningi á viðfangsefninu.

Englendingurinn E. R. Eddison, sem kunnur er Íslendingum fyrir hina vönduðu þýðingu sína af Egils sögu (1930), sýndi áður þekkingu sína á norrænum fræðum og ást sína á þeim með skáldsögunni "Styrbiorn the Strong" (Styrbjörn sterki, 1926). Hefir honum þar vel tekist, að lifa sig inn í hugsunarhátt þeirrar tíðar, sem hann lýsir, og dregur föngin víða að. Er mynd hans af lífinu á víkingaöldinni dregin hreinum dráttum og skýrum, en engu minna kveður að mannlýsingunum. Mest sópar auðvitað að Styrbirni Svíakappa, enda er hann söguhetjan, og enginn meðalmaður: hraustmenni og höfðingi, en féll í val um örlög fram. Sigríði stórráðu er einnig lýst af glöggskygni, þessari stórbrotnu fornaldarkonu, sem varð hatri sínu og valdagræðgi að bráð.

Eric Linklater er maður nefndur, Orkneyingur að ætt og uppruna, æfintýramaður og ritfær vel. Fyrir tveim árum (1932) kom út í Lundúnum skáldsaga hans "The Men of Ness" (Nesverjar); er meginefni hennar tekið úr íslenzkum fornsögum og gerist hún á seinni hluta níundu aldar aðallega í Orkneyjum og á Norðymbralandi. Er sagan yfirleitt mjög vel sögð, atburða- og mannlýsingar snjallar margar hverjar, stíllinn þróttmikill og orðhagur.

Af öllum skáldsagnahöfundum enskum, sem ritað hafa sögur um efni úr íslenzkum fornsögum, var Maurice Hewlett lang mikilvirkastur og að ýmsu leyti merkastur, að minsta kosti gætir mestrar fjölbreytni í þeim sögum hans, samanborið við samskonar skáldrit annara höfunda. Það fer einnig að vonum, því að hann samdi ekki færri en sex skáldsögur um íslenzk efni. Eru þessar þrjár jafnbeztar þeirra: "A Lovers' Tale" (Saga elskhuga, 1915), þar sem Kormáks saga í þýðingu þeirra W. J. Collingwood's og dr. Jóns Stefánssonar er lögð til grundvallar; "Gudrid the Fair" (Guðríður fagra, 1918), samin eftir frásögnunum um Guðríði konu Þorfinns Karlsefnis í Eiríks sögu rauða og öðrum íslenzkum heimildum; og "The Outlaw" (Útlaginn, 1920), aukin endursögn á Gísla sögu Súrssonar, bygð á hinni ensku þýðingu Dasents (1866).

Allar eru sögur þessar lipurlega ritaðar og á köflum áhrifamiklar, enda þræðir höfundurinn næsta nákvæmlega rit þau, sem hann hafði til fyrirmyndar, þó hann velji úr þá atburðina, sem honum eru mest að skapi og hann telur líklegasta til að falla nútíðarlesendum í geð. Af sömu ástæðum, og ekki sízt lesendum til fyllri skilnings, bætir hann ýmsu öðru við eins og honum þurfa þykir. Oft nær hann sér bezt niðri í mannlýsingum. Kormákur, Guðríður,

Gísli og Auður eru aðsópsmiklar persónur í sögum hans og jafnframt sann-raunverulegar; verður þó að taka með í reikninginn, að honum var ekki í kot vísað með fyrirmyndir þeirra.*)

En þó margt sé óneitanlega vel um þessar skáldsögur Hewlett's og samskonar skáldverk sumra annara ("Eirík bjarteygða" Haggard's, "Styrbjörn sterka" Eddison's og "Nesverja" Linklater's), jafnast þær ekki á við Íslendingasögur eða aðrar fornsögur, sem þær líkja eftir; bæði er það, að sitthvað skilur nútíðarskáldsögur og íslenzkar fornsögur, og þó sérstaklega hitt, að einungis frábærir snillingar í frásagnarlist fá kept við sögumennina íslenzku.

Skáldkonan Beatrice Helen Barmby, sem nam íslenzku af eigin ramleik með hjálp orðabókar þeirra Vigfússonar og Cleasby's, ritaði aðlaðandi og eftirtektarverðan sjónleik um Gísla Súrsson (1901), undir sama nafni, sem séra Matthías Jochumsson sneri á vora tungu. Það er bæði, að efni Gísla sögu Súrssonar er dramatískt mjög, enda hefir hin enska skáldkona gert því ágæt skil; hún hefir kunnað að velja þá atburði, sem bezt fara og áhrifamestir verða á leiksviði, og fer þó eins nærri frumritinu og unt er. Gísli, þetta skáldhneigða hraustmenni, sem eigi fékk komist úr greipum rammra örlaga, stendur oss lifandi fyrir sjónum; jafngóðar eru lýsingarnar á öðrum persónum leiksins, ekki sízt á trygðatröllinu Auði, konu Gísla.

Leikrit þetta hlaut einnig mikið lof hinna fremstu enskra norrænufræðinga, svo sem prófessors W. P. Ker, sem ritað hefir um norræn efni af fágætri þekkingu og skörpum skilningi. Miss Barmby orkti einnig margt prýðisgóðra styttri kvæða út af viðburðum í fornsögum vorum, og hefir séra Matthías þýtt sum þeirra á íslenzku. Skáldkonan sneri einnig á ensku nokkrum skáldkvæðum og öðrum fornkvæðum íslenzkum.*)

Eitt af hinum kunnari ljóðskáldum enskum, núlifandi, er Gordon Bottomley, sem samið hefir merkilegt leikrit út af Njálu, "The Ride to Lithend" (Reiðin að Hlíðarenda). Um hann og það rit hans sérstaklega hefir merkur skozkur bókmentafræðingur, prófessor Alexander MacGill, skrifað fróðlega ritgerð á íslenzku (Eimreiðin, I, 1927) og farast honum meðal annars svo orð:

"Óþarft er að minna lesendur Eimreiðarinnar á frásögn þá, sem Gordon Bottomley leggur til grundvallar leikriti sínu. Sjötugasti og fimti og sjötti kapítuli Njálu eru ógleymanlegir, þótt þeir standi mitt inni í margþættri frá-

*)Ítarleg frásögn um hann og bækur hans er í framannefndu riti Allen's, "Old Icelandic Sources in the English Novel." Telur Allen, sem rannsakað hefir það efni gaumgæfilega, 57 skáldsögur á ensku um efni úr íslenzkum fornritum; en þar sem rannsókn hans nær ekki nema til ársins 1923 hafa nokkrar bæzt í hópinn síðan, svo að slíkar sögur eru nú rúmlega 60 talsins; en um þær má með sanni segja, að þar er "misjafn sauður í mörgu fé," og hafa aðeins hinar beztu verið teknar til athugunar í þessari ritgerð. En fróðlegt er að lesa um þær í heild sinni í bók Allens, og vísast þangað.

*)Til frekari fræðslu um æfi og störf skáldkonunnar og sjálfa hana, má vísa til formálans að þýðingu séra Matthíasar, "Gísli Súrsson," Akureyri, 1902.

sögn, hvað þá heldur þegar atburðirnir eru einangraðir í snildarmeðferð skáldsins. Kaflinn um víg Gunnars er meistaraverk, sem bregður ljóma yfir norrænan hetjuskap. Skáldið bregður nýrri birtu á útlagann, Hallgerði og Rannveigu. Frásögnin um víg Gunnars í Njálu er stuttorð og gagnorð og hlutlaus. Leikrit Bottomleys gæðir kaflann nýju lífi, málblær og meðferð efnis er glæsilegt og viðhafnarmikið. Ef stíllinn á rót sína að rekja til annars en eigin meðvitundar skáldsins sjálfs, þá hlýtur það að vera til þess engilsaxneska málskrúðs, sem William Morris og félagar hans vildu telja fegurstan búning enskunni.

Það eru mörg snjöll tilþrif í þessu fagra leikriti, sem gaman væri að taka upp hér, margar perlur, sem hægt er að dást að og dreyma yfir eins og gómsætu víni, sem gamall víkingahöfðingi hefir flutt heim með sér af suðurvegum. Forneskjulegt og óheillavænlegt er samtal þeirra Gunnars og göngukvennanna þriggja. Ugg þeim og óheillaspá, sem felst í því atriði leiksins, er vel lýst með orðinu *geigvænlegur*. Samtalið er engu síður eggjandi og ógnþrungið en nornadansinn í "Machbeth." Það felur í sér örlagadóm Gunnars, og áhrifin eru svo þung og geigvænleg, að svo virðist, sem léttara verði yfir, þegar lýst er víginu sjálfu á eftir. Þar er líka prýðilega með efnið farið, það er hreinu og göfugur skáldskapur." (bls. 70-72).

Loks er þess að geta, að sjálft núverandi lárviðarskáld Englendinga, John Masefield, hefir fundið viðfangsefni tveggja rita sinna í íslenzkum fornbókmentum.

Í eitt leikrita sinna, "The Locked Chest" (1906), hefir Masefield sótt efniviðinn í Laxdæla sögu, aðallega í 14. og 15. kapítula hennar (útgáfa Kaalunds). En í þeim köflum segir frá viðskiftum þeirra Ingjalds Suðureyjagoða og Þórðar godda út af Þórólfi þeim, er vegið hafði Halla bróður Ingjalds. Vigdís kona Þórðar var frændkona Þórólfs, og leitaði hann ásjár hennar; varð hún vel við og kom honum undan, er Ingjaldur keypti Þórð bónda hennar til að segja til Þórólfs. En Þórði hefndist fyrir lítilmenskuna, því að hann varð bæði af fénu, er Ingjaldur hafði goldið honum, og af konunni.

Masefield fylgir í aðalatriðunum frásögn Laxdælu, en hefir jafnframt aukið við efnið, fylt í eyðurnar. Sagan getur þess t. d. eigi með einu orði, að Vigdís hafi bjargað Þórólfi úr klóm Ingjalds og fylgdarmanna hans með því að loka hann niður í fatakistu þá hina miklu, sem leikritið dregur nafn af. Laxdæla nefnir það að vísu, að Vigdís hafi sagt skilið við Þórð godda (16. kapítuli), en hvergi segir þar frá því, að hún hafi á brott hlaupið með Þórólfi, en á því endar leikritið.

Þó að "The Locked Chest" jafnist eigi á við beztu leikrit Masefields að áhrifamagni eða listfengi, er þar vel með efni farið. Frásögnin er blátt áfram, laus við alla útúrdúra, með undirstraum djúpra tilfinninga. Skáldinu hefir tekist að halda hispursleysi sagnastílsins

forna. Lýsingarnar á höfuðpersónunum, þeim Þórði og Vigdísi, eru afbragðsgóðar. Eins og Laxdæla sýnir, var Þórður "ekki garpmenni mikið," og eigi hefir hann vaxið að garpmensku í meðferð Masefield's. Vigdísi er svo lýst í sögunni, að hún hafi verið "meiri skörungur í skapi" en bóndi hennar, enda var hún kona stórættuð—sonardóttir Ólafs feilans. Eigi sópar minna að henni í leikritinu. Og þessar miklu andstæður í skapgerð þeirra hjónanna auka stórum hinn dramatíska kraft leiksins.

Masefield sótti einnig í Gunnlaugs sögu ormstungu uppistöðuna í eina af frægustu ljóðsögum sínum, "The Daffodil Fields" (Fíflaekrur). Í formálanum að einni heildarútgáfu kvæða og leikrita sinna (The Poems and Plays of John Masefield, New York, 1918) getur hann þess, að hann hafi fundið efnið í "The Daffodil Fields" í neðanmálsgrein í bók Sir G. S. Mackenzie's, "Travels in Iceland" (Edinburgh, 1812). En neðanmálsgrein sú, sem um ræðir er æði langur útdráttur (bls. 30-32, með smáu letri) úr Gunnlaugssögu. Í ljóðsögu skáldsins er þó aðeins að finna nokkra höfuðdrætti úr frumsögunni íslenzku: — keppinautana tvo, er unna sömu konunni og berjast út af henni, og svik Hrafns við Gunnlaug, er hann sækir honum vatnið. Skáldið hefir mjög lagað efnið í hendi sér, aukið við það og fært það í nútíðarbúning. Aðalpersónurnar heita alt öðrum nöfnum en í sögunni, og það sem enn meiru varðar, þær eru alt öðruvísi skapi farnar. Mun þó mega segja, að Michael og Gunnlaugur eigi sammerkt í því, að báðum svellur rík æfintýraþrá í brjósti. Mary á það einnig sameiginlegt með Helgu, að fyrsta ást hennar slokknar eigi; þær eru fastlyndar og stórlyndar.

En þó eigi sé um nánari líkingu að ræða milli "The Daffodil Fields" og Gunnlaugssögu, er það engu að síður merkilegt, að eitt lárviðarskáld Englendinga, og langt frá hinn sízti í þeim hóp, fann þar efniviðinn í eitt höfuðkvæða sinna. Og sæmd er að mega minnast þess, að hann er aðeins einn margra merkisskálda, sem gott hefir orðið til fanga í gróðurlundum fornbókmenta vorra.

## VI.

Íslenzkar fornbókmentir hafa því auðsjáanlega átt mikið frjómagn og áhrifamagn, lífgandi straumar frá þeim hafa flætt víðsvegar um norður og vesturálfu heims. Þó hafa hvorki íslenzk né erlend skáld, enn sem komið er, fært sér nema að litlu leyti í nyt þann mikla auð fjölbreyttra yrkisefna, sem gullnáma íslenzkra fornrita hefir að geyma. Ljóðaleikrita- og sagnaskáld geta fundið þar gnægð viðfangsefna, sæmandi hvað mikilli snilligáfu sem er, og má fyllilega ætla, að skáld framtíðarinnar beini augum í norðurátt, til íslenzkra fornbókmenta, þar sem enn eru ónumin heil landflæmi í ríki skáldlistarinnar, þar sem lífræn og stórfeld viðfangsefnin bíða þess, að eitthvert afburðaskáldið snerti þau með töfrasprota sínum og gæði þau lit og lífi ódauðlegrar listar.

# Þegar eg var í Viðey fyrir 70 árum síðan

Eftir *Jón Jónsson.*

Innan tvítugs aldurs kom eg til Viðeyjar til þess að gerast þar vinnumaður. Það var árið 1862. Hefir mér nú dottið í hug að draga saman fáein atriði úr minnisbók minni og lýsa í fáeinum atriðum þessu forna höfðingjasetri, fólkinu, sem þar var og vinnuaðferðum utan húss og innan, húsaskipun og heimilisbrag. Hefi eg leitast við að skifta þessari lýsingu niður í flokka. Ætla eg þá að segja fyrst frá heimilisfólkinu og byrja að segja frá húsbóndanum. Hann var ætíð kallaður *húsbóndinn* meðal vinnufólksins, þegar það talaði um hann, eða spurði eftir honum, og það geri eg líka hér.

Hann hét Ólafur Magnússon Stephensen og hafði secretera titil. Hann var sonur Magnúsar Stephensens konferenzráðs í Viðey. Hann hafði keypt Viðey og flutt þangað frá Stóra-Hólmi á Akranesi 1813. Hann var hinn mesti Íslandsvinur og framfaramaður. Sonur hans Ólafur var alt af kallaður *húsbóndinn,* eins og eg gat um áðan. Hann var líka sannur húsbóndi á heimili sínu. Hann var stór maður og höfðinglegur á velli. Mér var sagt að hann hafi verið 6 fet og 5 þumlungar, þegar hann var upp á sitt hið bezta, en var nú farinn að kikna í knjáliðunum undan þunga sínum; því að hann var feitur maður og aldraður, en að upplagi hafði hann verið þrekvaxinn og krafta-jötun, eins og margir í þessari ætt.

Hann var þrígiftur. Fyrsta konan hans hét Sigríður. Þau áttu tvær dætur. Sú eldri þeirra hét Guðrún og var gift séra Ólafi Pálssyni dómkirkjupresti í Reykjavík; hin hét Sigríður, gift Guðmundi Stefánssyni, gullsmið. Þau bjuggu að Varmalæk í Bæjarsveit og vistaði hún mig til Viðeyjar. Mið kona hans hét Marta og var systir fyrstu konu hans. Þau áttu 2 börn, Magnús og Sigríði. Seinasta kona hans hét Sigríður, ekkja séra Tómasar Sæmundssonar, ættuð að austan. Með henni átti hann einn son og dó hann 19 ára gamall.

Sem dæmi upp á það hvaða álit fólk hafði á kröftum *húsbóndans* ætla eg að tilfæra sögu af honum, sem kerling ein, sem alin hafði verið upp hjá Magnúsi föður hans, sagði mér.

Þegar Magnús Stephensen fluttist frá Stóra-Hólmi til Viðeyjar hafði öll búslóðin, fólk og fénaður, verið flutt á sjó, því að þar var nægur skipastóll. Allar skepnurnar voru fluttar á stóru skipi og farnar margar ferðir. Þá kom það fyrir í einni ferðinni, þegar þeir fluttu nautgripi og voru að róa í logni yfir Hvalfjörð, að nautin voru síbaulandi og gátu aldrei þagað, Þegar þeir voru komnir nokkuð nærri Kjalarnestanga, þá vita þeir ekki fyrri til en gripabaulinu er svarað af einhverju gaulöskri frá hafinu; vissu þeir þá að nauthvelið var á leið til þeirra og hertu piltarnir þá róðurinn upp á líf og dauða, til þess að

ná upp á grynningarnar við Kjalarnestanga. Ekki fengu þeir náð þangað fyrir hvalnum, sem óð ofan sjávar og fór miklu hraðara en báturinn og fór nú að þeim með gapandi gini. Ólafur var þá 18 ára og formaður fararinnar. Tók hann þá það ráð, að hann greip tvævetra kvígu, en hún var minsti gripurinn í bátnum, og senti henni eins og hún væri smákind út fyrir borðstokkinn móti hvalnum, en hann greip kvíguna á sundi og sukku bæði. Svona var mér sögð sagan, en um sannindi hennar get eg ekki borið, en hitt veit eg að Stephensens fólk, það sem eg sá í mínu ungdæmi, var kraftafólk, stórbrotið í flestu og höfðinglegt á velli, enda var sú ætt talin með beztu ættum Íslands. Þá sný eg mér aftur að *húsbóndanum*. Hann var sannur stjórnari á heimili sínu, sagði vinnumönnum sínum hvað hver ætti að gera hvern dag, og lýsi eg því nánar þegar eg segi frá verkunum. Hann vildi láta gera alt vel, en rak sjaldan eftir þeim, en ef þeir gerðu ekki verkið eins og hann sagði, þá varð hann stundum hávær og reiddi þá upp stafinn orðum sínum til áherzlu, helst ef honum var svarað einhverju, sem honum líkaði ekki. Eg hafði ekkert af því að segja, því að eg svaraði honum aldrei neinu illyrði, þótt hann yrði eitthvað illur við mig, sem ekki kom oft fyrir. Eg hljóp þá heldur í burtu og lét fætur forða mér frá höggi. Annars var hann heldur góður við mig. Eg vildi líka koma mér vel við hann og gera alt eins og hann sagði mér að gera. Seinasta konan hans, húsmóðir mín, var stilt og hæglát kona og kom að jafnaði þægilega fram við vinnukonur sínar. Þær sögðu þó að ef henni þætti við þær, þá vildu þær heldur fá 10 orð frá *húsbóndanum* en eitt frá henni, svo gat hún verið bituryrt, en það kom sjaldan fyrir. Hún hafði það fram yfir flestar heldri konur, að hún vildi láta vinnukonur sínar mannast hjá sér og læra að sauma einfalda flík og vinna tóvinnu. Hún var sögð naum kona. Að minsta kosti sagði þessi sama gamla kona, er sagði mér af hvalnum, að matarvistin hefði versnað mikið þegar hún kom. En *húsbóndinn* var góður við allar sínar konur og lét þær alveg ráða matnum handa vinnufólkinu og öllu innanhúss.

Magnús sonur *húsbóndans* var þá farinn að búa á móti föður sínum á þriðjungi eyjarinnar. Hann var giftur Áslaugu, dóttur Eiríks Sverresen, sýslumanns: þau áttu 2 börn, höfðu þjónustustúlku, sem Þorbjörg hét og var skyld Áslaugu, 2 vinnukonur, 2 vinnumenn. Alls hafði hann 9 manns í heimili. Í heimili hjá húsbónda mínum voru fyrst hjónin tvö, tvær þjónustustúlkur, sem hétu Gróa og Þórdís og svo voru þar hjón, Ólafur smiður og Ragnhildur kona hans. Þau áttu 4 börn, þau voru vel listfeng hjón. Hann smiður á rétt alt, sem hann lagði hendur að og listavefari, en hún fjölhæf í öllum saumaskap og fatatilbúningi og allra handa útsaumi og hannyrðum. Þessi hjón voru foreldrar síra Ólafs, sem var lengi fríkirkjuprestur í Reykjavík. Hann var elztur af börnum þeirra hjóna, líklega um 8 ára þegar eg var þar. Væri ekki ómögulegt að hann

myndi eftir þeim, sem þetta skrifar, því að hann var oft með mér, þegar eg var eitthvað að gera heima við, og var að biðja mig að segja sér sögur, en hann var ekki nema eitt ár mér samtíða, því að foreldrar hans fóru þá að búa á Eiði, jörð, sem *húsbóndinn* leigði þeim. *Húsbóndinn* hafði mikið uppihald á Ólafi smið, fyrir hvað hann var lipur og vann mikið fyrir heimilið. Hann kunni líka að aka seglum eftir vindi og kunni lagið á *húsbóndanum*. Hann hafði vistast til Viðeyjar, mig minnir þá fyrir sex árum, með eitt barn, með þeim skilmálum að hann fengi 20 spesíur um árið í kaup, en hún átti að vinna fyrir barninu með saumaskap. En börnin fjölguðu með árunum, sem liðu, þar til þau voru orðin fjögur en kaupskilmálinn hélzt óbreyttur, svo að *húsbóndanum* þótti hann vera orðinn nokkuð þungur á fóðrunum og lét þau því fá þessa jörð, með því líka að þau langaði til að fara að búa. Vinnumenn *húsbóndans* voru, þegar eg kom þangað, sex að tölu með okkur tveimur unglingspiltum og fjósakarli. Þá tel eg fyrstan Tómas Jakobsson, náfrænda *húsbóndans* og systurson hans. Hann var búinn að vera þar smali í 18 ár. Hafði lagst í drykkjuskap á unga aldri, svo að foreldrar hans réðu ekkert við hann. Þau dóu fremur ung, en þau höfðu beðið secreterann að taka hann og vera fjárhaldsmaður hans eftir þeirra dag, því að þau héldu að hann gæti haldið honum frá að drekka svona mikið, ef hann væri úti í eynni. Lagsmaður Tómasar hét Gísli, heldur hæglátur maður; kom sér vel. Var hann vanur allri vinnu bæði til sjávar og sveita. Lagsmaður minn hét Ingjaldur, ættaður úr Engey, góður sjómaður og vanur sveitavinnu. Hinn pilturinn, jafnaldri minn, hét Bjarni. Við vorum báðir aldir upp í sveit og kunnum því alla sveitavinnu, en til sjómensku kunnum við ekki, nema við höfðum lært að róa dálítið. Lagsmaður hans var þessi fjósakarl. Hann hét Jón og var um fertugt og því enginn karl, en þetta var titill hans. Hann var alinn upp í Reykjavík við snúninga og drykkjuskap, svo að um fertugs aldur var hann kominn að því að fara á sveitina, en þá bað hreppstjórinn secreterann að taka hann og vita hvort heilsa hans batnaði ekki. Fór svo að honum batnaði heilsan er hann hætti að drekka. Með því að hann kunni ekki til sveitavinnu lenti hann í fjósinu.

Ein af stúlkunum hét Margrét. Hún var ekkja, skyld frú Stephensen. Hún vann inniverk. Dóttir hennar hét Gróa, um tvítugsaldur og var vinnukona. Þriðja stúlkan hét Guðrún Gísladóttir; hjá henni svaf telpa 12 ára gömul og var alin upp í Viðey. Hún hét Margrét. Þá voru tvær mæðgur. Gamla konan hét Ólöf. Var hún víst búin að vera þar í vist allan búskap *húsbóndans*, því að hún talaði oft um fyrri konur *húsbóndans*, hve mikil valkvendi þær hefðu verið og hve vistin hefði versnað við komu hinnar síðustu. Hún hafði þann starfa að sjá um kýrnar í fjósinu og sópa upp í básunum. Frúnni þótti vænt um hana fyrir það hvað vel hún gætti kúnna og kálfanna; var hún eins og ráðskona yfir þessu. Dótt-

ir Ólafs hét Ingibjörg og var þar vinnukona. Þar var og ekkja um fertugt, sem Margrét hét. Hún var eldabuskan í Viðey. Lagskona hennar hét Herdís og var vinnukona. Þjónustan mín hét Valgerður og var systir Ólafs smiðs. Þar var einnig gömul og greind kona, sem Rebekka hét, frænka frúarinnar. Hjá Magnúsi voru því 9 til heimilis, en 25 hjá *húsbóndanum*.

Þá mun eg með nokkrum orðum lýsa húsaskipan.

Viðeyjarstofa var bygð af Skúla Magnússyni landfógeta á árunum 1752—1755, að sagt var á konungskostnað. Stofan var 72 fet á lengd en 36 á breidd og sneri frá suðaustri til norðvesturs. Var hún hlaðin upp úr kalklímdu grágrýti, bæði hliðarveggir og gaflar og sléttað yfir með hvítri kalksteypu. Þakið var úr timbri, bitar og sperrur úr köntuðum trjám. Öll var stofan rambygð, sem sýnir að hún skyldi standa óhögguð eftir meira en 100 ár, þegar eg kom þangað. Framdyr stofunnar voru nálægt miðri lengd hennar og sneru móti suðvestri, eða að sjó. Fram af þeim var svo svolítið fordyri til þess að hengja í yfirhafnir heldri manna, sem þangað komu og þar hafði *húsbóndinn* kíkirinn sinn. Fram af þeirri hlið var girðingarhringur úr rimlum, jafnlangur hliðinni og 3—4 faðma breiður og nokkuð hár. Á þessa girðingu var þvottur breiddur, þegar þvegið var, því að engin var þvottasnúra í Viðey. Út úr eldhúsinu voru og bakdyr. Þegar inn var komið úr framdyrunum, varð fyrst fyrir forstofa og þar var stiginn upp á loftið, beint á móti dyrunum. Til hægri handar þegar inn var komið í forstofuna var litla stofa. Þar voru 2 rúm fyrir þjónustustúlkur, einnig sváfu þar aðkomukonur, sem þar gistu, og þar sat frúin við vinnu með allar sínar stúlkur, bæði ullarvinnu og sauma, alla daga og kveld nema sunnudaga og þegar útivinna var. Inn af þeirri stofu var stór stofa, sem náði alla leið í suðurhorn aðalhússins. Þar var Magnús með fjölskyldu sína. Til vinstri handar þegar komið var inn úr framdyrum var stóra stofa; það var gestaherbergi, til þess að bjóða inn í heldri gestum og þar var þeim borið kaffið. Þar man eg ekki eftir öðru inni en borði og nokkrum gömlum stólum og stóru, gömlu skattholi eikarmáluðu. Þar geymdi *húsbóndinn* peninga sína og neðar í því ýmisleg skjöl og varð eg einu sinni svo frægur að sjá inn í skattholið hjá honum. Hann sendi mig þá inn í Reykjavík til þess að kaupa eitthvað og opnaði hann þá skattholið til að ná í peningana. Þótti mér þeir miklir, enda var eg óvanur að sjá mikla peninga. Í einni skúffunni voru spesíur, í annari ríkisdalir og í hinni þriðju smásilfur. Eg held að hann hafi alt af borið á sér lykilinn, því að inn af því var herbergi *húsbóndans* í suðvesturhorni. Skilrúm var frá enda til enda eftir miðri stofunni og á því einar dyr úr forstofunni og voru þær fram í eldhúsið, og út úr því voru bakdyrnar. Þegar maður kom inn um þær var til vinstri handar stór stofa; þar svaf Ólafur smiður og fjölskylda hans. Þar var líka inni lítill vefstóll, sem

hann óf á það fínasta af vaðmálinu á veturnar. Eldhúsið var beint á móti bakdyrum og rúmgott mjög, með stórum skorsteini með þremur hlóðum, var skorsteinninn svo víður að neðan, að í einu mátti hengja þar upp 4 sauðarkrof. Til hægri handar út úr eldhúsinu var lítið verelsi, sem kallað var "spisskamelsi." Þar var geymt ýmislegt af tilbúnum matvælum, pottar og annað, sem tilheyrði matreiðslu. Til hægri handar við hlóðin stóð vatnstunna, en til vinstri handar skot, sem eldiviður var geymdur í, mór, þang og þönglar. Það var eitt af verkum Jóns gamla að passa að það væri þar til. Til þess að komast í hinar stofurnar varð maður að fara út, og vestur frá bakdyrunum um aðrar dyr. Þegar þar kom inn varð fyrir annar skorsteinn, en eigi eins stór og hinn. Það hafði verið skrifstofa og hélt því nafni; innar af henni var önnur stofa, sem kölluð var hornstofa. Þessi tvö herbergi voru ekkert notuð nema fyrir gesti að sofa í, en þeir voru oft margir, frændfólk og vinir húsbændanna og svo veðurteptir sjómenn. Ekki var nema einn gluggi á hverri stofu, 6 rúður að stærð, að mig minnir. Járnofn var í hverri stofu, múraðir inn í vegginn; var þaðan leiðsla til reykháfanna. Þeir ofnar voru ekki brúkaðir nema í aftaka kulda. Stiginn upp á loftið var í þremur krókum, í kringum uppgönguna, sem var nær miðju húsi voru grindur, þar er stórt pláss þvert yfir stofuna með góðum kvistglugga á vesturhlið, í norður horni þess var mölunarkvörn, en í austur horni þvottarúlla. Undir suðurhlið voru 3 tunnur fullar af roðum, uggum og beinum úr harðfiski,, sem var þar mikið etinn, en öllum roðum átti að kasta í tunnurnar, og var kúnum síðan gefið ruslið. Norðurenda hússins var skift með tréskilrúmi. Vestanverðu við það var piltaherbergið, sem kallað var, þar sváfu allir vinnumenn af báðum búunum, en loftið hinum megin við skilrúmið var matargeymsluhús, líkt og skemma. Þar var geymdur allur fiskur og kjöt, því að enginn kjallari var undir stofunni. Skemma var þar til, en gömul mjög, langt frá bænum og höfð fyrir lambhús. Í hinum enda loftsins voru stúlknaherbergin. Uppi á hanabjálkalofti stofunnar voru leyfar af gömlu prentsmiðjunni. Kirkjan var bygð úr sama efni og stofan og stóð þversum fyrir norðurgafli stofunnar með sundi á milli. Var klukknaport upp úr þaki kirkjunnar. Hún stóð í austurhorni kirkjugarðsins, sem var girtur góðum torfveggjum. Vestan kirkjugarðsins var skemman, sem nú var höfð fyrir lambhús, en vestan hennar var smiðjan. Beint á móti bakdyrum stóð gamla prentstofan og var stutt hlað á milli. Hún var torfhús með lofti og skorsteini. Niðri var smíðahús; uppi á loftinu var hrælaður og hreinsaður æðardúnn, en bakaður í skorsteininum niðri. Á bak við hana var heygarðurinn, en fjósið fyrir norðan, stórt tvístæðufjós, en aftur af því var brunnhúsið með stórum brunni, víst 16 feta djúpum, en í þurkatíð þvarr vatnið í honum og þá var vatnað úr lindarbrunni, sem aldrei þvarr og var rétt hjá stofunni og

bygt yfir. Í fjósinu voru 24 kýr og sneru saman hölum; vestur af því æði góðan spöl var nautafjósið, í því voru 6 básar. Var graðneytum alt af beitt út þegar fært var og náðist til jarðar. Vestur á túninu var hesthúsið, sem 6—7 trippi voru hýst í þegar vont var veður. Viðeyjarstofa stóð á milli tveggja hæstu hæðanna, sem til voru á eynni; að vestan verðu var kallað Brekka, en að austan Kinnin. Brekkan var hæsti hóllinn á eynni; hár, sléttur og grasivaxinn grjóthóll. Þaðan var fagurt útsýni. Sést þaðan til Reykjavíkur, upp á Akranes, Kjalarnes og Mosfellssveit. Þangað fór *húsbóndinn* með sjónauka sinn og sást þaðan um, en var nú hættur því og lét sér nægja lægri sjónarhæðir. Vestan þessarar brekku og fyrir utan túnið var langur skerjahryggur út í sjóinn, fór hann í kaf þegar stórstreymt var, en var bezta beitiskerið um fjöru og í smástreymi, og líka hættulegasta flæðiskerið. Þar á bakkanum var sauðahúsið, sem tók um 40 sauði svona á öllum aldri; ærhúsin voru vestan á eyjunni fyrir vestan mjóddina eða eyðið, sem kallað var, þau voru tvö og tóku 50 ær hvort. Steingólf var í öðru, en timburgólf í hinu, því að það þurfti að moka þau á hverju kveldi.

Er eg lýsi verkum manna, þá byrja eg á slættinum. Hann byrjaði venjulega strax eftir Jónsmessu. Yfir túnasláttinn hafði hver maður vissan völl að slá. Samvinna var á báðum búunum og töðunni skift þegar kom heim í garð. Túnið var ákaflega stórt og þýft og seinslegið. Æðarfuglinn varp í lautunum og mest í túninu, og því var það ekki sléttað. Fyrra árið, sem eg var þar gengu 9 að slætti, að Magnúsi meðtöldum, og einn kvenmaður, Valgerður systir Ólafs smiðs. Sláttufólkið átti alt af að vera komið að slætti ekki seinna en klukkan hálf-fjögur að morgni og væri engin hreyfing komin í pilta loftinu klukkan að ganga fjögur, þá brást það ekki að *húsbóndinn* kom í dyrnar á piltahúsinu á nærklæðunum og spurði hvort við ætluðum að sofa í dag. Hans herbergi var niðurundan og heyrði hann því ef engin hreyfing var á, en ekki kom það oft fyrir að hann næði okkur í rúminu. Það var ætlunarverk smiðsins að vekja upp sláttufólkið um túnasláttinn. Klukkan sjö átti alt kvenfólk að vera komið á fætur til að bera litlaskattinn til sláttufólksins, og á meðan maður át hann fór stúlkan heim og sótti morgunkaffið. Það kom sín stúlkan til hvers sláttumanns og eftir það átti maður von á *húsbóndanum,* til þess að sjá hvað mikið væri búið að slá; það var ákveðinn vani hans um túnasláttinn. Sjaldan fann hann að hvað lítið hefði verið slegið. Einu sinni varð eg smeykur. Hann hafði sett mig í versta völlinn, sem til var og var sá blettur kallaður Grjóttún. Hann lét alt af nýja menn slá þann völl og var sá blettur meinþýfður og grýttur, en hluti af honum var sléttaður. Þennan morgun var döggfall mikið og góð rekja. Þegar eg hafði slegið litla stund, settist eg á þúfu meðan eg var að brýna, en svo var eg syfjaður að eg vissi ekkert fyr en sagt var við mig: "Hérna er litli-

skatturinn þinn.'' Gleypti eg í mig matinn og kaffið og keptist við að slá slétta blettinn í vellinum, svo að eitthvað sæist þó eftir mig. Skömmu síðar sé eg hvar *húsbóndinn* kemur og stefndi hann beint til mín. ''Ekki er nú stór bletturinn þinn, drengur minn, í svona góðri rekju,'' segir hann. Eg greip þá til ósannindanna mér til varnar, þótt aldrei séu þau happasæl. Sagði eg að völlurinn væri svo grýttur að alt bit hefði farið úr ljánum og eg hefði ekki gert annað en að hvetja hann. Þá segir hann: ''Eg veit að það er grýtt. Það hafa heldur ekki allir gert stóran blett í þessu túni.'' Fór hann svo leiðar sinnar, en eg þóttist hafa sloppið vel.

Klukkan 10:30 var kallað á okkur til morgunmatar og þá átti sláttufólkið að eta og sofa til 12; þá vorum við vakin með miðdegiskaffinu. Klukkan 4 var kallað á okkur til miðdegismatar, og klukka 10:30 til kveldmatar, og eftir það fórum við að sofa. Þannig var það um túnasláttinn, sem entist venjulega í mánuð. Þegar farið var að heyja á útengi breyttist þetta alt. Þá fórum við upp klukkan sex að morgni og átum litlaskattinn, sem borinn var til okkar kveldinu áður, og þá fengum við ekkert kaffi. Þá voru ætíð tveir saman að slætti. Þá fengum við aldrei kaffi nema á sunnudögum og þá daga, sem bundið var. Vestan af eyjunni var heyið flutt á 8 hestum og 2 fóru á milli; þá var bundið í tvennu lagi, 2 karlmenn og 2 kvenmenn unnu að bandinu. *Húsbóndinn* kom ríðandi til fólksins á hverjum degi þegar gott var veður, til að sjá og segja fyrir verkum. Á vorin var byrjað eins fljótt og hægt var að vinna á vellinum. Að því unnu allir á heimilinu. Fjósakarl og kerlingar börðu sundur hlössin. Þurfti völlurinn að vera búinn áður en eggjagöngur byrjuðu. Þegar fiskirí hætti þá unnu karlmenn að moldarverki ef þurfti að gera við þök eða veggi, sem venjulega þurftu aðgerðar. Þegar eggjagöngur byrjuðu voru það 8 kvenmenn og einn karlmaður, sem að þeim unnu. Hann átti að ganga bakkana og klifra niður á stallana framan í klettunum og var það mitt hlutverk bæði árin, sem eg var þar. Mín ganga var ekki breið, svo sem fimm faðmar upp bakkann, svo öll breiðan fram úr bæði á stöllum og í klettaskorum. Eggjagöngunum var svo hagað, að það gengu 8 kvenmenn í röð út frá mér á bakkanum, og við þessi 9 tókum svo sem hálfa breidd eyjarinnar í einu. Vanalega var gangan byrjuð að norðanverðu eyjar og svo vestur og til baka að sunnanverðu. Allir gengu sína sömu göngu, svo að hver vissi býsna vel hvar hreiðrin voru. Við áttum að skilja eftir 4 egg í hreiðrunum handa æðarkollunum að unga út. Allir þurftu að kunna að skygna eggin, svo að sömu eggin væru í hreiðrunum. Við áttum að fara mjög hægt með þau egg. Sumar æðarkollurnar voru svo spakar, að við urðum að taka þær úr hreiðrunum og leggja hjá okkur á meðan við vorum að skygna eggin. Það var alt af gengið annanhvern dag eftir að æðarkollurnar fóru að verpa. Við fórum ætíð snemma af stað í eggjagöngurnar, því að við

áttum að vera búin að ganga vestur-eyjuna fyrir hádegið, en austureyjuna gengum við eftir hádegið. Allir höfðu þessar eggja-svuntur, sem mynduðu poka framan á manni; þar voru eggin látin í og dúnninn, þegar hann fór að koma, því að kollurnar reita hann smátt og smátt af sér til þess að hafa mjúk hreiður. Hver æður varp 10—12 eggjum. Strax og dúnninn fór að koma var byrjað að hreinsa hann. Það gerðu vanalega karlmenn, að hræla hann; það var vont verk og óholt. Það var gert á prentsmiðjuloftinu; en kerling bakaði hann í skorsteininum niðri.

Þegar piltarnir voru búnir með moldarverk, var farið að sjá fyrir eldivið. Þang var borið upp til þerris og mór tekinn upp, en því verki fylgdi mikil fyrirhöfn, því að hann var tekinn upp í landi. Viðey átti hálft Geldinganes á móti Gufuneskirkju. Þar var gott mótak og þar var mórinn tekinn upp. Einnig var nesið brúkað fyrir beitiland. Það var mikil vinna að flytja skepnur í land, en móinn heim. Alt varð það að gerast fyrir sláttarbyrjun. Þurfti til þess góða stjórn og mikinn mannafla.

Á meðan eg var í Viðey gekk fjárkláðinn um alla Gullbringusýslu. Var öllu fé því haldið í eyjunni, en öll hross, sem ekki voru brúkuð og naut flutt til lands í Geldinganes. Fylgdi þessu fjarska mikil fyrirhöfn. Vanalega höfðu þar verið fráfærur og lömbin rekin á afrétt. Vestur-eyjan var höfð fyrir beitiland; hafði einhverntíma verið hlaðinn yfir hana þvera garður og var hlið á með grind í. Þar var eins og stöðulból og kýr mjólkaðar eftir að þær voru farnar að liggja úti og eins ær. Þessi varnargarður hélt gripum, en ekki fé, því varð að vaka yfir túninu. Það var oft röltsamt á vorin, því að hundum og köttum var komið í land yfir varptímann.

Á vetrum lét frúin allar sínar stúlkur vinna við ullarvinnu og saumaskap alla rúmhelga daga. Ólafur smiður var alla daga úti í prentsmiðjunni að smíða og gera við það sem þurfti. Mikið þurfti af meisum og misjafnir voru þeir að stærð. Stundum var hann úti í smiðju að smíða ljái. Þurfti marga, því að hver sláttumaður hafði þrjá af þeim yfir daginn; dengdi smiðurinn alla ljái fyrir alla. Á kveldin óf Ólafur oft. Á piltaloftinu héldu vinnumennirnir til er útiverkum var lokið. Sumir að vinna hrosshár og flétta reipi, aðrir að gera við gömul reipi og einn, sem kunni að spinna, spann hamp í hrognkelsanet. Um haustið, þegar *húsbóndinn* var búinn að raða niður þessum verkum, sagði hann mér að konan sín vildi eiga vökuvinnu mína. Frúin kom svo til mín og sagði að eg ætti að kemba fyrir þær. Eg sagðist hafa kembt, en sá væri gallinn á, að eg sé svo kveldsvæfur að ekki sé mögulegt fyrir mig að vaka við jafn leiðinlega vinnu. Hún brosti við og sagðist ekki trúa því að jafn stór og fallegur stúlknahópur gæti ekki haldið mér vakandi. Fór eg síðan að kemba fyrir Valgerði þjónustu mína. Fékk eg lof fyrir að eg kembdi vel, en strax fór að síga á mig svefn og hrökk eg upp við það, að annar kamburinn féll

á gólfið. Eg bjóst við að frúin mundi reiðast, en hún brosti að og sagðist hafa heyrt að eg væri vel lesandi og því hafi hún hér bók, sem muni vekja mig og hressa upp stúlkurnar, ef eg lesi í henni stundarkorn. Það voru Fornaldarsögur Norðurlanda. Fór brátt af mér allur svefn og ekki nóg með það, stúlkurnar unnu nú af meira kappi en fyr. Fór það nú svo að eg kembdi dálitla stund á hverju kveldi, en las svo sögur þangað til stúlkurnar fóru að mjólka. Þegar það var búið var lesinn kveldlestur og gerði Magnús það, og sat við dyrnar á milli herbergjanna svo að *húsbóndinn* gæti heyrt. *Húsbóndinn* byrjaði, því að hann var raddmaður mikill og allir sungu sem gátu, því að nógar bækur voru til. Eftir lesturinn kom kveldskatturinn og allir áttu að fara að hátta kl. 10:30, en allir fóru ætíð snemma á fætur. Þegar eg las sat *húsbóndinn* tímum saman inni og hlustaði á, en hurðin inn til Magnúsar var látin standa opin. Las eg hátt svo allir gátu vel heyrt.

Fæðinu var þannig háttað, að það var vigtað út á hverjum sunnudagsmorgni, brauð og smjör til viku, en harðfiskur til hálfsmánaðar. Hver karlmaður fékk hálft bakalónsbrauð til viku. Þau voru búin til og bökuð í bakaríinu í Reykjavík. Kornið í þau var malað þar í vindmyllu, því að þá var lítið af mjöli farið að flytjast til landsins. *Húsbóndinn* keypti það vanalega af spekúlant, sem Green hét. Kom hann á hverju ári til landsins og hafði betri vörur en kaupmenn. *Húsbóndinn* seldi honum ætíð dúninn og fékk 10 ríkisdali fyrir pundið. Bakalónsbrauðin vógu 6 pund, svo að karlmaðurinn fékk 3 pund til vikunnar og 4 merkur af smjöri; því að það var etið mikið af harðfiski. Eg vissi aldrei hvað mikið hann vóg, en meira en nóg. Kvenfólkið fékk ekki nema pund af smjöri og hálft af brauði, en nóg af harðfiski. Þetta var átmaturinn. Í morgunskatt fengum við fulla aska af mjólkurblönduðum þunnum graut, en á kveldin flóaða mjólk þegar hún var til, annars mjölgraut, vel hálfa aska; þetta var jafnt árið um kring, nema að það var gamall vani frá jólaföstu inngang til vertíðarbyrjunar að annan hvern dag var skamtaður miðdagsmatur, annaðhvort kjötsúpa eða baunir með tólg út í. Voru askarnir fullir og bjuggum við vel að því. Þær vikur var útvigtin minni, 1/3 brauðs og 3 merkur af smjöri, en við græddum á skiftunum. Þá daga, sem róið var fengum við ætíð soðningu þegar við lentum, og var það eins og aukabiti þá daga, því að maður hafði oftast lítið af brauði síðustu daga vikunnar og fæðið var horslaralegt. Stundum leit fólkið vel út og gerði það víst þessi mikli mjólkurmatur.

Það var haldið þar mikið upp á allar hátíðir, einkum jólin. Þá fengu allir á aðfangadagskveld kjötsúpu og kaffi á vökunni og lummur með. Karlmenn fengu þá eitt staup af brennivíni, en kvenfólkið þá annað vín. Á jóladagsmorguninn fengu allir kaffi með pönnukökum; um morgunverðarleytið var komið með heila flatköku og smjör við henni og mikið af hangikjöti. Kvenfólkið fékk hið

sama af öllu, en minni köku og minna af kjöti. Þannig var haldið upp á allar hátíðir með matgjöfum.

Þá hefi eg sagt frá flestu, sem gerðist á þessu fyrra ári. Síðara árið, sem eg var þar varð breyting á. Fólkinu fækkaði; Ólafur smiður fór í burtu, en í hans stað kom Þorsteinn Jakobsson, einhleypur maður, stór og sterkur af Húsafellsætt. Hann varð lagsmaður minn; góður smiður á tré og járn. Alt gekk sinn vanagang. Heimilið var sérstakt regluheimili. Kaup var sama sem ekkert borgað, nema vel búin föt. Eg held samt, þó að kaupið væri lítið, að allir hafi haft gott af því að læra þar reglusemi af verunni.

Winnipeg 5. des. 1934.



# The Grave

*(From the Icelandic by Kristján Jónsson)*

*Þýtt af Dr. G. J. Gislason*

Where is on earth a safe retreat,
A rest from care and pain?
Where ne'er a grieving heart doth beat,
And peace serene doth reign?

It is the deep and silent grave,
Where strife and sorrow cease;
Beyond life's dreary ocean wave,
A port of rest and peace.

You calm the passion's fiery blaze,
And quench the flame of hate;
You hush the yearning lover's lays,
And seal the Book of Fate.

You heal the broken heart forlorn,
And close the eyes oppressed;
You dry the tears of anguish born,
—O blessed place of rest!

To one distressed, a refuge sweet,
O dark and silent grave;
You are the only sure retreat,
That Heaven's mercy gave.

# Um bygð og óbygð

Eftir *O. T. Johnson.*

Það mun vera nærri sanni, að orðið "bygð" hafi hjá Vestur-Íslendingum hlotið nýja merkingu frá því er viðgengist hefir áður í íslenzku máli. Þegar vér tölum um bygð eða bygðir, þá er oftast átt við staði, þar Íslendingar eru búsettir. Sú merking orðsins lætur vel í eyrum og vekur þjóðræknistilfinningar, því: "ættjarðarböndum grípur hver grund, sem grær kringum Íslendings bein." Og þegar vér tölum um bygðir annara þjóðflokka, nær það eigi eins hjartnæmum tökum, og orðið "bygð" er þó eins og með annarlegri blæ. Orðið "bygð" hefir náð þeirri hefð í vestur-íslenzku máli.

Í upphafi var óbygð er varð bygð, *íslenzk* bygð. Sú breytiþróun hlýtur að skoðast eftirtektarverð og verðskulda að henni sé gaumur gefinn. Nú, þegar "bygðameðvitund" Vestur-Íslendinga er óðum að hverfa, yngri kynslóðin að færast út fyrir takmörk íslenzkra landnámsmanna, þá virðist eigi úr vegi að glæða hið liðna og halda á lofti myndum úr vestur-íslenzku bygðalífi.

Um íslenzkar bygðir hafa margir ritað, en vonandi er það eigi að bera í lækinn bakkafullan, þó hér verði reynt að bregða upp fáeinum bygða-myndum, án þess að nafngreina nokkra sérstaka bygðarbúa. Allar vestur-íslenzkar bygðir eiga svipaða sögu, þó staðhættir hafi verið breytilegir.

Sá, er orð þessi ritar, er borinn og barnfæddur í íslenzkri bygð, af bygð kominn og til bygðar að hverfa—í anda. Tíu vetra tók hann fyrst að nema enska tungu, því á barnaskóla var eigi völ í bygð hans fyrstu frumbýlisárin. Bygð sú var skólalaus, læknislaus og prestslaus á frumskeiði, þó eigi væri íslenzkir frumbýlingar ráðþrota í þeim efnum, eins og síðar verður að vikið.

Um bygð verður eigi talað, án þess að minnast á óbygð, því í fyrstu var hver bygð óbygð. Skáldið eitt líkir þeirri óbygð við konungsdóttur í álögum er bíði hins hvíta manns. Er það skáldleg lýsing og sönn, því "fagurt og frítt" var landið, sú óbygð eins fögur og nokkur konungsdóttir getur verið. Álög hennar svo töfrandi, heilnæm sem heiðloft vorsins og tárhrein eins og nýfallinn snjór vetrarins. Og að íslenzkir æfintýramenn sigldu yfir hafið til þess á vígvöllum frumbýlisþrauta að offra þeirri fögru konungsdóttur þreki sínu og hugrekki, er endurtekning íslenzkrar sögu og bjarmi frá löngu liðinni víkingaöld.

Vér, sem vorum í heiminn bornir á frumbýlisárunum, lærðum að þekkja hvorutveggja, bygð og óbygð. Hin vestræna óbygð á þau ítök í hjörtum þeirra, er hana þekkja, sem eigi geta orðið gleymsku að bráð.

Ef vér leggjum hið skáldlega til hliðar og athugum óbygðina í praktísku ljósi, þá verður eigi eins auðvelt að réttlæta komu hins hvíta með því, að hver óbygð hafi beðið

hans eins og konungsdóttir í álögum. Umliðnar aldaraðir hafði óbygðin komist af án hins hvíta mannflokks. Á tímabilum óútreiknanlegrar þátíðar hafði lögmál hennar haldið öllu við og á þroskavegi; hið auðuga dýraríki hennar dafnað, því alt þroskast og þróast undir veldissprota náttúrulögmálsins.

Enginn getur sagt, að dýr eyðimerkur og frumskóga hafi þarfnast mannsins, því þar var alt í röð og reglu þó farið væri eftir órituðum lögum. Óbygðin þurfti eigi endilega á skáldum eða listamönnum að halda, því skáld er hún sjálf og hönd listamanns hefði eigi málað hana fegri, hið græna litskrúð hennar á vordegi og "þúsundaliti" að hausti. Og sé eingöngu íhugað hið "praktíska," þá tíðkaðist hér búskapur löngu á undan komu hvítra manna. Fuglar færðu föng í hreiður sín og önnur dýr björg til búra sinna. Búskapur dýranna er rekinn af atorku og þrunginn fyrirhyggju, þó eigi hafi þau gengið á búnaðarskóla.

Og sízt má gleyma Rauðskinnum, eða Indíánum, eins og þeir oftast eru nefndir. Þeir voru þó *menn!* Þeir elskuðu og hötuðu að manna sið, og í fjötrum haturs og heiftar stigu þeir ægilega herdansa kring um elda sína. Ekki vildu þeir vinna óbygðinni mein, því eigi hrófluðu þeir við moldinni eða skáru upp herör í ríki skógarins. Þeir kusu að samblandast náttúrunni eftir hennar eigin lögum, vera hold af hennar holdi og blóð af hennar blóði. Náttúran var þar námi ríkari.

Íslenzkir frumbýlingar höfðu töluverð kynni af hinum ýmsu Indíánaflokkum. Villimenn þeir gáfu óbygðinni svipmeiri og tignarlegri blæ—þó oft væri þeir eins og mannaþefur í helli, því eigi var laust við að Íslendingar óttuðust þá fyrsta sprettinn. Þeir gengu inn í húsin án þess að berja að dyrum, því eigi kunnu þeir mannasiði. Væri góðgerðir um hönd hafðar og fyrir þá á borð bornar, þá mötuðust þeir standandi og stungu að því loknu á sig öllum leifum á borðinu—þrömmuðu svo til dyra án þess að líta um öxl eða kveðja kóng eða jarl.

Eg minnist eins atburðar frá æskuárum, sem bendir á sérkennilegar siðvenjur Indíána. Hinir ýmsu flokkar þeirra urðu aldrei staðbundnir, en voru á sífeldu flakki innan þeirra landstakmarka, er þeir völdu sér. Þeir fóru um landið í löngum lestum, þar fjaðraskreyttir karlmenn sátu hnarreistir á hestbaki, en konur fóru fótgangandi og oft berandi króa sína á bakinu. Karlmenn voru til víga og hernaðar, en konur til að gráta heima við og vinna öll heimilisverk. Maðurinn var hetja, en konan þræll. Og eigi var annað að sjá en konur létu sér það vel lynda.

Það var einn vetrardag, að til einnar slíkrar lestaferðar Indíána sást. Það hafði brugðið til kulda og hríðarbylur var nýlega afstaðinn og nýfallinn snjór á jörðu. Lest Indíánanna var hægfara, en ruddist þó gegnum fönnina og skildi eftir veltroðna slóð. Síðla þann dag, löngu eftir að lestin var komin í hvarf, sést til fótgangandi Indíána, er slóðina þræddi og virtist vera að veita lestinni eftirför.

Þegar hann kom nær kom í ljós, að þetta var gamalmenni, hrumur mjög og tekin að förlast sýn. En það er siður Indíána, að losa sig þannig við aflóga gamalmenni, skilja þau eftir á gaddinum og láta þau verða vetri og úlfum að bráð. Þessi gamli maður, sem nú tifaði áfram í fönninni, hafði að sjálfsögðu séð mörg gamalmenni þannig eftir skilin og sjálfur verið við það riðinn. En þó gamall væri, hrumur og sjónin döpur, var sem honum væri það eitt umhugað, að komast sem lengst og selja líf sitt eins dýru verði og unt væri. Atburður þessi festist mér í minni.

Nornin Urður veit ein um hið liðna á sviði vestrænna óbygða. Vesturálfa er ung mannheimi, því í fjarlægri þátíð var lítið um komur hvítra manna á hennar slóðir. Helmingur hnattar vors mannheimi ókunnur og hulinn slæðu hins liðna. Við fund Ameríku taka heimsþjóðirnar von bráðar að leggja hana undir sig. Íslendingar, sem þó stæra sig af fundi þessa lands, létu sér lynda að sigla í kjölfar annara þjóða, að undanskildri einni mishepnaðri tilraun til landnáms. Landfundur Leifs hefði algerlega gleymst og aldrei orðið heimskunnur viðburður söggunnar, ef ókunnur sagnahöfundur á Íslandi hefði eigi fært þetta í letur. Höfundi þeim ber lof um allar aldir og ættu Íslendingar að reisa honum veglegan minnisvarða.

Landnemar hljóta Íslendingar þó að teljast, því þeir námu *nýtt* land hér í álfu. Ameríka er stór og að eins lítill hluti hennar numinn við komu Íslendinga. Bygðir þeirra risu upp úr frummoldinni, ef svo má að orði komast, plógar þeirra rótuðu við alnýrri mold og axir þeirra feldu stórtré ósnertra skóga. Þannig eiga Íslendingar með réttu nafnið frumbýlingar.

Þann óbygða blett, sem síðar verður íslenzk bygð, ber Vestur-Íslendingum að heiðra og halda minningunni á lofti. Þar hefst dagrenning nýrrar söguldar- Vér erum þá landnámsmenn við endurtekning íslenzkrar sögu. Forfeður vorir, sem Ísland námu, voru herskáir víkingar og frá landnámstíð þeirri stafar saga hetjuskapar og hreystiverka. Niðjar þeirra, landnámsmenn Vesturálfu, voru líka hraustir og hugrakkir. Við margvíslega örðugleika hlutu þeir að etja, sem eigi voru hlutskifti forfeðranna á landnámsárum Íslands. Þeir drógust inn í samkepni við aðra stærri þjóðflokka og urðu— og eiga enn—við ýms álög að búa frá hálfu þeirra þjóðflokka. Landnámsmenn Íslands komu að landi óbygðu og frjálsu. Ameríka er stærra land og auðugra, en hefir aldrei verið eins *alfrjáls* og Ísland var á landnámsárum. Lýðfrelsisandi forfeðranna sveif hærra og bar við himin, bjartan himin norrænnar stórlundar.

II.

Það var markmið mitt, að minnast á bygðir, al-íslenzkar bygðir. Bygðir þær voru oft afskektar og alveg askildar öðrum bygðarlögum. Þar höfðu oft hvítir menn eigi fæti stigið enn þá, aðrir en stöku veiðimenn og "mælingamennirnir." Þeir síðarnefndu voru boðberar hinnar svonefndu menningar. Mældu þeir landið í

ferreiti, 160 ekrur af landi í hverjum ferreit. Landsblettir þeir áttu að gefast, að það var kallað, innflytjendum, er innrituðust sem borgarar og þegnar. En sá var galli á gjöf Njarðar, að slíku fylgdu skylduákvæði, t. d. sex mánaða árleg ábúð á "landinu" fyrstu þrjú árin, lögbundin verk, eða umbætur er gerast urðu áður en heimilisréttur fengist. Fátt er alfullkomið í heimi vorum og í hugum innflytjenda voru slíkar landsgjafir alment skoðaðar kostakjör. Landið var svo blómlegt og björgulegt, framtíðar möguleikar um leið góðir og alt svo aðlaðandi.

Hugur minn hvarflar oft til "mælingamannanna," er nefnast mega brautryðjendur hins nýja skipulags hér í álfu. Eg var þá ungur, en man þó vel eftir þeim og minnist þess sérstaklega, hve þeir voru vel klæddir og vel útbúnir að vistum og verkfærum. Þeir mældu landið og ráku niður merkta "hornstaura," sem margir standa til þessa dags. "Línur" hjuggu þeir þráðbeinar í gegn um stórskógana, sem útheimti mikla elju og þrautseigju. Eg læt landmælingamannanna hér sérstaklega getið, af því Íslendingar munu stundum hafa verið í þeirra tölu, og upphaflega, skömmu eftir hingaðkomu Íslendinga, Klettfjallaskáldið, sem allir kannast við. St. G. St., mun hafa verið með mælingamönnum eina tíð, þó eigi fengist hann við þau störf til lengdar. Grunur minn er að á því margbreytilega ferðalagi um vestlægar óbygðir hafi hann auðgað anda sinn og öðlast ógleymanlegar myndir margra ljóða sinna, sérstaklega ljóðabálksins: "Á ferð og flugi." Það var því lán vesturíslenzkum bókmentum, að Fjallaskáldið slóst í lið með mælingamönnum.

Frumbýlislífið var margþátta, því eigi voru Íslendingar við eina fjöl feldir á landnámsárum. Hugur svo margra hneigðist í aðrar áttir en landbúnaðarins. Ungir menn sérstaklega fóru því víða og lögðu hitt og þetta fyrir sig. Kunnu þeir frá mörgu að segja, er þeir komu til bygða og dvöldu um skeið hjá bygðarbúum. Yfir menn þá færðist einskonar æfintýrabragur og var fólki tíðrætt um þá og gerðir þeirra. T. d. hafði einn þeirra lært "hnefaleik" og gat dauðrotað fullþroska mann með einu hnefahöggi! Annar gekk með skammbyssu upp á vasa og lá við að fólki stæði stuggur af manni þeim og braski hans. Allir eða flestir af æfintýramönnum þeim áttu það sameiginlegt í fari sínu, að líta hýrum augum til heimasæta bygðarinnar. Af mönnum þessum stóð styr, gleði og galsi, og voru hinir hreifustu á "samkomum" bygðarbúa; kunnu margir að stíga hérlenda dansa og heilluðu unga fólkið út á gólfið með sér. En sjaldgæft var að þeir ílengdust lengi í bygðunum, því útþrá greip þá og þeir voru horfnir—fáir vissu hvert.

Sögur þeirra íslenzku æfintýramanna munu gleymast, því að undanskildum hinum snjalla rithöfundi Magnúsi J. Bjarnasyni hafa fáir reynt að halda minningu þeirra á lofti. Með frumbýlingunum íslenzku falla þeir í valinn, sem æfintýrabjarma færðu yfir land-

námsárin, og þá er alt hið sann-íslenzka óðum að líða undir lok hér í álfu.

Frumherjar íslenzku bygðanna voru eigi til æfintýra hneigðir. En þeir voru af góðu bergi brotnir og reyndust því hinir nýtustu menn í hvívetna. "Grímur frá Grund," er þeir "gáfu land út við Parry sund," var ekki aðeins skáldleg hugsjón heldur raunveruleg mynd vestur-íslenzkra frumbýlinga. Sérkennilegir að vísu voru íslenzku landnámsmennirnir í augum annara þjóðflokka eigi er því að neita. Framkoma þeirra og fas íslenzkt, því þeir komu til dyra eins og þeir voru klæddir. Þó fóru svo leikar að þeir voru alment viðurkendir ötulir og framgjarnir og yfirleitt dugnaðar- og atorkumenn.

Um íslenzku landnámsmennina verður þó ekki sagt, að þeir hafi verið sérlega glöggvir á hina miklu landkosti hérlendis. Og vera má að það reynist þeim frekar til lofs en lasts, er *auðmenningin* svonefnda tekur að "reka sinn brothætta bát á blindsker í hafdjúpi alda!" Auðsöfnun og auður eru enn öfl þeirra hluta, er gera skal, en svo mun fara að lokum, að önnur "öfl" finnist, sem heppilegri eru og meir samstiga við andlegan þroska þjóðanna.

Fyrir íslenzkum landnámsmönnum vakti fyrst og fremst, væri þeir sjálfráðir, að velja bústaði sína þar hátt var og gott útsýni. Hin mikla fjallafegurð heimalandsins var þeim í merg runnin. Hið næsta skilyrði var að vera nálægt vatni, ám, lækjum eða stöðuvötnum—helzt þar líklegt væri til fiskjar um framtíð alla. Eins var talið til landkosta að vera nálægt skógi og eiga völ á góðu engjalandi fyrir væntanlega búpening. Þá munu upptaldir þeir helztu landkostir, er Íslendingar sérstaklega lögðu áherzlu á. Hinir fyrstu landnámsmenn hugðu eigi að verða stórauðugir á fáum árum, á hveitirækt eða þess konar stórgróða landbúnaði.

Húsakynni fyrstu frumbýlisáranna voru fátækleg og ófullkomin eins og vænta mátti, oftast klunnalega reistir bjálkakofar með torfþökum og moldargólfum. Úr því rættist þó von bráðar, er Íslendingar lærðu tök á skógarhöggi og öllu, er laut að húsagerð. Lélegir skógarhöggsmenn þóttu þeir fyrsta sprettinn, því eigi kunnu þeir að sveifla öxi aftur fyrir sig og yfir höfuð sér með þeim hætti, að hún kæmi niður með snöggum líkamsþunga þess, er hana reiddi. Yngri menn, sérstaklega, voru þó furðu fljótir að komast upp á "axarlagið," og áður langt leið urðu margir þeirra hinir færustu skógarhöggsmenn.

Lífssvið og alt umhverfi var nýtt, og hin nýja lífsreynsla sköp nýyrði! Sú er þroskasaga máls vors, að þegar þjóðniðjar glíma við örðugleika hversdagslífsins, hrjóta þeim oft ný og kröftug orð af tungu. Íslenzkir sjómenn í baráttu við hafið, íslenzkur bændalýður umvafinn frosti og funa—þar skapast kjarnmáttur íslenzks máls. Málfræðingarnir megna minna á því sviði, þó ötulir séu — Við annað tækifæri síðar vildi eg gjarnan mega minnast lítillega nýyrða íslenzkra landnámsmanna, þó betur

færi að málkunnugri menn en eg riði þar á vaðið.

Íslendingum, sérstaklega hér megin hafsins hefir oft verið borið á brýn tregða í samvinnumálum og skortur á vilja til samtaka. Vera má að því megi stað finna, sé miðað við þjóðbrotið sem heild, enda samvinna örðug svo dreifðra krafta. Ef Vestur-Íslendingar væri t. d. bólsettir í einu fylki Canada, eða einu ríki Bandaríkja, þá væri afstaðan alt önnur.—

"Þjóðbrot," það orð fer vel í fleirtölu; brot íslenzkrar þjóðar, aðskilin og dreifð um meginlandið. Heildarsamtök öll hafa tekist vonum fremur, þegar hin rétta afstaða þjóðbrotanna er tekin til greina.

Þegar um íslenzkar bygðir er að ræða hverja fyrir sig, var samvinna bygðarbúa á eins háu stigi og bezt átti sér stað á meðal annara þjóðflokka. Eg er uppalinn í bygð og var sjálfur sjónarvottur að samtökum og samvinnu á allar hliðar. Bygðin var ung þegar eflt var til mannfunda í þágu velferðarmála. Og árangur þess samvinnuþels kom á sínum tíma í ljós. T. d. var lestrarfélag sett á fót, barnaskólar stofnaðir, eflt til smjör- og ostagerðar samtaka, o. s. frv. Enginn fær núið þeim bygðarbúum því um nasir, að þeir væri sofandi eða samtakalausir.

Saga Canada eða Bandaríkjanna ætti að ritast þannig, að þjóðflokkar þeir, er landið byggja rituðu hver sinn eigin söguþátt. Hver er sínum hnútum kunnugastur. Vestur-Íslendingar gerðust þá sagnaritarar, að sið feðranna, og rituðu sína eigin landnámssögu. Margt mun þá koma í ljós, er áður hefir verið hulið. Til dæmis það, að enginn þjóðflokkur mun hafa verið eins efnalega snauður og Íslendingar voru á frumbýlisárunum. Hjá þeim ríkti efnalegt allsleysi að heita mátti. Enginn annar þjóðflokkur hefir heldur verið jafn "óskólagenginn," sé leyfilegt að viðhafa það orð. En eigi létu Íslendingar þá smámuni á sig fá. Sjálfmentaðir menn á meðal þeirra urðu hómópatar og tóku að lækna sjúka. Sjálfmentaðir yfirsetumenn og yfirsetukonur komu til sögunnar. Og sjálfmentaðir alþýðumenn gerðu mörg prestsverk, skírðu nýfædd börn, jarðsungu þá dauðu o. s. frv. Enginn mun því geta brugðið Íslendingum um mentunarskort, þó sjálfmentaðir væri.

Oft lýstu menn annara þjóða undrun sinni yfir sjálfmentun íslenzkra alþýðumanna, sem aldrei höfðu skóla notið. Enda mun það vera einsdæmi á meðal siðaðra þjóða, sem flestar eiga völ á alþýðuskólum. En Íslendingar voru þó skrifandi og lesandi engu síður en hinir og stundum "miklu meiri" eins og svörin hljóðuðu við berserkina forðum. Landnámsmenn höfðu sama sem engan kost átt á mentatækjum, margir þeirra fundið sig knúða til þess að læra að "draga til stafs," með því að rista í fannir með stafbroddum sínum. Sú var mentaþrá íslenzkrar alþýðu og viðleitni á þroskunarsviði. Vesturheims niðjar hennar, sem skólaveginn gengu, voru því af góðu bergi brotnir, enda hlutu þeir oft verðlaun í æðstu skólum.

Tíðrætt hefir mörgum verið um frelsisanda "Fjölnismanna" og er það að verðleikum. En minna hefir verið rætt um frelsisþrá íslenzkrar alþýðu, sem kom í ljós þá Ameríku ferðir hófust! Þá eru að byrja ný tímamót í sögu Íslands. Stjórnarskráin hefir nýlega verið veitt fyrir tilverknað fullhugans fræga, Jóns Sigurðssonar. Nýr frelsisandi gagntekur hugi þjóðarinnar; alt hið stjórnarfarslega þó aðeins í byrjun á frelsis-grundvelli, því enn á þjóðin við kvöl og harðrétt að búa. Sízt því að undra þó margir gerist óþolinmóðir og taki að hugsa: að nú sé annaðhvort að duga eða drepast! Ameríka blasir við ung og aðlaðandi og þau verða leikslok, að stór hluti landsmanna tekur sig upp og flytur búferlum af landinu. Meiri fórnfýsi er eigi unt að sýna í frelsisþágu, en kveðja fyrir fult og alt ættir og átthaga, skilja við frændfólk og vini og snúa frá öllu, sem kærast er og hugljúfast í lífinu.

Norrænir forfeður, sem Noreg yfirgáfu og Ísland námu, hafa verið lofsungnir að maklegleikum. Hvorir voru meiri hetjur, þeir eða niðjar þeirra, því vil eg eigi þreytast við að svara. Gera má þó örlítinn samanburð þar á milli. Hinir fyrnefndu eru auðugir í Noregi, tignir menn og óðalsbændur. Búferlum flytja þeir þannig að þeir flytja auðinn með sér. Ísland er þá ungt og alfrjálst, þar "smjör drýpur af hverju strái"; þar gerast hinir norrænu víkingar einráðir, því við enga mótstöðu eða mótspyrnu er að etja.

Niðjar þeirra hafa átt við skort og harðræði að búa í margar aldir. Berskjaldaðir og blásnauðir hafa þeir barist og lífi haldið. Frelsisþrá grípur hugi þeira og þeir flytja til Ameríku. Þar sogast þeir, fátækir og fákunnandi, inn í samkepni við undankomin þjóðbrot stórþjóðanna. Þannig leggja þeir hið mikla meginland undir sig frá hafi til hafs, að segja má, því við frumbýlisþrautir hafa þeir barist sigurvegandi hendi, hvar sem þeir hafa verið búsettir. Hvorir voru meiri *hetjur* forfeðurnir norrænu, eða niðjar þeirra, vestur-íslenzku landnámsmennirnir?

## III.

Ein af bygðum vorum var nefnd Nýja Ísland, eða Ný-Ísland. Allar íslenzkar bygðir hefði mátt nefna því nafni, því í upphafi voru þær allar Ísland í nýrri mynd. Heimilislíf og hugsunarháttur bygðarbúa eins íslenzkt og gat verið. Heimilissiðir allir íslenzkir. Til dæmis, mun það hafa átt sér stað í eigi svo fáum bjálkakofum, að sögur væri lesnar upphátt og rímur kveðnar á hinum löngu vetrarkvöldum. Hver bygð átti völ á mörgum góðum "lesurum" og kvæðamönnum.

Svo íslenzkir gerast þá þeir staðir, er áður voru óbygð, að oft voru huldufólkssögur og draugasögur sagðar þeim ungu í kvöldrökkrinu. Þeir ungu, sem fæddir voru hérna megin hafsins, fengu þar að kynnast "Þorgeirsbola" og "Skottum," og boli sá dró húðina enn þá á eftir sér og Skotturnar voru all-ófrýnar! Engir ættu því að verða hissa, þó margir af þeim yngri væri myrkfælnir í

æsku—og þar með sá, er þetta ritar.

Alt hefir þetta breytingum tekið og bygðir Íslendinga eigi lengur eins íslenzkar. Nú er ekki bygt á þeim grunnum, sem frumherjarnir reistu og hugðu að ættu að standa. Frumbýlingum var það ófyrirsjáanlegt, að á rúmri hálfri öld myndi alt breytast, enskan koma í stað íslenzkunnar og enskir lifnaðarhættir í stað hinna íslenzku. Að þeir kusu eigi að byggja að eins til einnar nætur, það sýnir sagan, þó óritið sé að mestu.

Hjá fyrri Ný-Íslendingum mun það hafa verið efst í huga, að stofna nýtt Ísland og alfrjálst. Og alt bendir til að þar hafi þeir verið framhuga og vel vakandi. Stórhuga og eigi smátækir voru þeir, er þeir kröfðust þess af stjórninni að haga *landmælingum* eftir þeirra höfði! Satt mun það og vera að þeir höfðu sitt fram, að landmælingum var hagað samkvæmt tilmælum þeirra, a. m. k. meðfram Íslendingafljótinu.

Stefna frumherja Ný-Íslands mun hafa verið: Ein íslenzk bygð þar sem Íslendingar búa, alfrjálsir og einráðir, að sið forfeðranna. Svo sann-íslenzkar og göfugar voru hugsjónir landnámsmanna Eigi er þeim um að kenna að önnur varð rás örlaganna. Hve dásamlegt hefði alt orðið, ef þeir draumar landnámsmanna hefðu náð að rætast. Vestur-Íslendingar allir búsettir í einni "bygð." Íbúatala 40,000! Hve auðveldari hefðu þá öll samtök orðið, og "foldin fegri framundan."

Til lítils er að tala um það. Andspænis stöndum vér því raunverulega, sem eigi verður hnekt. Vér Vestur-Íslendingar erum að smáhverfa úr sögunni sem *Íslendingar.* Íslenzkar "bygðir" munu með tíð og tíma líða undir lok og að eins stöku staðanöfn halda áfram að vera íslenzk. Blóðblöndun og stefna í heildarátt mun að lokum sameina þjóðflokka þá, er landið byggja. Við þeim örlögum fær enginn máttur spornað.

Úr því svo er komið er eigi um annað að gera, en að leita áfram, selja lífið eins dýru verði og unt er — eins og Indíána karlinn gamli, sem á undan er frá sagt. Eins og bent hefir verið á, þá megum vér ekki fremja sjálfsmorð, þó vér vitum að dauðinn verði á endanum vort hlutskifti.

Eg hefi dvalið í síðastliðin ellefu ár í Minnesotaríki. Ríki það er norrænast allra Bandaríkja, enda stór meirihluti íbúanna af norrænu bergi brotinn. Eg átti kost á að athuga við nána viðkynningu aðgerðir frændþjóðanna í þjóðernisþágu.

Norðmenn og Svíar komu til álfu þessarar sem innflytjendur löngu á undan Íslendingum. Á meðan eg dvaldi í Minnesotaríki, héldu Norðmenn hátíðlegt 100 ára afmæli sem íbúar landsins. Var hátíð sú fjölmenn mjög og yfir það heila tekið Norðmönnum til vegsauka. Einn daginn sóttu hátíð þessa um 90,000 manns og var það all-álitlegur hópur.

Víðar er pottur brotinn en hjá Íslendingum og eigi hefir þjóðernisstarf frænda vorra í Minnesotaríki borið þann árangur, sem þeir hefðu helzt kosið. Móðurmál þeirra eru óðum að hverfa af vör-

um hinna yngri. Furðuvel hefir frændum vorum þó tekist að viðhalda málum sínum, þegar miðað er við hve lengi þeir hafa dvalið hérlendis, og sem þakka má áhuga þeirra og atorku á þessum sviðum.

Eitt vil eg sérstaklega athuga í sambandi við viðreisnarstörf frænda vorra. Þeir hafa aldrei hopað eða gefist upp þó á gæfi bátinn. Þegar þeir sáu að móðurmál þeirra dugðu eigi lengur, að þeir ungu voru hættir að hafa þeirra full not, þá gripu þeir eindregið til landsmálsins, enskunnar. Og eigi hafa þeir staðar numið við orðin tóm, heldur útgefið á ensku kynstur af blöðum, bókum og bæklingum — alt fjallandi um heimalönd þeirra, þjóðarsögu og siðvenjur. Og grunur minn er og sannfæring, að þannig fái frændur vorir, Norðmenn og Svíar, viðhaldið lengi sínum þjóðlegu og norrænu sérkennum í Minnesotaríki. Einu sinni heyrði eg einn Norðmann segja við samlanda sinn: "Við verðum æfinlega *norskir*, þó við tölum ensku!"

Höfum vér Vestur-Íslendingar stigið nokkur spor til þess að byggja það á bjargi: Að vér verðum *æfinlega íslenzkir, þó vér tölum ensku?*



# Haunts of Greed

*Eftir Dr. G. J. Gislason*

In crowded haunts of Greed,
They worship a God of gold,
The sunbeams are sheared of light
And the flowers no fragrance hold.

In crowded haunts of Greed,
No wonder 'tis cheerless, grey,
Amongst the phantoms of men,
Who bartered their lives away.

# Mannskaðaveður

Eftir *Jón J. Bíldfell.*

Þau eru mörg mannskaðaveðrin, sem yfir Ísland hafa gengið, og ef saga þeirra allra væri sögð, þá yrði það svo stórkostleg harmsaga, að aðra jafn skerandi mundi vart að finna neinstaðar annarsstaðar hjá jafnstórum hópi fólks. Ísland er svipvindanna land, og veldur því hnattstaða þess og fjalllendi. En það eru ekki svipvindar dalanna né heldur blindhríðar heiðanna, sem mestu manntjóni hefir valdið, þó þeir og þær eigi einnig sínar sorgarsögur, heldur sjórinn, þessi banvættur og bjargvættur Íslendinga í aldaraðir.

Það er víst engin ábyggileg skýrsla eða skrá til um það, hversu marga af sonum þjóðarinnar sjórinn hefir svift lífi, eða harm þann, er sjórinn við strendur Íslands, hefir kveðið að þjóðinni í heild, eða einstaklingum hennar; en þau tilfelli eru áreiðanlega mörg og harmurinn ósegjanlega mikill. En þrátt fyrir hættuna, sem sjóferðum og sjósóknum Íslendinga hefir verið samfara, kvíða þann, sem sjóferðirnar vöktu í brjóstum ástvina og vina við hverja burtför þeirra, og harm er þeir komu ekki aftur, hefir hugrekki Íslendinga aldrei þverrað í viðureign þeirra og sókn út á hið ægilega haf. Þörfin hefir alt af verið brýn, og þrótturinn og hugrekkið virðist hafa vaxið við hverja svaðilför og hættu.

Þótt þessi kafli úr starfslífi Íslendinga sé söguríkur og að sjálfsögðu sá þróttmesti, þá var það ekki meining mín, að takast á hendur að rekja hann, heldur að minnast eins atriðis úr honum— eins eftirminnanlegs viðburðar— þegar sorgin nísti hjörtu svo margra kunningja og vina í sýslunni, sem eg var fæddur og alinn upp í — Árnessýslu.

Veiðistöðvar austanfjalls, sem kallað var, voru aðallega fjórar: Eyrarbakki, Þorlákshöfn, Selvogur og Krýsuvík, en af þessum fjórum var Þorlákshöfn mannflest á tímabili því, sem hér um ræðir, því það gengu þá þaðan á milli þrjátíu og fjörutíu róðrarskip og voru þau langflest tólfær, með fimtán hásetum á hverju, sem gerði mannfjöldann þar, sem sjóinn sótti hátt á sjötta hundrað og flest af því úrvals fólk.

Þessar veiðistöðvar austanfjalls voru allar erfiðar og hættulegar, því hafnir voru hvergi góðar og sízt á Eyrarbakka og í Þorlákshöfn, því þær veiðistöðvar báðar liggja fyrir opnu hafi og því lítið skjól þar fyrir ofveðrum og brimi, sem hvorutveggja er títt. Á Eyrarbakka er lending afar hættuleg, þegar eitthvað er að veðri, og kom oft fyrir í minni tíð, að hún var þar ókleif. Var þá eina lífsvonin, að hleypa út í Þorlákshöfn og þá mjög hæpið að lendingarfært væri þar sökum brims og ósjóa. Séð hefi eg skip liggja úti fyrir lendingu í Þorlákshöfn, þegar ekki var sjáanlegt að nokkurt tiltæki væri með að lenda, en mennirnir lögðu í brimgarðinn upp á líf og dauða.

Eg sá öðru skipinu, sem var úti fyrir, hvolfa í brimgarðinum, og hefði flestir mennirnir, sem á því voru, farist þá við landsteinana, ef mannsöfnuður af efldum og áræðnum sjómönnum hefði ekki verið í landi til móttöku.

Það var aldrei farið svo á sjó, í þessum austanfjalls veiðistöðvum, að menn gætu ekki átt von á, að mæta slíkum erfiðleikum og að karlmenska sjómannanna yrði reynd til þrautar, áður en dagur væri að kveldi kominn; en þrátt fyrir það fyltust verin af úrvalsliði nærsveitanna í byrjun hverrar einustu vertíðar, sem í þeim veiðistöðvum hófst í fyrstu og annari viku Þorra.

Árið 1883, eins og endrarnær, var fullskipað í verinu í Þorlákshöfn—hátt á sjötta hundrað manns, eins og að framan er sagt. Var það frítt lið til hvers sem það gekk, hvort heldur til leika á túninu í Þorlákshöfn, eða í viðskiftum sínum við Ægi, sem oft reyndi á karlmenskuna. En hvort heldur var um að ræða, sókn á sjóinn eða að þreyta bændaglímu í landi, voru það tveir menn, sem hvað mest bar á. Annar þeirra hét Þorkell Þorkelsson frá Óseyrarnesi í Flóa, en hinn Ólafur Jóhannesson frá Dísastöðum í sama hreppi. Þeir voru báðir sjógarpar miklir. Báðir voru þeir miklir að vallarsýn og víkingar að hverju, sem þeir gengu. Fríðir voru þeir sýnum og gleðimenn báðir, þó einkum Ólafur, því hann var söngmaður ágætur.

Ólafur var nokkuð eldri maður en Þorkell og því reyndari, en það sem Þorkel skorti á aldurinn, bætti karlmenskan og ofurhuginn upp.

Þessir menn voru sjálfkjörnir foringjar í veiðistöðinni. Þeir voru nálega undantekningarlaust fyrstir allra á veiðimiðin fram á sjó, og flestir aðrir formenn hikuðu við, ekki sízt ef veður var ískyggilegt, þar til að þeir sáu hvað þeir Ólafur og Þorkell gerðu. Sökum þess, að þessir tveir menn fiskuðu allra manna bezt, valdist til þeirra einvalalið, þó einkum til Ólafs, sem óhætt er að segja um, að bezt mannval hafi haft á skipi sínu, allra þeirra skipa, er sjó sóttu í Þorlákshöfn, líklega fyr og síðar.

Það var komið langt fram á vertíð, er sá hrygðaratburður gerðist, er nú skal greina:

28. marz, eða miðvikudagurinn fyrir páska, var mildur dagur á Suðurlandi. Loftið var þungbúið þegar að morgni, og tók að drífa niður snjó í logni, þegar á leið morguninn, og hélzt sú snjókoma til kvelds. Var þá komin þykk snjóbreiða af lausasnjó yfir alt. Róið var þenna dag í Þorlákshöfn, en fiskur lítill.

Næsta dag, þann 29., voru formenn snemma á fótum í Þorlákshöfn, eins og endrarnær, því það var þeirra að segja til hvort róa skyldi eða ekki. Ef veður þótti sjófært var matast í skyndi. Formaðurnn tók ofan sjóklæði sín, sem héngu við rúm hans, og mælti: "Sjóklæðumst í Jesú nafni."

Veðrið þenna morgun var þungbúið og því ómögulegt að sjá til lofts eða fjalla eða greina skýjafar né heldur nein veðurmerki, sem formenn margir voru þó allra manna glöggvastir á. Veðrið var kuldalaust og nálega logn. Það var einn af þessum dögum, sem ó-

mögulegt var að átta sig á, hvernig ráðast mundi. Veðrið gat haldist óbreytt allan daginn. Skýin gátu líka opnast og steypt sér yfir sjó, land og lýð með miskunnarlausri vetrargrimd. Ekki gaf sjórinn heldur nein merki, eins og hann þó stundum gerir, þegar himininn býr yfir einhverjum hamförum. Hann lá kyrlátlega, það sem af honum sást, reisti sig reyndar í breiðar bylgjur, sem rendu sér með hægð upp að ströndinni. Það var ekkert sérstakt að óttast þenna morgunn; það hafði oft verið róið í engu betra útliti, og því þá ekki eins nú? Og sú varð niðurstaðan, að skipin réru hvert á fætur öðru. Flest út í Leirinn, sem kallaður var, tiltölulega stutt frá lendingunni. Þangað fóru skipin öll, nema skip Ólafs Jóhannessonar, sem sigldi með konungsþori vestur með bergi og alllangt áleiðis til Selvogs, þar sem hann komst í gnægð fiskjar. Hlóð hann skip sitt og hélt svo með aflann í land. Skildi hann þar eftir tvo af skipverjum sínum, þá Jón Ingvarsson frá Vindheimum í Ölvesi og Þórarinn Arnbjarnarson frá Selfossi í Flóa (bróður Magnúsar Arnbjarnarsonar lögfræðings) sem það ár var á skipi Ólafs sem hálfdrættingur, til þess að bera fiskinn upp, sem kallað var, en það var að bera veiðina úr flæðarmálinu og upp á reitinn þar sem henni var skift. En Ólafur, eftir að hafa affermt skip sitt, hélt tafarlaust út á fiskimiðið aftur, þar sem hann hafði áður verið um morguninn. En þegar Þorkell sá hann fara vestur, setti hann upp segl og hélt á eftir honum, því hann þóttist viss um, eins og líka var, að Ólafur hefði komist í fisk. Þeir, sem í Leirnum voru sátu kyrrir og enginn þeirra sá sér fært að halda vestur á eftir þeim, sökum veðurútlitsins, enda var það lán, því flestir þeirra hefðu óhjákvæmilega gist Hel, ef þeir hefðu í það ráðist. En í stað þess, og sökum þess, hve fiskur var tregur, fóru þeir hver á eftir öðrum að hafa sig til lands. En áður en þeir síðustu náðu landi, skall á eitt hið mesta ofsaveður, sem menn mundu eftir á þeim slóðum. Rokið varð svo mikið á svipstundu að efldum karlmönnum var naumast stætt; með því fylgdi bylur svo myrkur að naumast sáust handaskil. Það var komið reglulegt manndrápsveður á svipstundu, með vaxandi kulda og frosti.

Allir voru lentir, eftir hina grimmustu viðureign við Ægi — allir nema Ólafur og Þorkell. Þeir voru enn einhversstaðar úti á sjónum, í bylnum, kuldanum og rokinu, að berjast við ofurefli, sem engum menskum manni var unt að etja við.

Í sjóbúðum vermanna og í bænum Þorlákshöfn voru allir hryggir og hljóðir þetta kveld. Menn þóttust vita, að hvorki Ólafur né Þorkell mundu landi ná, né heldur nokkrir af þeirra mönnum. Talað var um að fara fram á ströndina og reyna að kveikja bál og kalla, þeim til leiðbeiningar. Þó varð ekkert úr því, því bæði var veðrið ófært og svo myndu þær tilraunir þýðingarlausar í þvílíku afspyrnu veðri, þó hægt væri að koma þeim í framkvæmd.

Nú væri saga mín á enda, ef að

óvænt atvik, eða óvænt líkn, hefði ekki komið annari þessari skipshöfn til bjargar, því það er eins og íslenzki málshátturinn hermir: "Það verður ekki feigum forðað, né ófeigum í hel komið."

Ofveðri þessu hélt áfram uppihaldslaust allan seinnipart fimtudagsins, þann 29. og fram á nótt, en um morguninn 30. var því slotað. Snemma þann morgun voru menn sendir úr Þorlákshöfn út í Selvog, til þess að vita hvort þeirra Ólafs og Þorkels hefði orðið vart þar, því það var eini hugsanlegi staðurinn, sem þeir hefðu getað náð til, en því miður hafði enginn þar orðið þeirra var, og var þá öll von manna úti um að þeir hefðu náð landi.

Fréttin um mannskaða þenna hinn mikla barst nú út um nærliggjandi sveitir, og sorgin, þung eins og blý, lagðist yfir nálega hvert heimili á Suðurlandsundirlendinu, því þau hafa víst verið fá heimilin þar, sem ekki áttu á bak að sjá ástvinum, frændum eða kunningjum við þetta ægilega aðfall. Þannig liðu um þrjár vikur, að ekkert fréttist meira um þetta slys, en þá fréttist úr flöskubréfi, sem rak upp á Skúmstaðasand, að Þorkell og allir hans menn væru á lífi í Vestmannaeyjum og að þeir hefðu komist í franska fiskiskútu, er hefði flutt þá til Eyjanna. Svo komu þeir allir heilir á húfi til Þorlákshafnar eftir nokkurn tíma, og óþarft að taka fram hversu fegnir að menn urðu komu þeirra. Eftir að mennirnir voru búnir að jafna sig, fóru þeir, sem fyrir voru að forvitnast um hvað á daga þeirra hefði drifið, en þeir voru frekar fámálugir um það, og þeir, sem til voru með að segja frá sýndist oft sitt hverjum, svo frekar erfitt var að átta sig á heildaryfirliti. En þó var aðalþráðurinn þessi: Þegar veðrið skall á, sátu Þorkell og menn hans við góðan fisk vestur með bergi, á sama stað og Ólafur hafði hlaðið um morguninn. Ólafur var hlaðinn í annað sinn og nýlagður á stað í land. Skip Þorkels var líka nálega hlaðið, og þegar ofveðrið skall á, sem varð á svipstundu, gripu menn til ára, og vildu leita í áttina til lands, en þá varð ekki við neitt ráðið sökum afspyrnunnar, sem komin var á augabragði á. Veðrið var beint á móti þeim, svo hart að þeir gátu ekki einu sinni haldið við, hvað þá heldur unnið nokkuð á, og svo bættist myrkviðrið við, svo mikið, að naumast sáust handaskil. Það var því engin von um að ná landi. Voru því allar bjargir bannaðar, nema að láta reka undan vindi og veðri til hafs og er ekki hægt að segja, að það hafi verið sem álitlegast. Fiskinum, mestum, var rutt úr skipinu og því haldið í sem beztu horfi. Þorkell sjálfur sat við stýrið og stýrði undan sjónum sem bezt, en skipverjar stóðu í austri því bæði var særok og ágjöf. Hvað lengi að Þorkell hélt þannig áfram, veit eg ekki og líklega enginn maður. En alt í einu hafði hann slept stýrissveifinni sprottið upp úr sæti sínu og farið náfölur fram í skipið. Var hann spurður að hvort hann væri veikur, en hann kvað nei við því, en sagðist hafa séð Ólaf og skipverja hans við borðstokkinn hjá sér. Þegar Þorkell slepti stýrissveifinni, vildi svo

vel til að við hendina var vanur formaður og ágætis sjómaður, Símon Jónsson frá Foki á Eyrarbakka og tók hann við stjórninni og sýndi bæði frábært hugrekki og lipurð undir kringumstæðunum, sem heiglum var ekki hent að etja við. Fyrst ætluðu þeir sér að reyna að ná landi í Selvogi, og beittu því skipinu undir nokkru af seglum í þá átt, en brátt var þeim ljóst að það var með öllu ókleift, og létu þá reka viðstöðulaust til hafs.

Um daginn sleit veðrið sjóhattana af sumum hásetunum; einn þeirra festist á krókstjaka, sem stóð upp úr framstafni skipsins, og varð það þeim til lífs, því undir kveld kom kafteinn á franskri fiskiskútu auga á hattinn og hélt að það væri fugl, sem væri að hrekjast í ofviðrinu. Síðan sá hann skipið og skipverjar skútuna, sem varð íslenzku skipverjunum til bjargar. Við mikla erfiðleika tókst honum að bjarga þeim, hjúkraði þeim hið bezta og flutti þá, eins og sagt hefir verið, til Vestmannaeyja.

Skip Þorkels festu Frakkar aftan í skip sitt, en það slitnaði aftan úr og rak óskaddað upp á Reykjanesi síðar.

Þegar skipshöfn Þorkels var bjargað var hún komin 11 sjómílur undan landi.

Fyrir nokkrum árum kom út lýsing á þessum hrakningi Þorkels og manna hans, eftir Símon Jónsson, þann er við stjórninni tók af Þorkeli og er þar sagt að hásetar Þorkels hafi flestir verið óharðnaðir unglingar. Það er í fyrsta sinni sem eg hefi heyrt eða séð það. Þorkell var ávalt vel mentur, þó það hafi verið á allra vitorði, að hjá honum hafi ekki verið á að skipa öðru eins mannvali og hjá Ólafi. Hitt er víst rétt athugað, að Þorkell var ungur að aldri, og hafði ekki enn hlotið þá reynslu við sjómensku, sem sumir þeirra, er lengur höfðu sjóinn stundað, höfðu öðlast. En karlmenni og fullhugi var Þorkell og ólíklegt mjög, að hann hafi látið af stjórn skipsins af því, að erfiðleikarnir hafi yfirbugað hann eða ótti beygt hann.

Til Ólafs hefir aldrei spurst. Sjórinn við strendur Íslands geymir hann og alt hans mannval — utan eins háseta hans, Bjarna Steinssonar frá Hróarsholti í Flóa, sem rak upp á Víkursandi í Selvogi. Einhvern fleka af skipi rak líka, sem menn héldu að væri af skipi Ólafs, sem hét "Svanur" og var eign Jóns bónda Árnasonar í Þorlákshöfn.

Með Ólafi Jóhannessyni frá Dísastöðum fórust þessir menn að því er eg bezt veit:

Guðmundur Jónsson frá Snæfoksstöðum í Grímsnesi; Halldór Jónsson frá Kirkjuferju í Ölvesi. Bergur Guðmundsson frá Strýtu í Ölvesi; Björn Jónsson frá Bakkarholtsparti í Ölvesi; Andrés Jónsson frá Völlum í Ölvesi; Helgi Magnússon frá Laugarbökkum í Ölvesi; Helgi Héronýmusson frá Smádalakoti í Flóa; Bjarni Steindórsson frá Hróarsholti í Flóa; Jón Sæmundsson frá Auðsholti í Ölvesi; Jón Jónsson frá Hæringsholti í Flóa; Þórður Jónsson frá Reynifelli í Rangárvallasýslu; Guðmundur Jónsson frá Árbæ í Ölvesi; Gissur Kristjánsson frá Mosastöðum í Kaldaðarneshverfi í Flóa.

# Á GIFTINGARDEGI

snikkara

# FRIÐFINNS KJÆRNESTED

og

jómfrú

# RANNVEIGAR MAGNÚSDÓTTIR

Þann 16. maí 1857



[Brúðkaupskvæði orkt og flutt af meistara Eiríki Magnússyni (þá stúdent, seinna bókaverði í Cambridge) á Ísafirði fyrir hartnær 78 árum, eftir afskrift frá syni brúðhjónanna, Jóni Kernested á Winnipeg Beach. Handritið er í arkarbroti og prýðisvel skrifað, víst Eiríks eigin hönd. Sungu þeir kvæðið í veizlunni Eiríkur og Ásgeir Ásgeirsson, seinna stórkaupmaður í Kaupmannahöfn. Friðfinnur Kærnested var snikkarameistari, ættaður af Eyjafirði, lærði fyrst hjá hinum þjóðkunna öldungi Þorsteini á Skipalóni, sigldi með honum til Kaupmannahafnar og varð þar fullnuma smiður. Rannveig Magnúsdóttir var ættuð úr Þjóðólfstungu í Bolungarvík við Ísafjarðardjúp, mesta rausnarheimili og óðalseign.].



Ást, ó ást! sem alheims geiminn styður.
Ást! þú bindur mannahjörtu í eitt.
Ásta faðir! að oss líttu niður,
án þín megnar enginn kraftur neitt.
Láttu blessan búa á voru láði;
blessan þín er lífsins æðsta mynd;
blessun veittu brúðhjónanna ráði,
svo brosi við þeim eilíf gleði lind.

Yður, brúðhjón! óskum vér af hjarta
alls kyns sælu í lífsins stundar heim,
yður skíni sælusólin bjarta,
er sveipar gleði drottins mikla geim!
aldrei hatrið yðar særi sinni!
sorgin aldrei veki tár á hvarm!
Ástríðan ei aftri skynseminni;
ávalt styðjist þið við drottins arm.

Hvað er svo blítt, sem bros á meyjar vörum?
hvað er svo bjart, sem ástar augu skær?
hvað er svo glatt, sem brúður blíð í svörum?
hún borið lífsins byrði þunga fær.
Því er það sælt, með góðu að líta geði
á glampaskot frá röðli unaðs hám,
er ánægjan og yndið er í veði
af ofviðrinu á lífsins straumi blám.

Yður, brúðir! alt að heillum gangi;
yður, brúðir! falli lífið létt.
Þér, brúðgumi! farsæld alla fangið!
frægð og heiður vinnið yðar stétt!
Drekkum, vinir vín í tærum legi
vonarskál og óskum heilla með
þeim, sem réðu hag sinn réttum vegi,
Rannveigu' og Friðfinni Kjærnested.

*E. M.*

# Eitt orð úr máli mannshjartans

Saga eftir *Jakob Jónsson* frá Hrauni.

Séra Karl í Styrmishöfn lét hempuna sína á herðatréð og hengdi hana upp í ganginum, opnaði skrifstofudyrnar og gekk inn. Hann settist í stólinn við skrifborðið, en kveikti ekki á lampanum, heldur horfði út í rökkrið, eins og þegar menn horfa inn í horfna tíð, á löngu liðna atburði í fjarska. Í meir en þrjátíu ár hafði hann verið prestur í Styrmishöfn. Þessi undarlegi fjörður, dálítið órólegt afsprengi úthafsins, hafði sýnt honum mikilfenglegri atburði en nokkur sjónleikur hefði getað gert. En hér var leikurinn lífið sjálft, ofið í það gerfi, sem baráttan við hafið og heimsmarkaðinn hafði myndað og mótað. Séra Karl var nú orðinn gamall maður með hvítt hár, ofurlítið lotinn í herðum, en þreklegur og stæltur, veðurbarinn í andliti og hendurnar báru þess vott, að þær höfðu einhverntíma snert á erfiðum verkum.

Rökkrið varð þéttara og þéttara og presturinn sat grafkyr og horfði. Konan hans kom inn í herbergið, lagði hurðina hljóðlega að stöfum og gekk til hans. Það var undarlegur, sár hreimur í rödd hennar, þegar hún spurði:

"Var nokkuð fólk við jarðarförina í dag?"

Hann svaraði engu, en rétti henni hendina og hún settist í sætið við borðsendann; það hafði verið hennar sæti í meira en þrjátíu ár, ekki sízt, ef eitthvað undarlegt hafði sezt að honum og hann gat ekki verið einn. Hún hélt um hönd hans, hlýlega og stilt. Hver vissi, hvaða stormar voru að geysa í huga mannsins hennar?

Það er orðið niða-myrkur í skrifstofu prestsins, en hann sér það ekki. Enda skiftir það engu. Séra Karl þarf ekki ljós. Hann sér án þess. Hann sér stofuna sína eins og hún var fyrir mörgum árum á haustkvöldi, sem honum gleymist seint. Ræðan hans var að verða búin og hann fann, að hann hlakkaði til að flytja hana næsta sunnudag fyrir fullri kirkju. Þá opnast dyrnar og konan hans kemur til hans, hallar sér fram á öxl hans og spyr: "Má eg trufla þig dálitla stund?"

"Þú ert búin að trufla mig," svarar hann, "svo að það kemur ekki málinu við héðan af, hvort þú mátt eða mátt ekki."

"Eg þarf að tala við þig leyndarmál," segir hún, og hann veit ekki fyrir víst, hvort hann á að taka það sem alvöru eða gaman. Augu hennar eru full af glaðværð, en hún er ákveðin í fasi, og hann finnur, að hún hefir ekki komið alveg tilgangslaust.

"Jæja," segir hann glaðlega, "leystu frá skjóðunni, frú mín góð; eg skal hlusta."

"Það er stúlka frammi, sem þarf að biðja þig bónar, en hún kemur sér ekki að því. Hún er feimin við þig."

"Og þess vegna hefir hún snúið sér til þín. Hvað á eg að gera fyrir hana?" spyr séra Karl.

Þá hlær konan hans að honum og segir, að hann sé að reyna að vera embættismannslegur í röddinni. Hann snýr sér við og tekur hana á kné sér. Hún strýkur nokkrum sinnum yfir enni hans og lagar hárið á honum. Í einu vetfangi er hún orðin alvarleg, svo einkennilega alvarleg, að hann finnur, að engin gletni á lengur við. Mannleg forvitni, sem hann skammast sín fyrir í laumi, smeygir sér inn í hug hans, en hann einsetur sér að bíða rólegur, þangað til erindið komi.

Loks byrjar konan hans á erindinu og spyr, hvort hann þekki Stínu Sveinsdóttur á Grund? Hvort hann viti, að hún sé trúlofuð? Hvort hann viti, að hún sé trúlofuð honum Óla, piltinum, sem fór suður í latínuskólann um daginn? Hann er víst ósköp fátækur, hann Óli og á erfitt með húsaleiguna; hún er upp-sprengd í Reykjavík, eins og allir vita. En Stína hefir unnið fyrir kaupi og þó að hún þurfi að eyða einhverju handa sjálfri sér, langar hana til að senda honum Óla fáeinar krónur—og fáeinar krónur fékk hún hjá ömmu sinni. Og þó að hann muni ekki nein ósköp um þetta, þá ætti það að geta hjálpað honum dálítið. Stína vill, að hann haldi áfram að læra.

Alt þetta skýrir frúin með svo mikilli nákvæmni, að það er eins og hún haldi, að maðurinn hennar eigi erfitt með að skilja ganginn í því. Og þó var þetta svo fjarskalega blátt áfram. Nú þurfti Stína að koma peningunum suður, en þorði ekki að láta þá sjálf í póstinn og af því að hún þekti prestsfrúna frá gamalli tíð, sneri hún sér helst til hennar.

"Gerðu þetta þá fyrir aumingja stúlkuna," segir séra Karl afdráttarlaust.

"Nei, það er mér lífsins ómögulegt. Hvað heldurðu að gamli Grímur á pósthúsinu segi, ef eg kem bagsandi með peningabréf til Óla Runólfssonar? Það yrði komið út um alla Styrmishöfn daginn eftir og heldurðu að það þætti ekkert merkilegt við slíkt. Það er alt öðru máli að gegna með þig. Þú ert alt af að senda bréf og peninga í allar áttir og ef Grímur gamli tekur nokkuð eftir því, þá heldur hann bara að þú sért að lána honum Óla þessa peninga eða borga honum vinnu eða eitthvað og eitthvað. En það verður að vera leyndarmál. Það má enginn vita það, ekki nokkur lifandi maður."

Frúin þagnaði og leit framan í manninn sinn, sem var orðinn einkennilega alvarlegur á svipinn. Það lá við að hann hnyklaði brýrnar, en hann sagði ekki neitt dálitla stund. Þegar hann horfði svona hikaði hún alt af við að yrða á hann, og henni kom í hug sagan um konuna, sem sá litla drenginn sinn klifra framan í hömrunum við sjóinn. Hún vissi ekki hvort hún var að gera gott eða ilt með því að yrða á hann, og þess vegna þagði hún. Hana langaði til að biðja hann að horfa ekki svona, því að hann, sem alt af væri svo góður, ætti ekki að hugsa neitt ljótt. En presturinn hélt áfram að þegja og horfa; hugsanir hans voru á ringulreið, eins og hjá manni, sem finnur eitthvað ljótt vera að nálgast sig í myrkri. Hann

gat notað þessi venjulegu orð um ranglæti í heiminum, um fátæklinga, sem ekki gætu komist áfram fyrir skorti; um hneysu fyrir þjóðfélagið, en hann gerði það ekki, því að hann fann, að þau svöruðu ekki að öllu leyti til þess, sem hann hugsaði. En tilfinning hans sagði honum, að hér væri ekki alt með feldu.

"Karl, horfðu ekki svona. Eg verð hrædd við þig," sagði konan hans. En presturinn svaraði ekki með neinni byltingaræðu. Hann leit upp aftur og lét höfuðið hníga að barmi konunnar sinnar.

"Hvernig getur þetta komið þér í geðshræringu?" spurði hún og horfði beint framan í hann með þessu djúpa, máttuga, en þó barnslega tilliti, sem gerði hana alt af svo einkennilega móðurlega í augum hans. Hann undraðist það stundum, presturinn, að það var eins og konunni hans fyndust allar brautir beinar, þar sem hann hafði ekki hugmynd um, hvert halda skyldi.

"Finst þér þetta ekki fallega gert af Stínu að reyna að hjálpa kærastanum sínum áfram, eftir því sem í hennar valdi stendur?"

Hann gat ekki annað en játað, eindregið og afdráttarlaust. Svo kom Stína inn rétt á eftir. Þá var presturinn búinn að ná sér; hann óskaði henni glaðlega til hamingju með trúlofunina og sagði, að henni væri alveg óhætt að leita til sín; hann lét peningana hennar innan í umslag og án þess að mikið bæri á, bætti hann við einhverju, sem konan hans stakk í lófa hans. Stína sat á legubekknum, hamingjusöm og feimin, hún horfði ekki framan í prestinn, meðan hann talaði við hana, en þegar hann byrgði sig niður til að skrifa utan á umslagið, fann hann að hún horfði á hann stórum, skærum og einlægum augum, sem störðu inn í huga hans, án þess þó að finna nokkurn skapaðan hlut, eins og þegar menn horfa út í heiðan sjóndeildarhringinn. Hún Stína virtist ekki hafa tilkomumikið andlit; það var fölt og frekar þreytulegt, en svipurinn um munninn, þegar hún talaði, gaf til kynna, að það, sem einu sinni hefði sigrað í sál þessarar ungu stúlku, yrði ekki þokað burtu í einu vetfangi. Hún hugsaði beint og brotalaust og það leit út fyrir, að hún segði og framkvæmdi baráttulaust það, sem hún hugsaði. Presturinn virti hana fyrir sér, þegar hún stóð upp og vafði að sér brúnni, gamalli kápu með þvældum kraga; hún kvaddi með feginleik í röddinni, en talaði lágt, eins og hún óttaðist að leyndarmál hennar síaðist út um veggina og út í þorpið, sem sogar í sig eins og svampur alt, sem drýpur úr huga mannanna.

Stína brosti rólegu brosi um leið og hún lokaði dyrunum á eftir sér.—

Séra Karl sat í myrkrinu og hélt í hendina á konunni sinni. Hugir þeirra töluðust við í þögn rökkursins, en ekkert orð var sagt upphátt.

Presturinn handlék ósjálfrátt pennaskaftið, sem lá fyrir framan hann á borðinu. Hann hafði skrifað utan á mörg bréf hr. stud. art. Ólafur Runólfsson, Latínuskólanum Reykjavík. Innan í þeim voru peningar, sem látnir höfðu verið í

umslagið af höndum ungrar stúlku, rauðum og þrútnum af vinnunni í fiskiskúrunum. Dag eftir dag og viku eftir viku stóð hún í slorinu, glöð og fagnandi, þreytt og úrvinda, með mynd unga mannsins grópaða í sál sína. Innan um mótorskellina, argið og gargið, hlátur og ærsl, heyrði hún söngva dagdrauma sinna.

Svo kom hún einn dag, niðurbeygð, hnuggin og særð. Konan hans hafði tekið hana heim til þess að gefa henni að borða og láta hana sofa. Þá sat hún á legubekknum og grét, hljótt, stilt og rótt, eins og þegar nóttin er að koma. Prestinum fanst, þegar hann horfði á þessa undarlegu stúlku í brúnni, gamalli kápu og með þvældan kraga, eins og Stína Sveinsdóttir frá Grund væri að hverfa langt, langt í burtu, út fyrir eilífðina sjálfa, þangað sem enginn hugur hugsaði. Hann horfði á eftir henni og bað þess, að hún týndist ekki. Loks hrökk hann við, er hann heyrði sjálfan sig leggja fram þessa meiningarlausu spurningu:

"Stína mín; viltu ekki að eg skrifi honum Óla?"

"Nei."

"Getur ekki skeð, að þetta sé gert í fljótræði. Eða að það séu missagnir og jafnvel uppspuni. Þú veizt, að það þarf ekki mikið til að mynda svona sögur."

Þá stóð hún upp, hún Stína og gekk rakleitt að skrifborðinu til prestsins. Varirnar voru samanbitnar, harðar, kaldar eins og miskunnarlaus klettur út við sjó. Hann horfði á fölt andlitið, grátbólgin augun, djúp eins og dimman berghelli, augabrýrnar sléttar og strengdar. Þarna stóð hún fyrir framan hann, eins og sá, sem valdið hafði og röddin var ákveðin og örugg, þegar hún tók til máls, eins og hjá yfirmanni:

"Séra Karl!"

"Já," svaraði hann, eins og hann vissi ekki, hvað hann ætti eiginlega að segja.

"Hefði þetta skeð, ef Óli hefði aldrei farið til Reykjavíkur?" spurði stúlkan.

"Nei, auðvitað ekki," sagði séra Karl hiklaust.

"Hver var það, sem hvatti hann til að fara og studdi að því, að hann gæti það?"

Presturinn vildi komast hjá að svara. Það var líklega einhver gömul tilfinning frá liðnum skólaárum, sem gerði það ónotalegt fyrir hann að láta unga og umkomulausa stelpu standa yfir sér og spyrja sig út úr. En það var bezt að fara varlega, þegar frumstæðar tilfinningar mannlegrar veru voru annars vegar.

"Hver var það?" spurði stúlkan aftur.

"Það — það varst þú."

"Var það þá ekki mér að kenna sjálfri? Hefði eg ekki reynt að hjálpa honum — hefði eg aldrei beðið hann að halda áfram, þó að hann væri fátækur — hefði eg ekki fengið hann til að fara suður, þá hefði hún aldrei tekið hann frá mér."

Hún sagði ekki meira, hún Stína, um hann Óla Runólfsson, mentaskólapiltinn, þegar hann opinberaði trúlofun sína og dóttur fiskikaupmannsins, útgerðarmannsins og alþingismannsins fyrir sunnan.

Í Styrmishöfn gekk alt sinn vanagang, fiskirí og fiskileysi; mótorbátar komu og fóru inn fjörðinn og hljóðið bergmálaði í fjöllunum, eins og sálmasöngur um daglegt brauð. Fólkið vann og slæptist, elskaði og ilskaðist, kjaftavaðallinn sauð og iðaði eins og síldartorfa í logni; en dulin þrá eftir fegurð og hreinleika bærði hjörtu fólksins innst inni eins og andvarinn hreyfir ósýnilega vatnsdropana í tæru lofti. Vélaskrölt, hróp og köll, söngur og hjólböruískur, klukknahljómur í lífi og dauða. Allar andstæður heimsins og allar þarfir og þrár voru samankomnar í Styrmishöfn. Þar voru ástaræfintýri og þar voru þingmálafundir og þar var herra hæstaréttarlögmaður Ólafur Runólfsson kosinn á þing til þess að koma lagi á atvinnuvegina, til þess að spara og til þess að bjarga heiðri þjóðarinnar út á við! Og herra alþingsmaður Ólafur Runólfsson varð mikill maður og eignaðist marga togara, hús og lóðir. Hann tapaði á hverju ári, veinaði undan útsvarinu og bölvaði skött-unum, en alt af fjölgaði togurunum, húsunum og lóðunum, sem hann átti. Og meðan Stína Sveinsdóttir frá Grund arkaði sína gömlu götu í gúmmístígvélum upp að hné, með hrufóttar og meiddar hendur og alvarleg augu undir bláum skýluklútnum, hélt Ólafur áfram rétta boðleið eftir breiðasta þjóðvegi hins borgaralega lífs.

Nú var fyrir löngu orðið aldimmt í skrifstofu prestsins, en hann lagði aftur augun, eins og hann væri að forðast að sjá eitthvað, sem kæmi til móts við hann í myrkrinu. En hann sá samt. Hann sá blossandi, rauðar og flöktandi eldtungurnar, sem gusu upp úr hverri íslenzkri bygð, þegar Ólafur Runólfsson varð uppvís að fjársvikum og að því að gera sviksamlega tilraun til að fá útlendum bröskurum í hendur þýðingarmikil réttindi. Eignalaus, yfirgefinn af konu og tengdafólki, farinn að heilsu og kröftum hafði hann staðið fyrir dómstólunum. Læknarnir sögðu honum hættu búna, ef hann yrði settur í fangelsi og loks varð niðurstaðan sú, að Jói gamli bróðir hans í Styrmishafnarþorpinu tók hann til sín þessi þrjú árin, sem hann hélt heilsunni sjálfur. Þá kom til kasta hreppsnefndarinnar að koma honum Ólafi fyrir, því að þarna var hann orðinn sveitlægur, en samt öllum ókunnugur í Styrmishöfn, einförull um daga og nætur, beiskur og fámáll; mæðurnar, sem réðu ekki við óþægðina í krakka-óhræsunum, sem þær sjálfar höfðu alið og gefið að sjúga, sögðu þeim, að þær skyldu láta hann Óla gamla Runólfsson taka þau, ef þau hefðu ekki friðinn og skömmuðust til að gegna á auga lifandi bragði.

Og þarna sátu þeir á hreppsnefndarfundinum, inni á skrifstofu séra Karls í Styrmishöfn, fjórir menn fyrir utan hann, skrifstofumaður með gyltar nefklemmur sem hann stundum lét sveiflast á löngu, svörtu silkibandi, ungur barnakennari með sakleysislegan svip og tveir bændur, sem töluðu aldrei í ræðustíl, en það var samt hlustað á það, sem þeir sögðu. Þetta var vandamál, sem um var að ræða. Þeir höfðu leitast fyrir alstaðar,

þar sem þeim datt í hug; þeir höfðu athugað sínar eigin heimilisástæður; þeir höfðu hlustað á ótal ástæður, sannar og lognar, og ótal röksemdir fyrir því að ekki væri hægt að taka karlgreyið á heimilin og nú sátu þeir allir, sjálf sveitarstjórnin, á stólunum í stofu prestsins, úrræðalausir og vandræðalegir eins og nýkomin spurningabörn, sem ekki hafa lesið nógu langt í biblíusögunum. Enginn þorði að spyrja hvað ætti að gera, því að allir vissu, að ekki mundi verða svarað nema á einn veg.

Þá kom húsmóðirin inn og vék sér að manninum sínum.

"Það er kona frammi, sem vill tala við hreppsnefndina." Presturinn, skrifstofumaðurinn, kennarinn og bændurnir tveir litu upp og horfðu framan í frúna.

"Hver er það?"

"Það er hún Stína gamla Sveinsdóttir á Grund."

Hreppsnefndarmennirnir litu hver á annan, en enginn sagði neitt. Einhver undarleg tilfinning fór að bæra á sér í huga séra Karls; það var líkast óljósu bergmáli frá hljóði, sem dáið er út.

"Bjóddu henni inn," sagði presturinn, og andartaki síðar stóð Stína Sveinsdóttir frá Grund inni í skrifstofu prestsins. Hún var í hversdagsfötunum sínum, gúmmístígvélunum, dökku, þykku pilsi, brúnni peysu, sem var stoppuð á ermunum, og með skýluklút um höfuðið. Hún talaði hátt og óhikað, því að lífið hafði vanið hana af því að bugta fyrir höfðingjunum. Presturinn bauð henni sæti og hún tylti sér á dívanshornið.

"Eg er nú varla til þess," sagði hún Stína, "að koma nálægt stássstofu-mublum, svona beint úr draslinu og skítnum. En eg vona að þið fyrirgefið. Eg gaf mér bara ekki tíma til að fara heim og búa mig upp á. En svo að eg snúi mér nú að því, sem eg vildi ykkur, og komist beina leið að efninu, þá þykir ykkur erindið líklega nokkuð skrítið."

Stína Sveinsdóttir tók sér málhvíld og hreppsnefndarmennirnir biðu með fullkomnu kæruleysi, eins og alt af er gert, þegar stórtíðindi eru í aðsigi í heimi þessum. Enginn sagði neitt fyr en Stína gamla tók aftur til máls:

"Eg trúi, að þið séuð í vandræðum með hann Ólaf Runólfsson?"

"Það er ekki laust við það," sagði annar bóndinn.

"Nú, jæja; ef þið haldið, að það fari nógu vel um hann hjá mér á Grund og ef honum er sama um það sjálfum, þó að hann sé þar, þá er velkomið, að eg taki hann til mín. Fæðið ætti að vera viðunanlegt, að minsta kosti meðan dropinn er í beljunni. Hún er vön að halda lengi á, kýrgreyið. Kofagarmurinn er nú reyndar orðinn hálf-lélegur, eins og flest, sem gamalt er, en Jón frændi minn hefir lofað mér, að hann skyldi ditta að gluggunum, ef það yrði úr þessu. Og plássið er meira en nóg, þó þetta sé engin höll."

"Eg held hann megi þakka fyrir að fá ekki önnur húsakynni verri, helvítis karlinn," sagði skrifstofumaðurinn og hló, eins og hann hefði verið fyndinn.

"Ekki kæri eg mig um að taka mann upp á það, að það fari illa um hann," svaraði Stína í þeim

tón, að skrifstofumaðurinn roðnaði, án þess að vita hvers vegna.

"En heldurðu þá, að þú hafir krafta til að hugsa nógu vel um hann, svona veikan og lasburða. Þarftu ekki alt af að vinna út frá heimilinu öðru hvoru?" spurði kennarinn barnslega.

"Og það er nú svo sem satt, Bjarni minn, að eg er ekki farin að verða upp á marga fiska á stundum. En ef guð gefur, að eg haldi þessari heilsu, sem eg hef, vona eg samt, að eg verði nógu mikil manneskja til að elda sæmilegan mat og eg ætla að gera ráð fyrir, að eg hafi aldrei fengið orð fyrir að vera sóði að neinu leyti."

"Nei, það var heldur ekki svoleiðis meint, þetta sem eg sagði," svaraði barnakennarinn.

"Og hvað því viðvíkur, að eg þurfi að vinna út frá heimilinu, þá ætti ekki að þurfa að sitja dag og nótt yfir manninum. Þar að auki býst eg nú við því, að blessuð hreppsnefndin sjái sóma sinn í því að borga það, sem hann þarf, bæði af fötum og meðulum. En nú vil eg heyra, hvað þið segið um þetta. Svarið þarf eg að fá undir eins, á meðan eg er hérna inni í stofunni hjá ykkur."

Þegar hreppsnefndarmennirnir voru farnir, mæltist presturinn til þess, að Stína yrði eftir og talaði við sig fáein orð. Hann sat í stólnum sínum, en hún stóð upp og nam staðar við borðshornið.

Presturinn varð fyrri til að taka til máls.

"Mér þykir vænt um það, Kristín, að þú skulir ekki hafa leyft beiskju liðna tímans að gera út af við þínar hlýjustu tilfinningar gagnvart þessum manni. Eg greiddi atkvæði með þessu af því að eg veit, að þú reynist honum vel og lætur hann ekki gjalda þess, sem hann hefir gert."

Séra Karli varð litið framan í gömlu konuna, sem stóð fyrir framan hann, gallhörð á svipinn. Gömul saga var letruð í dráttunum við munninn.

"Nei, séra Karl. Eg læt hann ekki gjalda neins. En hann á heldur ekki að njóta neins. Eg skal reyna að láta honum líða vel, ef honum getur þá nokkursstaðar liðið vel. En þó fæstir viti það hér í Styrmishöfn, þá veizt þú það, séra Karl, og konan þín, hverjum það var upphaflega að kenna, að hann Ólafur Runólfsson fór suður til að læra og til þess að verða hættulegur maður fyrir þjóðfélagið. Og nú, þegar allir eru í vandræðum með hann og hvergi pláss fyrir hann á öllu landinu, hverjum heldurðu að standi þá nær að taka við honum, heldur en mér. Það er ekki af ást, séra Karl, því að hún er dauð og grafin, og ekki heldur af hatri, því að það kafnaði í fæðingunni, sem betur fór. Það er bara blátt áfram af því, að alt ólánið stafar, þegar öllu er á botninn hvolft, af kerlingarræflinum henni Stínu Sveinsdóttur á Grund."

Svo fór Ólafur gamli Runólfsson að Grund, eftir ákvörðun hreppsnefndarinnar og með samþykki sjálfs sín. Honum leið þar vel, að svo miklu leyti sem honum gat liðið vel. Hann varð ekki var við hatur, en hann varð heldur ekki var við ást.

Og í dag var presturinn í Styrmishöfn nýbúinn að jarðsyngja Ól-

Útgjöld:

| | |
|---|---|
| Borgað í húsaleigu | 3 65.00 |
| Borgað í kennaralaun | 246.00 |
| Kostnaður við Mótið | 47.39 |
| Kostnaður við skemtifundi | 7.00 |
| Auglýsingar | 9.00 |
| Ritföng, bækur og frímerki og prentun fyrir Mótið | 12.90 |
| Innköllunarlaun ársgjalda | 13.11 |
| Borguð gömul húsaleiga | 20.00 |
| Meðlimagjöld | 45.80 |
| Eldsábyrgð á bókasafni | 6.60 |
| | $472.80 |

Inntektir:

| | |
|---|---|
| Í sjóði frá fyrra ári | $ 65.50 |
| Samskot á fundum | 14.99 |
| Meðlimagjöld | 108.55 |
| Tillag frá aðalfélaginu | 150.00 |
| Inntektir af Mótinu | 148.50 |
| Kenslugjöld frá nemendum | 5.25 |
| Gjafir til Mótsins | 6.67 |
| | $499.46 |
| Útgjöld | 472.80 |
| Í sjóði | $ 26.66 |

*Skýrsla bókasafnsins*

| | |
|---|---|
| Bækur safnsins í ár | 641 |
| Bœkur safnsins í fyrra | 608 |
| Safnið aukist á árinu um | 55 bækur |
| Bækur í útlánsstandi | 586 |
| Bækur í útlánsstandi í fyrra | 563 |
| Varið til bóka kaupa | $28.00 |
| Bækur bundnar | 10.55 |
| Alls aukið að verðlagi | $38.55 |
| Inntektir á árinu | $79.13 |
| Útborgað á árinu | $78.55 |
| Í sjóði í banka | $ .58 |
| Meðlimatala | 49 |
| Bækur bundnar á árinu | 12 |
| Húsaleiguskuld | $32.00 |

S. B. Benediktsson gerði tillögu og Ari Magnússon studdi að skýrslurnar séu viðteknar. Samþykt.

Þá tók Ásm. P. Jóhannsson til máls um auglýsingar í Tímaritinu. Mintist hann á erfiðleika að safna auglýsingum síðustu árin. Mæltist hann til að þeir er styrktu félagið með auglýsingum í Tímaritinu fengju að njóta viðskifta Íslendinga, og einnig að fólk mintist á Tímaritið við auglýsendur, ef þeir ættu viðskifti við þá.

Las hann upp lista af auglýsendum og endurtók beiðni sína að Íslendingar létu þá njóta viðskifta sinna.

*Skýrsla Útbreiðslunefndar*

Nefndin, sem skipuð var til þess að íhuga útbreiðslumálin leyfir sér að leggja fram eftirfylgjandi tillögur:

I.

Að stjórnarnefndin hlutist til um það, eftir því sem fjárhagsástæður leyfa, að menn séu sendir til að heimsækja þær deildir, sem nú eru starfandi eða starfandi hafa verið, ekki sjaldnar en einu sinni á ári. Og að þetta sé gert í samráði við deildirnar að því er tíma og annað þesskonar snertir. Geti nefndin ekki annast heimsóknir, þá að minsta kosti hafi hún bréfaskifti við deildirnar.

II.

Að stjórnarnefndin hlutist til um það, að samin sé ítarleg bókaskrá yfir þær bækur, sem nú eru í eign félagsins, í því augnamiði að deildunum sé gefinn kostur á að fá að láni þær bækur, sem kunna að vera til í fleiri eintökum en einu, ef þær óska þess.

III.

Að stjórnarnefndin reyni að hjálpa lestrarfélögum, sem vilja panta bækur frá Íslandi, til þess að framkvæma það, með því að gerast milliliður milli bókakaupenda hér og útgefenda heima, eftir því sem ástæður leyfa.

IV.

Að stjórnarnefndin fari þess á leit við lestrarfélög út um bygðir Íslendinga, að þau gerist meðlimir félagsins undir þeim lögum, sem nú eru til um inngöngu slíkra félaga, eða gerist deildir í félaginu með venjulegum hætti.

V.

Nefndin er þeirrar skoðunar að nú síðari árin hafi ekki nóg verið starfað að útbreiðslu félagsins. Þess vegna vill hún leggja til, að stjórnarnefndin leiti sér allra mögulegra upplýsinga um möguleikana, sem fyrir hendi eru til útbreiðslu, einkanlega í þeim bygð-

um, sem engar deildir hafa, með það fyrir augum að auka krafta félagsins og tryggja tilveru þess meðal fólks vors í framtíðinni.

VI.

Þingið viðurkennir að íslenzku vikublöðin hér í Winnipeg hafi gert allmikið að því að styðja Þjóðræknisfélagið og málefni þess, og er þeim þakklátt fyrir það. En að hinu leytinu álítur það, að þau gætu meira gert í því efni, og vill vinsamlegast mælast til, að þau láti ekkert tækifæri ónotað, til þess að efla íslenzka þjóðrækni fyrir vestan hafið. Sömuleiðis vill þingið beina þeim tilmælum til allra þjóðrækinna Íslendinga hér í álfu, að þeir styðji útgáfur blaðanna með því að kaupa þau og borga.

Winnipeg 21. febrúar 1934.

Virðingarfylst,

Jón Jóhannsson Matth. Frederickson
Páll Guðmundsson J. P. Sólmundsson
Guðmundur Árnason.

Tillaga Ari Magnússon, A. Eggertsson studdi að nefndarálitið sé athugað lið fyrir lið. Samþykt.

1. liður: S. B. Benediktsson gerði tillögu og A. Olson studdi, að liðurinn sé samþyktur eins og lesinn. Samþykt.

2. liður: Dr. Rögnv. Pétursson lagði til og Árni Eggertsson studdi að sá liður sé samþyktur eins og lesinn. Samþykt.

3. liður: S. Vilhjálmsson gerði tillögu og Hlaðgerður Kristjánsson studdi að liðurinn sé samþyktur eins og lesinn. Samþykt.

4. liður: Dr. Rögnv. Pétursson lagði til og S. Vilhjálmsson studdi að 4. liður sé samþyktur eins og lesinn. Samþykt.

5. liður: A. Eggertsson gerði tillögu og S. Vilhjálmsson studdi að þessi liður sé samþyktur eins og lesinn. Samþykt.

6. liður: Um þenna lið urðu talsverðar umræður. Á. P. Jóhannsson mæltist til að nefndin tæki þenna lið aftur til íhugunar og gerði breytingu í þá átt að Þjóðræknisfélagið stuðlaði að því að brýna fyrir Þjóðræknismönnum að kaupa og borga íslenzku blöðin og sérstaklega væri æskilegt að uppvaxandi og yngri Íslendingar gerðust áskrifendur. Dr. Rögnv. Pétursson sagði að íslenzku blöðin væru að gera þarft þjóðræknisstarf og bæri að þakka þeim verk þeirra í þá átt, og hvetja þau að halda áfram því starfi. Mintist hann einnig undir þessum lið á hvað lítilfjörlegar og lauslegar umgetningar birtust í ensku blöðunum um íslenzk mannalát og annað viðkomandi Íslendingum. Vonaðist hann til að þetta kæmi til umræðu undir Nýjum málum. Einnig tók til máls J. P. Sólmundsson, séra Guðm. Árnason, S. B. Benediktsson, Jón Jóhannsson og S. Vilhjálmsson. Tóku þeir allir í sama strenginn um þjóðræknisstarf íslenzku vikublaðanna og nauðsynina á að hvetja fólk til að kaupa þau og nota. Tillögu gerði Á. P. Jóhannsson er J. P. Sólmundsson studdi, að nefndin taki þenna lið aftur til íhugunar. Samþykt.

Las þá Árni Eggertsson upp lista af bókum er Margrét Vigfússon hafði nýlega gefið Þjóðræknisfélaginu. Forseti gat þess að þetta væri virðingarverð gjöf og mundi þetta verða tekið upp undir nýjum málum. Var þá komið að hádegi og frestaði forseti þingi til kl. 1.30.

Þing var sett af forseta kl. 2 e. h. Síðasta fundargerð lesin og samþykt.

Lagði Útbreiðslumálanefndin fram álit sitt með breyttum og endurbættum 6. lið. Hlaðgerður Kristjánsson lagði til og Sig. Vilhjálmsson studdi að 6. liður sé samþyktur eins og lesinn. Samþykt. Sig. Vilhjálmsson lagði til og A. Eggertsson studdi að álitið sé viðtekið í heild með gerðum breytingum. Samþykt.

*Fræðslumál*

Nefndarálit lesið af próf. Richard Beck. (Útskýrði hann einnig álitið til hlítar, og hugmyndir nefndarinnar).

"Nefnd sú, er skipuð var til að íhuga *fræðslumálin*, og leggja fram nefndarálit, leyfir sér hér með að gera eftirfarandi tillögur:

1. Að Þjóðræknisfélagið haldi áfram að styðja af alefli kenslu og uppfræðslu barna og unglinga í íslenzkri tungu, sögu og bókmentum; og vinni áfram að því, að börn og unglingar séu látin iðka upplestur íslenzkra kvæða og smásagna, og söng á íslenzku, bæði í heimahúsum og á samkomum hinna ýmsu félagsdeilda.

2. Að stjórnarnefnd félagsins leiðbeini einstaklingum og deildum um val og útvegan hinna hentugustu íslenzkra kenslu-, lestrar- og söngbóka, þeirra, sem mest eru við hæfi íslenzkra barna og unglinga vestan hafs.

3. Að þá um ræðir börn og unglinga, sem hafa eigi not af fræðslu um íslenzk efni á íslenzku, þá séu foreldrar og deildir hvött til þess, að vekja athygli slíkra barna og unglinga á Íslandi, sögu þess, bókmentum og menningu, með því að fá þeim í hendur valin rit um þau efni á enskri tungu. Getur það vel orðið til þess, að þeim ungmennum vakni löngun til íslenzku náms; að minsta kosti er full ástæða til að ætla, að slíkur lestur auki þeim eigi aðeins þekkingu á íslenzkum efnum, heldur glæði jafnframt hjá þeim virðinguna fyrir íslenzkum verðmætum og hugsjónum og hlýhug þeirra til Íslands.

Leyfir nefndin sér að benda á það, að til eru á ensku máli allmörg ágæt rit um íslenzk fræði, við hæfi bæði unglinga og fullorðinna, og margt góðra þýðinga af íslenzkum ritum. Leggur nefndin einnig til, að bókasafn Þjóðræknisfélagsins afli sér, eftir föngum, sem flestra slíkra rita til útláns meðal félagsmanna. Álítur nefndin hreint ekki ólíklegt, að hlutaðeigandi útgáfufélög myndu láta bókasafninu í té mörg rit þessi við vægu verði, eða jafnvel ókeypis, ef það væri skýrt fram tekið, að félagið væri að hvetja félagsmenn og deildir til að afla sér slíkra rita.

Loks vill nefndin leggja til, að skipuð verði milliþinganefnd til að semja á íslenzku skrá yfir hinar beztu og handhægustu bækur á ensku um íslenzk efni. Sé á skrá þeirri lýst heiti, útgefanda og verði ritanna, og verði hún prentuð annaðhvort í Tímariti Þjóðræknisfélagsins, eða í íslenzku vikublöðunum."

21. febrúar 1934.

Richard Beck, Hjálmar Gíslason,
John Ásgeirsson

S. B. Benediktsson lagði til og Ásm. P. Jóhannsson studdi að álitið sé rætt lið fyrir lið. Samþykt.

1. liður: Árni Eggertsson lagði til og Halldór Gíslason studdi að liðurinn sé samþyktur eins og lesinn. Samþykt.

2. liður: Tillögu gerði Halldór Gíslason studda af B. K. Johnson að þessi liður sé samþyktur eins og lesinn. Samþykt.

3. liður: Guðmundur Árnason lagði til og J. P. Sólmundsson studdi, að liðurinn sé samþyktur eins og lesinn. Samþykt.

Ásm. P. Jóhannsson bað nefndina, áður en álitið yrði samþykt í heild, að innibinda þakklæti félagsins til kennara laugardagsskóla félagsins fyrir það framúrskarandi starf, er þeir hefðu unnið í vetur. Séra Guðm. Árnason lagði til og Ásm. P. Jóhannsson studdi að 1. liður sé aftur tekinn til athugunar af nefndinni, með því augnamiði að bæta við hann bendingu Ásm. P. Jóhannssonar. Samþykt.

Gerði þá nefndin viðauka við 1. lið í samræmi við þessa bendingu, og gerði þá Árni Eggertsson tillögu og Ásm. P. Jóhannsson studdi að álitið sé nú viðtekið í heild. Samþykt.

Viðbót við fyrsta lið:

Jafnframt vill nefndin, fyrir hönd Þjóðræknisfélagsins, þakka hjartanlega, hið ósérplægna og ágæta starf kennaranna við laugardagsskóla Þjóðræknisfélagsins, og þeirra annara, sem stutt hafa það starf, hvetja aðrar deildir félagsins til slíks skólahalds út um bygðir.

Eins og álitið fer fram á skal forseti skipa milliþinganefnd í málið og kvaðst hann ætla að gera það strax, og útnefndi próf. Richard Beck til þessa starfs á árinu.

*Samvinnumál við Ísland.*

Nefndarálit lesið af próf. Richard Beck.

Með því að félagsmönnum er kunnugt um þetta mál frá undanfarandi þingum leyfir nefndin sér, er skipuð var til að íhuga *samvinnumál við Ísland*, að leggja fram eftirfarandi tillögur, án frekari skýringa af sinni hálfu:

1. Að stjórnarnefnd félagsins sé falið að halda áfram viðleitni sinni í þá átt, að vinna að því, að komist geti á gagnkvæm verzlunarviðskifti milli Íslands annars vegar og Canada og Bandaríkja hinsvegar.

2. Stjórnarnefndinni sé falið framhaldandi starf í þá átt, að skipaðir verði fastir verzlunar erindsrekar á Íslandi frá Canada og Bandaríkjunum.

3. Að stjórnarnefndinni sé falið, að fara þess á leit við útvarpsráðið á Íslandi og ríkisútvarpið í Canada, að samkomulag fáist um það, að minsta kosti tvisvar á ári, verði endurútvarpað sérstöku útvarpi frá Íslandi, sem ætlað sé íslenzkum mönnum hérlendis.

4. Ennfremur leggur nefndin til að þingið, fyrir hönd Þjóðræknisfélagsins, tjái sig samþykt því, að komist á sem nánust og vinsamlegust kirkjuleg samvinna milli þjóðarinnar heima og Íslendinga vestan hafs; þar sem slík samvinna yrði sjáanlega

til eflingar viðhaldi íslenzks þjóðernis hér í álfu.

5. Jafnframt vill nefndin vekja athygli vestur-íslenzkra námsmanna, sem hafa í huga, að starfa sérstaklega meðal þjóðflokks vors hér í álfu, eða stund ætla að leggja á íslenzkar fræðigreinar, á því að þeim myndi gagnlegt að verja að minsta kosti eins árs tíma til framhaldsnáms í þeim fræðum við Háskóla Íslands.

21. febrúar, 1934.

Rögnv. Pétursson — Friðrik Dalman
Mrs. Ásta Erickson — Björg Skagfjörð
Richard Beck.

Séra Guðm. Árnason lagði til og Margrét Byron studdi að álitið sé tekið fyrir lið fyrir lið. Samþykt.

1. liður: Séra Guðm. Árnason lagði til og Margrét Byron studdi, að þessi liður sé viðtekinn eins og lesinn. Samþykt.

2. liður: Árni Eggertsson gerði tillögu og Páll Guðmundsson studdi að liðurinn sé samþyktur eins og lesinn. Samþykt.

3. liður: Tillögu gerði séra Guðm. Árnason studda af Margréti Byron að liðurinn sé samþyktur eins og lesinn. Samþykt.

4. liður. Um þenna lið álitsins urðu talsverðar umræður. Ásgeir Bjarnason gerði tillögu og Sig. Vilhjálmsson studdi að þessi liður sé feldur úr nefndarálitinu.

Með tillögunni mæltu þeir Sig. Vilhjálmsson, J. J. Bíldfell, Ásg. Bjarnason, Ásm. P. Jóhannsson og séra Guðm. Árnason, en á móti töluðu dr. Rögnv. Pétursson og J. P. Sólmundsson.

Var þá gengið til atkvæða, og greiddu 32 atkvæði með tillögunni, að fella liðinn úr, en 15 á móti.

5. liður: S. B. Benediktsson lagði til og Páll Guðmundsson studdi að liðurinn sé samþyktur eins og lesinn. Samþykt.

Ásm. P. Jóhannsson lagði til og A. Eggertson studdi að álitið sé samþykt í heild með gerðum breytingum. Samþykt.

*Bókasafnsmál*

Nefnd sú, sem skipuð var á ársþingi Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi þann 20. febrúar 1934, til að íhuga bókasafnsmálið, leyfir sér að leggja fram eftirfarandi tillögur í því máli.

Þar sem það er álit vort, að bókasöfn séu einn sterkasti og áhrifamesti hlekkurinn í þjóðrækniskeðjunni hér vestan hafs, þá leggjum vér til:

1. Að Þjóðræknisfélagið leggi alt mögulegt kapp á, að mynda ný bókasöfn og auka þau söfn, sem nú eru félaginu tilheyrandi, með bókakaupum og að fá menn til að eftirláta félaginu söfn sín, eftir þeirra dag eður fyr ef hægt er.

2. Að þar sem svo stendur á, að fleiri en ein bók af sömu tegund er í einhverju safni félagsins, þá verði séð svo um, að þeim sé dreift milli safnanna.

3. Að gerð sé gangskör að því, að hin ýmsu lestrarfélög, sem nú þegar eru, eður kunni að verða í framtíðinni sambandsfélög Þjóðræknisfélagsins fái tækifæri á að skiftast á bókum, á þann hátt, að sendar séu bækur frá einum stað til annars til lesturs, undir einskonar miðstjórn, er hafi stöð sína í Winnipeg, samkvæmt því fyrirkomulagi sem stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins kann að álíta heppilegast.

4. Að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins gangist fyrir því, að til arðs fyrir hvert bókasafn í hinum ýmsu bygðarlögum sé haldin ein arðberandi samkoma á ári hverju og að stjórnarnefndin aðstoði við þau samkomuhöld eftir mætti.

5. Að þingið veiti stjórnarnefndinni heimild til að verja fé árlega til viðhalds á bókum félagsins eftir því sem stjórnarnefndin sér við þurfa.

6. Að netto andvirði Tímarits Þjóðræknisfélagsins sem kann að seljast á Íslandi sé varið sem mest til nýrra bókakaupa.

7. Að bókasafn félagsins sé sem mest undir umsjón og gæzlu sérstakra nefnda, sem starfi í samráði við stjórnarnefnd félagsins eður deilda þeirra, er þau kunna að heyra undir.

8. Að hverju bókasafni sé komið fyrir á sem heppilegastan stað, þar sem fólk, er þau vilja nota, eigi sem hægastan aðgang að þeim.

G. P. Magnússon — Halldór Gíslason
Jónas Jónasson.

Nefndarálitið lesið af G. P. Magnússon. Tillögu gerði Ari Magnússon og Sig. Vilhjálmsson studdi að álitið sé íhugað lið fyrir lið. Samþykt.

1. liður:—Ásg. Bjarnason lagði til og

Stefán Jóhannsson studdi að þessum lið sé vísað til fjármálanefndar. Samþykt.

2. liður:—Sig. Vilhjálmsson lagði til og Ari Magnússon studdi að liðurinn sé viðtekinn eins og lesinn. Samþykt.

3. liður—Dr. Rögnv. Pétursson lagði til og Ari Magnússon studdi að þessi liður sé samþyktur eins og lesinn. Samþykt.

4. liður:—Sig. Vilhjálmsson lagði til og Jón Jóhannsson studdi að liðurinn sé viðtekinn eins og lesinn. Samþykt.

5. liður:—Dr. Rögnv. Pétursson lagði til og Margrét Byron studdi að þessum lið sé vísað til fjármálanefndar. Samþykt.

6. liður:—Jón Jóhannsson lagði til og Jónas Jónasson studdi að þessum lið sé vísað til fjármálanefndar. Samþykt.

7. liður:—Ásm. P. Jóhannsson gerði tillögu studda af Margréti Byron að þessi liður sé feldur vegna þess hann sé óþarfur. Samþykt.

8. liður:—Dr. Rögnv. Pétursson lagði til og Sig. Vilhjálmsson studdi að liðurinn sé viðtekinn eins og lesinn. Samþykt.

Nefndarálitið, með þessum breytingum, samþykt sem heild.

*Tímarits útgáfa*

Nefnd sú er skipuð var á Þjóðræknisþinginu, til þess að gera tillögur um útgáfu Tímarits Þjóðræknisfélagsins á komandi starfsári, leggur til að útgáfu Tímaritsins sé hagað til á sama hátt og að undanförnu, og að stjórnarnefndinni sé falið á hendur að hafa framkvæmd í því máli, sem verið hefir.

Nefndin sér sér ekki fært að leggja til að svo stöddu, að gera neinar breytingar frá því sem verið hefir.

G. Árnason G. E. Eyford
Th. Bjarnason.

Ásg. Bjarnason lagði til og J. P. Sólmundsson studdi, að álitið sé viðtekið í heild eins og lesið. Samþykt.

*Sextíu ára minning þjóðræknishreyfingar Íslendinga í Vesturheimi.*

Nefndin, sem sett var til þess að íhuga þetta mál, leyfir sér að leggja fyrir þingið eftirfylgjandi ályktun:

Þar sem að komið hefir í ljós af fyrirlestri þeim, sem dr. Rögnv. Pétursson flutti hér í gær, að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins hefir vandlega íhugað þetta mál og komist að þeirri niðurstöðu, að félagið gæti ekki gengist fyrir sérstakri minningarhátíð og verði að láta sér nægja að minnast þessa merka atburðar hér á þinginu, þá leggjum við til, að stjórnarnefnd félagsins sé falið, að fara þess á leit við Íslendingadagsnefndir, hvarvetna þar sem Íslendingadagshald á sér stað á komandi sumri, að taka málið á dagskrár sínar og minnast atburðarins á virðulegan og viðeigandi hátt.

Á Þjóðræknisþingi 21. febrúar, 1934.

Á. P. Jóhannsson Jón Jóhannsson
Guðm. Árnason Elín Hall
J. Janusson.

B. E. Johnson lagði til og próf. Richard Beck studdi að álitið sé viðtekið í heild eins og lesið. Samþykt.

*Minjasafnsmál: Nefndarskýrslan*

Það er álit vort að það standi Þjóðræknisfélaginu næst að starfa að því að verðmætir þjóðlegir munir í förum Vestur-Íslendinga, víðsvegar um bygðir vorar, svo sem bækur, handrit, og gripir er hafa fræðilegt, bókmentalegt eða listrænt gildi, glatist ekki fyrir hirðuleysi eða kæruleysi. Oss skilst að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins hafi á árinu sem leið hafist handa í þessu skyni og falið tveimur mönnum, Dr. A. Blöndal og Mr. B. E. Johnson, úr nefndinni, að starfa að þessu máli.

Leggjum vér til að þessu starfi sé haldið áfram á þessu ári undir umsjá stjórnarnefndar félagsins, og að verðmætir, fágætir munir, er að áliti dómbærra manna eru boðlegir sem sýningar munir, sé komið fyrir á gripasafni því, er stofnað hefir verið í Winnipeg Auditorium.

Winnipeg, Man. 21. febr. 1934.

F. Sveinsson G. L. Jóhannsson
Guðmann Levy.

J. P. Sólmundsson benti á að ekki væri æskilegt að gera neinar fastar ákvarðanir um sérstakan stað er munirnir séu geymdir.

Nefndin samþykti þessa breytingu, og gerði dr. Rögnv. Pétursson tillögu og Jón Jóhannsson studdi að álitið sé samþykt með þessari breytingu. Samþykt.

Þá gat forseti þess að nokkrir nýir meðlimir hefðu gengið í félagið á þinginu, og mintist hann sérstaklega á Ófeig lækni Ófeigsson og Margréti konu hans.

Dr. Rögnv. Pétursson gat þess að á þinginu væri staddur séra Sveinbjörn Ólafsson

frá Bandaríkjunum. Sagði hann að séra Sveinbjörn hefði sérstaklega reynt að haga ferð sinni svo að hann gæti setið þingið. Mæltist hann til að þingið biði honum að taka þátt í þingstörfum og vottaði honum þakklæti sitt fyrir komuna á þingið. Var það gert með lófataki.

Lagði þá dr. Rögnv. Pétursson til, Halldór Gíslason studdi, að þingi væri frestað til kl. 9.30 næsta morguns. Samþykt.

Að kvöldi fór fram hið árlega Íslendingamót Fróns og tókst prýðilega. Var það eitt fjölsóttasta mót deildarinnar og sýnir það þó hart sé í ári, vináttu til félagsins og áhuga fyrir starfi þess. Aðal erindi á mótinu flutti Ófeigur Ófeigsson, læknir.

Fleira á skemtiskránni var: Ávarp forseta, Berthor Emil Johnson; Einsöngur, Sigurður Skagfield; Samsöngur, þær Mrs. K, Jóhannesson, Mrs. Dr. A. Blöndal, Mrs. G. Finnbogason, Mrs. Lincoln Johnson, Miss Emily Bardal og Miss M. Halldórsson; Piano solo, Mrs. Guðrún Helgason; Samspil, Miss Ásta Kristjánsson, Miss Cassidy og Miss Gordon; Myndir eftir Einar Jónsson, teiknaðar og sýndar af Dr. A. Blöndal; Kvæði, Lúðvík Kristjánsson.

Eftir að skemtiskrá og veitingum var lokið, skemti fólk sér við dans til kl. 2 um nóttina.

Þing var sett af forseta 22. febrúar, kl. 10.15 f.h. Síðasta fundargerð lesin og samþykt.

*Ný mál*

Nefndin var ekki til með álit sitt og mæltist dr. Rögnv. Pétursson, formaður hennar til að þeir er hefðu ný mál að flytja, gerðu þingmálanefndinni aðvart um þau áður en hún tæki til starfa.

*Tillögur fjármálan. um frumvarp Bókasafnsn.*

Fjármálanefndin hefir yfirfarið þingsályktunartillögur bókasafns nefndarinnar, og vill í því efni benda þingheimi á:

Að þar eð samkvæmt 4. lið nefndarálitsins að farið er fram á að þingið skuldbindi Þjóðræknisfélagið, til að gangast fyrir því, að arðberandi samkoma sé haldin á ári hverju, fyrir áminst bókasöfn, og þar eð þetta hlýtur að hafa allmikinn kostnað í för með sér, þá sjáum vér oss ekki fært, að leggja félaginu slíka byrði á herðar í þetta sinn.

Leggur því fjármálanefndin til að 1., 5 og 6. liðir bókasafnsnefndarálitsins séu feldir úr.

Á Þjóðræknisþingi 22. febr. 1934.

Á. P. Jóhannsson, Jón Jóhannsson
L. Matthews.

Tillagan um 1. lið til umræðu.

Séra Guðm. Árnason gerði breytingartillögu studda af Ara Magnússyni að orðin "með bókakaupum" falli úr.

Var sú tillaga samþykt.

Gerði þá Ásg. Bjarnason tillögu og Bjarni Skagfjörð studdi að 1. liður sé viðtekinn með breytingunni. Samþykt.

5. liður.—Eftir nokkrar umræður var tillaga fjármálanefndarinnar um að fella liðinn úr, borin upp og samþykt.

6. liður:—Út af þessum lið spunnust allítarlegar umræður, og virtist álit flestra ræðumanna benda í þá átt að mjög æskilegt væri að fá bækur frá Íslandi fyrir þau Tímarit félagsins, er kynnu að seljast þar. Féllust flestir á þá skoðun að það mundi auka sölu ritsins á Íslandi og þá að sjálfsögðu auðga bókaforða félagsins hér vestra.

Að loknum umræðum var tilaga fjármálanefndar borin upp til atkvæða og feld með öllum greiddum atkvæðum nema tveimur. Mæltist þá Á. P. Jóhannsson til að orðinu netto væri bætt við, framan við orðið andvirði.

Á Eggertsson gerði tillögu og Jónas Jónasson studdi að liðurinn sé viðtekinn með þessari breytingu. Samþykt.

Árni Eggertsson lagði þá til og B. E. Johnson studdi að nefndarálitið sé viðtekið með gerðum breytingum. Samþykt.

Í umræðunum um 6. lið álitsins hafði einn ræðumaður tilboð fram að bera. Maðurinn var N. Ottenson og kvaðst skyldi gefa bókasafni félagsins þær bækur, sem hann ætti tvö eintök af, ef bókasafninu gæti orðið það að notum. Einnig kvaðst hann fús til að kenna einhverjum íslenzkum unglingspilti að rita settletur, endurgjaldslaust, ef einhvern langaði til að læra það. Var þá kl. hálf eitt og frestaði forseti þingi til kl. 2 er embættismannakosning átti fram að fara.

Þingfundur settur kl. 2 e. h.

Fundargerð lesin og samþykt.

Lá þá næst fyrir embættismanna kosning. Skipaði forseti þá Stefán Einarsson og Arinbjörn Bardal í nefnd til að útbýta atkvæðaseðlum og telja þá með ritara.

Árni Eggertsson gerði tillögu og Á. P. Jóhannsson studdi að víkja frá dagskrá og fresta kosningu um hálftíma. Samþykt.

*Ný mál—Skipun þingmálanefndar, Dagskrár liður* 18. *C.*

Dr. Rögnv. Pétursson las þá nefndarálit í þessu máli og einnig tillögur frá einstaklingum er nefndin veitti viðtöku.

*Dagskrárliður* 18 *B.*

Þingnefnd er skipuð var í þetta mál, leggur til:

Nú strax á þessu ári skal stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins gera gangskör að söfnun allra sögulegra skilríkja, prentaðra sem ritaðra, er snerta sögu Íslendinga vestan hafs, til þess að slíkar heimildir séu varðveittar frá glötun.

Að félagsstjórnin veki athygli alls íslenzks almennings, austan hafs og vestan á þessari ákvörðun með opinberri tilkynningu í ísl. vikublöðunum.

22. febrúar, 1934.

Rögnv. Pétursson J. P. Sólmundsson
Hlaðgerður Kristjánsson.

Tillögu gerði G. P. Magnússon studda af Arinbirni Bardal að nefndarálitið sé viðtekið í heild sinni eins og lesið. Samþykt.

Var þá lesin einstaklings tillaga frá Ásgeiri Bjarnasyni:

Að erindi þingsins, er flutt var til minningar um 60 ára afmæli þjóðræknissamtaka í Vesturheimi sé gefið út í sérstökum bæklingi á kostnað félagsins og haft til útbýtinga meðal almennings.

Á. P. Jóhannsson gerði tillögu og Sig. Vilhjálmsson studdi að tillaga þessi sé feld vegna þess að fyrirlestur sá, er hún fjallar um sé allareiðu í Tímaritinu. Var tillaga þessi samþykt með 15 atkvæðum gegn 14.

Var nú uppi sá tími er kosningu embættismanna hafði verið frestað og því gengið til útnefninga.

Voru þessir útnefndir fyrir forseta:

J. J. Bíldfell, Á. P. Jóhannsson, Dr. Rögnv. Pétursson, B. E. Johnson, Hjálmar Gíslason, Séra Guðm. Árnason, J. P. Sólmundsson.

Allir afsökuðu sig og urðu um þetta umræður.

Mælst var til að J. J. Bíldfell gæfi kost á sér og að þingheimur greiddi honum atkvæði í einu hljóði.

Tillögu gerði B. E. Johnson og J. P. Sólmundsson studdi að allir, sem samþykkir væru þessum tilmælum risu úr sætum sínum. Var það gert af öllum með lófataki og lýsti ritari þá Jón J. Bíldfell kosinn forseta í einu hljóði.

Til vara-forseta var stungið upp á:

Ásg. Bjarnason, Próf. Richard Beck, Á. P. Jóhannsson. Hlaut prof. Richard Beck kosningu.

Fyrir ritara var stungið upp á Bergthor E. Johnson, og var hann kosinn í einu hljóði.

Vara-ritari var kosinn í einu hljóði Dr. Á. Blöndal.

Fjármálaritari var kosinn í einu hljóði Guðmann Levy.

Vara-fjármálaritari var kosinn í einu hljóði Á. P. Jóhannsson.

Fyrir féhirði var kosinn Árni Eggertsson í einu hljóði.

Vara-féhirðir var kosinn í einu hljóði Páll S. Pálsson.

Skjalavörður var kosinn í einu hljóði Sigurður Melsted.

Fyrir yfirskoðunarmenn var stungið upp á J. Walter Jóhannsson, Ásgeiri Bjarnason, Hjálmari Gíslason, Jack Snydal.

Tvo menn átti að kjósa, annan til tveggja ára og hinn til eins árs. Hlutu kosningu J. Walter Jóhannsson til tveggja ára og Jack Snydal til eins árs.

*Milliþinganefnd í Rithöfundasjóð.*

Ásm. P. Jóhannsson gerði tillögu og dr. Rögnv. Pétursson studdi, að 5 manna nefnd sé kosin.

Voru þessir útnefndir og kosnir í einu hljóði: Séra Guðm. Árnason, Lundar; Þórður Bjarnason, Selkirk; G. J. Oleson, Glenboro; Jón Jóhannsson, Wynyard; Þorsteinn Gíslason, Brown.

Las þá dr. Rögnv. Pétursson bréf frá Þorsteini Gíslasyni í Brown, og fylgdi með því $10 gjöf frá deildinni Ísland í Rithöfundasjóðinn.

Tillögu gerði Friðrik Sveinsson studda af Philip Johnson, að taka aftur til umræðu tillögu Ásgeirs Bjarnasonar.

Tillagan var feld með 14 atkvæðum gegn 12.

Þá var lesin einstaklings tillaga frá Sig. Vilhjálmssyni:

Að þingið taki upp á dagskrá húsnæðismál fyrir félagið, og að væntanleg stjórnarnefnd starfi að því á þessu komandi sumri að útsjá heppilegan stað fyrir framtíðarheimili félagsins og leggi alla stund á að efla byggingarsjóð þess. Að leita fjárframlaga félagsmanna er minst næmi $1.00 frá hverjum einstökum.

G. P. Magnússon gerði tillögu og A. S Bardal studdi, að málinu sé vísað frá. Samþykt.

Þá kom fram bending eða yfirlýsing frá Þorgils Þorgeirsson:

Æskilegt væri að þing Þjóðræknisfélagsins sé haldið í þremur aðal samkomustöðum Ísl. í Winnipeg: Fyrstu lút. kirkju, Sambandskirkju og Goodtemplarahúsinu.

Próf. Richard Beck gerði tillögu og J. P. Sólmundsson studdi, að þingið vísi þessari bendingu til stjórnarnefndar til íhugunar.

Breytingartillögu gerði Guðm. Árnason og Guðmann Levy studdi, að þessi yfirlýsing sé borðlögð. Var breytingartillagan samþykt.

*Ólokin mál*

Dr. Rögnv. Pétursson lagði fram skýringar frá lagabreytingarnefnd í sambandi við starf hennar:

*Lagabreytingar.*

Lögin tiltaki hverju fylgt skuli að þingsköpun.

Þessar nefndir séu skipaðar á hverju þingi:

Útnefningarnefnd.

Þingmálanefnd (Committee on Resolutions).

G. P. Magnússon gerði tillögu og A. S. Bardal studdi að málið sé falið framkvæmdarnefndinni til íhugunar og framkvæmda á árinu. Samþykt.

Gat þá forseti þess að öllum málum á dagskrá væri nú lokið. En af því nokkur tími var enn til starfs, bauð hann þeim, ef einhverjir vwri, er hefði eitthvað að flytja á þinginu, að taka til máls.

Séra Guðm. Árnason tók þá til máls, og brýndi fyrir fólki að halda fundarsköp á þingi. Kvað hann erfitt fyrir forseta að stjórna fundum þegar menn ekki einu sinni notuðu almennar kurteisisreglur. Kvað hann svo aðeins hægt að koma málum greiðlega í gegn að fólk fylgdi fundarsköpum.

Jónas Jónasson, sem er á förum til Íslands ásamt konu sinni, talaði nokkur kveðjuorð til þinggesta. Mintist hann á góðvild Vestur-Íslendinga til Íslands og óskaði hann að andi sá, er komið hefði fram á Íslendingamóti Fróns, kvöldið áður, mætti ríkja sem lengst meðal Vestur-Íslendinga. Séra Guðm. Árnason gerði tillögu og Páll Guðmundsson studdi, að Jónasi Jónassyni og konu hans og Jónasi Thordarsyni, er einnig væri á förum til Íslands, væri hjartanlega þakkað af þingheimi, samstarfið og samveran hér vestra og óskað fararheilla og allrar gæfu í framtíðinni. Var tillagan samþykt með því að þingheimur reis á fætur með lófataki.

Walter Lindal, lögmaður, ávarpaði þá þingið nokkrum orðum.

Tillögu gerði þá dr. Rögnv. Pétursson og Halldór Gíslason studdi, að þingi sé frestað til kl. 8 að kveldi. Samþykt.

Kl. 8 að kveldi fór fram samkoma leikfimisfélags "Fálkans."—Var húsfyllir. Fjölbreytt leikfimisskrá fór fram, einnig söngur og framsögn. Síðast en ekki sízt má nefna fyrirlestur próf. Richard Beck um "Frjómagn íslenzkra fornbókmenta."—Var fyrirlesturinn fróðlegur og vel fluttur.

Eftir samkomuna hélt fundur áfram. J. P. Sólmundsson talaði nokkur orð um fyrirlestur próf. Richard Becks og gerði tillögu um að þingheimur þakkaði honum erindið með því að rísa úr sætum. Var það gert með lófataki.

Dr. Rögnv. Pétursson lagði til, fyrir hönd stjórnarnefndar, að séra R. E. Kvaran sé gerður heiðursfélagi í Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi. Var tillaga þessi samþykt með því að allir risu á fætur.

Þá mintist forseti með nokkrum velvöldum orðum, láts fyrverandi forseta félagsins séra Jónasar A. Sigurðssonar síðastliðið sumar. Mæltist hann til að þingið votti ekkju séra Jónasar A. Sigurðssonar, frú Stefaníu Sigurðsson og börnum þeirra hjóna hina innilegustu hluttekningu sína með því að þingmenn rísi úr sætum, og var það gert.

Var þá síðasta fundargerð lesin og samþykt.

Sagði þá forseti hinu fimtánda ársþingi Þjóðræknisfélagsins slitið.

*Jón J. Bildfell* *forseti.* — *Rögnv. Pétursson,* *ritari.*

*B. E. Johnson, þingskrifari.*

# Fjárhagsskýrsla félagsins

**Féhirðis, Fjármálaritara og Skjalavarðar Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi yfir árið 1933.**

## Skýrsla féhirðis

yfir tekjur og gjöld frá 15. febr. 1933 til 15. febr. 1934.

TEKJUR:

| | |
|---|---|
| **15. febr. 1933—** | |
| Á Landsbanka Íslands | $ 4.45 |
| Á Royal Bank of Canada | 1,533.87 |
| Á Can. Bank of Commerce | 587.84 |
| Frá Fjármálaritara | 332.48 |
| Gjafir í Rithöfundarsjóð | 145.27 |
| Innheimt fyrir augl. (1932) | 73.25 |
| Innheimt fyrir augl. (1933) | 1,176.00 |
| Gróði á víxli | .45 |
| Gjöf | .75 |
| Leifs Eiríkssonar myndast | 63.55 |
| Bankavextir | 59.99 |
| | $3,977.90 |

GJÖLD:

| | |
|---|---|
| **15. febr. 1934—** | |
| Styrkur til íslenzku kenslu | $112.25 |
| Ritlaun | 146.55 |
| Ritstjóralaun | 100.00 |
| Prentun á 14. árg. Tímaritsins | 166.02 |
| Prentun á 15. árg. Tímaritsins | 300.00 |
| Umboðslaun á auglýsingum | 319.49 |
| Ábyrgðargjöld embættism | 16.00 |
| Gjöf til Falcon Athletic Assn. | 75.00 |
| Gjöf úr Rithöfundasjóði | 90.00 |
| Gjöf við burtför forseta | 35.00 |
| Fundarsalsleiga | 55.00 |
| Gjöld til stjórna og lögfr. | 16.00 |
| Telegraf og talsímaskeyti | 9.89 |
| Ferðakostnaður á þing | 35.90 |
| Stúdentaráð Íslands (Selskinnusjóður) | 132.06 |
| Víxilgjöld á bankaávísunum | 2.64 |
| Burðargj. á bókum til Íslands | 16.45 |
| Ársþing og aðrar auglýsingar | 28.00 |
| Prentun | 22.25 |
| Útbreiðslumál og blómakaup | 86.00 |
| Frímerki og símskeyti til féh. | 5.82 |
| Á Landsbanka Íslands | 4.45 |
| Á Royal Bank of Canada | 1,575.66 |
| Á Can. Bank of Commerce | 627.47 |
| | $3,977.90 |

**Árni Eggertson.**

15. febr. 1934. Yfirskoðað og rétt fundið,

**Walter Jóhannson, Guðmann Levy**

### Skýrsla fjármálaritara yfir árið 1933

Inntektir—

| | |
|---|---|
| Frá meðlimum aðalfélagsins | $166.00 |
| Frá deildum | 156.85 |
| Frá sambandsfélögum | 14.00 |
| Ágóði af sölu Tímaritsins (I—XIV árg.) | 25.40 |
| Gengismunur á bandaríkum peningum | .64 |
| | $362.89 |

Útgjöld—

| | |
|---|---|
| Póstgjöld, frímerki, skriffōng og sölulaun | 30.41 |
| Afhent gjaldkera, Árna Eggertssyni | 332.48 |
| | $362.89 |

**Jónas Thordarson.**

15. febr. 1934. Yfirskoðað og rétt fundið,

**Walter Jóhannson, Guðmann Levy.**

**Skýrsla skjalavarðar fyrir árið 1933**
(Yfirlit yfir Tímaritið I—XIV árg.)

| | Óseld rit 7. febr. '33 Eint. | Endursend Eint. | Alls Eint. | Seld og gefin á árinu 1933 Eint. | Óseld rit 7. febr. '34 Eint. |
|---|---|---|---|---|---|
| 1. árg. .... | 647 | 0 | 647 | 4 | 643 |
| 2. árg. .... | 290 | 0 | 290 | 3 | 287 |
| 3. árg. .... | 64 | 0 | 64 | 2 | 62 |
| 4. árg. .... | 246 | 0 | 246 | 3 | 243 |
| 5. árg. .... | 257 | 0 | 257 | 4 | 253 |
| 6. árg. .... | 380 | 0 | 380 | 2 | 378 |
| 7. árg. .... | 349 | 0 | 349 | 2 | 347 |
| 8. árg. .... | 305 | 1 | 306 | 1 | 305 |
| 9. árg. .... | 213 | 1 | 214 | 1 | 213 |
| 10. árg. .... | 389 | 0 | 389 | 1 | 388 |
| 11. árg. .... | 302 | 1 | 303 | 1 | 302 |
| 12. árg. .... | 597 | 2 | 599 | 5 | 594 |
| 13. árg. .... | 430 | 10 | 440 | 94 | 346 |
| ALLS ........ | 4469 | 15 | 4484 | 123 | 4361 |
| 14. árg. .... | 1000 | 0 | 1000 | 631 | 369 |
| 1-14 árg. | 5469 | 15 | 5484 | 754 | 4730 |

**B. E. Johnson.**

**Yfirlit yfir sjóði félagsins.**

| | |
|---|---|
| 15. febr. 1933 í Byggingarsjóði | $ 28.85 |
| 15. febr. 1934, Vextir ........... | .72 |
| | 29.57 |
| 15. febr. 1933, í Ingólfssjóði.. | 801.38 |
| 15. febr. 1934 Vextir ............... | 20.03 |
| | 821.41 |
| 15. febr. 1933, í Selskinnusjóði | 128.84 |
| 15. febr. 1934, Vextir ............... | 3.22 |
| | $132.06 |
| 30. jan. 1934, Sent Stúdentaráði Íslands ........................ | $132.06 |

| | |
|---|---|
| 15. febr. 1933, í Rithöfundasj. | 120.76 |
| 15. febr. 1934, Innb. á árinu | 144.00 |
| 15. febr. 1934, Vextir ........... | 4.29 |
| | 269.05 |
| Útgjöld ........................................ | 90.00 |
| | 179.05 |
| 15. febr. 1934, í Leifs Eiríkss. myndastyttusjóð: Gjafir .... | 63.55 |
| 15. febr. 1934, Inneign fél..... | 1,114.00 |
| | $2,207.58 |

**Árni Eggertsson.**

15. febr. 1934.
Yfirskoðað og rétt fundið,
**Guðmann Levy, Walter Jóhannson.**

**Skýrsla yfir eignir félagsins.**

| | |
|---|---|
| Tímarit I.—XIII., 4,361 eint., á 30c hvert ............................ | $1,308.30 |
| Tímarit XIV., 369 eint. á 50c | 184.50 |
| Tímarit hjá E. P. Briem, R.vík 1,069 eint. I—XIV. árg., kr. | 4,154.40 |
| 33 1/3% frá .....................kr. | 1,384.80 |
| kr. | 2,769,60 |
| Alls net (á 20c krónan) ........$ | 553.92 |
| Svipleiftur Samtíðarmanna, 136 eint. á 75c .................... | 102.00 |
| Bókask. ritvél og fl. eignir....$ | 65.00 |
| Bókasafn Fróns ........................ | 656.63 |
| Í sjóðum félagsins ...................... | 2,207.58 |
| | $5,077.93 |

13. febr. 1934.
Auglýsingar í 15. árg. Tímaritsins, umsamið ........$1,353.50

# Auglýsingaskrá

(Framh. frá bls. 13)
Bjarni Skagfjörð
Mrs. Jafeta Skagfjörð
Þorleifur Skagfjörð
Mrs. Friðbjörg Stefánsson
Helgi Sturlaugsson
Ágúst Sæmundsson
Theodór Thorðarson
Bjarni Thorsteinsson
Mrs. Björg Thorsteinsson
Mrs. Helga Lauretta Thorsteinsson
Th. S. Thorsteinsson
Einar Thorvaldsson
Walter Walterson

*B—"Frón" Winnipeg, Man.*
Stefán Abrahamsson
Jón Ásgeirsson
Mrs. Oddný Ásgeirsson
Mrs. K. J. Backman
Stefán Baldvinsson
A. S. Bardal
Jóh. Beck
Sigfús Benediktsson
Skúli Benjamínsson
Gísli Bergvinsson
Þorkell Bergvinsson
J. J. Bildfell
Mrs. J. J. Bildfell
Guðmundur Bjarnason
Mrs. Jóhanna Bjarnason
Mrs. María Bjarnason
Ólafur Bjarnason
Sigurður Bjarnason
A. J. Björnsson
Davíð Björnsson
Mrs. Gróa Brynjólfsson
Gunnar Brynjólfsson
Mrs. Margrét Byron
Miss Friðmunda Christie
Mrs. Ragnheiður Davíðsson
Árni Eggertsson
Jón Einarsson
Stefán Einarsson
Guðm. Eiríksson
Mrs. Guðm. Eiríksson
Mrs. Jóhanna Ellis
Guðm. E. Eyford
Bjarni Finnsson
Mrs. Hallbera Gíslason
Mrs. Sesselja Gottskálkson
Mrs. Ingibjörg Gunnarsson
Miss Elín Hall
Miss Björg Hallsson
Karl Hansson
Thorleifur Hansson
Mrs. Oddný Helgason
Guðjón K. Hjaltalín
Mrs. Jóhanna Hólm
Miss Sigr)ður Jakobsson
Steindór Jakobsson
Mrs. Björg Jóhannesdóttir
Mrs. Ásm. Jóhannesson
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson
A. P. Jóhannsson
Grettir L. Jóhannsson
J. W. Jóhannsson
Stefán Jóhannsson
B. E. Johnson
Mrs. B. E. Johnson
Bergþór K. Johnson
Gísli Johnson
Mrs. Guðrún H. Johnson
Magnús Johnson
Mrs. Oddfríður Johnson
Thorarinn Victor Johnson
Jónas Jónasson
Karl Jónasson
Jón Jónatansson
Einar P. Jónsson
Gísli Jónsson
Friðrik Kristjánsson
Mrs. Hlaðgerður Kristjánsson
Jakob F. Kristjánsson
Mrs. Jakob F. Kristjánsson
Lúðvík Kristjánsson
Mrs. Lúðvík Kristjánsson
Kristján Kristjánsson
S. B. Kristjánsson
Guðmann Levy
Björn Lindal
Hannes J. Lindal

Mrs. Svava S. Lindal
Ari G. Magnússon
Böðvar Magnússon
Gísli P. Magnússon
Guðmundur Magnússon
Mrs. Jón Magnússon
Jón Magnússon
Magnús E. Magnússon
Miss Steinunn Magnússon
Jón Markússon
Séra, Rúnólfur Marteinsson
Mrs. Ingunn Marteinsson
Loftur Matthews
Mrs. Jóhanna Melsted
Mrs. Sigurður Oddleifsson
Mrs. Anna Ólafsson
Sigtryggur Ólafsson
Mrs. Th. Ólafsson
P. S. Pálsson
Mrs. P. S. Pálsson
Miss Margrét Pálsson
Miss Stefanía Pálsson
Mrs. Doróthea Pétursson
Hannes Pétursson
Mrs. Hólmfríður Pétursson
Jóhanna Pétursson
Ólafur Pétursson
Séra Phillip Pétursson
Dr. Rögnvaldur Pétursson
Mrs. R. Pétursson
Miss Margrét Pétursson
Ólafur Ptursson
Pétur Jónas Pétursson
Thorvaldur Pétursson
Jóhann Sigmundsson
Mrs. Jóhann Sigmundsson
Sigurður Sigmundsson
Eiríkur H. Sigurðsson
Mrs. Jódís Sigurðsson
Miss Guðbjörg Sigurðsson
Miss Guðrún Sigurðsson
Halldór Sigurðsson
Pétur Sigurðsson
Mrs. Sigurlaug Sigurðsson
Sveinn Sigurðsson
Sigurbjörn Sigurjónsson
Hreiðar Skaftfeld
Magnús Skaftfeld
Jack Snydal
Ingi Stefánsson
Jósef Stefánsson
Ragnar A. Stefánsson
Mrs. Rannveig K. Stefánsson
Friðrik Swanson
Mrs. Sigríður Swanson
Einar Thompson
Eiríkur Thorbergsson
Miss Þorgerður Thordarson
Soffonías Thorkelsson
Mrs. Jóhanna Thorkelsson
Carl Thorláksson
Mrs. Guðrún Thorsteinsson
Vigfús Thorsteinsson
Örn Thorsteinsson
G. S. Thorvaldsson
Sigurður Vilhjálmsson

*"Iðunn" Leslie, Sask.*

Mrs. Stefán Anderson
Stefán Anderson
Rósmundur Árnason
Mrs. H. D. Bjóla
Ingólfur Bjarnason
Bjarni Davíðsson
Kristján Erlendsson
Gabríel Gabríelsson
Kristján Gabríelsson
Ásgeir Gíslason
Halldór Gíslason
Páll Guðmundsson
Þorsteinn Guðmundsson
H. J. Helgason
Hjálmur Helgason
Stefán Helgason
Jón Janusson
Séra G. P. Johnson
M. Kristjánsson

Páll Magnússon
Lárus B. Nordal
Mrs. Rósa Nordal
S. G. Nordal
Jón Ólafsson
Kristján Ólafsson
Stefán Ólafsson
Valdimar Pálsson
W. H. Paulson
Anna Sigbjörnsson
Sigbjörn Sigbjörnsson
Jóhann Sigbjörnsson
Jón Stefánsson
Helgi Steinberg
Mrs. Helgi Steinberg
Mrs. Sigríður Sigurðsson
Joe Thorsteinsson
Th. Thorsteinsson
Þorsteinn Þorsteinsson

*C—"Ísland" Brown, Man.*

Thórhallur Einarsson
J. S. Gillis
Ragnar Gillis
Andy Gíslason
J. M. Gíslason
Lárus Gíslason
Th. J. Gíslason
Mrs. Th. J. Gíslason
Leonard Helgason
Jóhannes H. Húnfjörð
Jón J. Húnfjörð
J. B. Johnson
Mrs. J. B. Johnson
Mrs. T. F. Lindal
Árni Ólafsson
Halldór Ólafsson
T. M. Ólafsson
Sigurður Ólafsson
W. Ólafsson
Jónatan Thomasson

*D—"Snæfell" Churchbridge, Sask.*

Guðmundur Árnason
Magnús Bjarnason
Séra S. S. Christophersson
Konráð Eyjólfsson
G. F. Gíslason
Jón Gíslason
Eyjólfur Gunnarsson
Mrs. G. Gunnarsson
Ólafur Gunnarsson
Björn Hinriksson
Magnús Hinriksson
Árni E. Johnson
Jón Johnson
Kristján Johnson
Kristján Kristjánsson
G. J. Markússon
Einar Sigurðsson
Mrs. H. Sigurðsson
Jón Valberg

*F—"Fjallkonan" Wynyard, Sask.*

S. S. Anderson
Tryggvi S. Anderson
Hallgrímur Axdal
Vigfús Baldvinsson
F. J. Bardal
Thorhallur Bardal
Th. Bardal
Steini A. Bergman
Mrs. Guðrún E. Bjarnason
Sigga Björnsson
Árni G. Eggertsson
Sigurjón Eiríksson
Mrs. Matthildur Friðriksson
Th. Gauti
Mrs. Th. Gauti
Gunnlaugur Gíslason
Mrs. Halldóra Gíslason
Valdimar Gíslason
Guðmundur Goodman
C. H. Grímsson
H. Guðjónsson
Gunnar Guðmundsson
Ástvaldur S. Hall
Ólafur Hall
Magnus Ingimarsson
Gunnar Jóhannsson
Jón Jóhannsson
Halldór Johnson
Mrs. Jakobína Johnson
Júlíus Johnson

Sigurður Johnson
Valdimar Johnson
Magnús Jonasson
Th. Jónasson
Mrs. Ragnh. Kristjánsson
Grímur Laxdal
Ingibjörg Lindal
Ingi Magnússon
Fríða Pálsson
J. A. Reykdal
Árni Sigurðsson
Mrs. Árni Sigurðsson
Ólafur Stefánsson
Mrs. Helga Westdal

*G—Sambandsdeildin "Vísir" The Icelandic Association of Chicago*

Oliver Alfred
Mrs. Oliver Alfred
Miss Alexandria Anderson
Egill Anderson
Mrs. Egill Anderson
Peter Anderson
Mrs. Peter Anderson
Mrs. Ragna Barnes
Miss Viola Barnes
Mrs. H. Bergman
Miss Aurora Björnson
J. S. Björnson
Mrs. S. K. Björnson
Paul Björnson
Mrs. Paul Björnson
T. Brynjólfson
Mrs. T. Brynjólfson
Miss Dorothy Clemens
Paul Einarsson
Mrs. Paul Einarson
Egill Erlendson
Walter Frisk
Mrs. Walter Frisk
John Gíslason
Joe Goodman
Mrs. Joe Goodman
Miss Thora Goodman
S. W. Guðmundson
Mrs. S. W. Guðmundson
J. C. Guðmundson
Mrs. J. C. Guðmundson
P. J. Halldórson
Mrs. P. J. Halldórson
Miss Sophia Halldórson
Mrs. S. Hannesson
Miss Ellen Hannesson
Árni Helgason
Mrs. Árni Helgason
J. S. Johnson
Mrs. J. S. Johnson
Karl Kjarvel
G. Kristjánsson
Mrs. G. Kristjánsson
Miss Octavía Leifur
J. E. McLeod
Mrs. J. E. McLeod
W. Paul
Mrs. W. Paul
H. Reykjalín
Mrs. H. Reykjalín
Miss Þórdís Reykjalín
J. J. Samson
Mrs. J. J. Samson
Leó Sólmundson
Mrs. Leó Sólmundson
Sveinn Storm
Mrs. Sveinn Storm
Mrs. J. S. Strodtz
W. H. Taylor
Mrs. W. H. Taylor
Mrs. C. H. Thordarson
Mrs. Ingibjörg Thordarson
Miss Dorothy Thordarson
Miss S. K. Thorlákson
B. V. Thor
Mrs. B. V. Thor

*H—Sambandsdeildin "Fálkinn" Winnipeg, Man. Karlmenn*

Skúli Anderson
Cecil Anderson
Oli Anderson
Carl Björnsson
Jón S. Bjarnason
Ed. Breckman
Halldór S. Bjarnason

Otto Bjarnason
W. D. Bjarnason
Charlie Benson
A. S. Bardal
Dr. A. Blöndal
D. Dunn
Geo. Cooney
W. A. Davidson
Árni Eggertsson
G. Eiríksson
Ármann Frederickson
Paul Frederickson
Marino Frederickson
V. V. Goodman
Paul Goodman
Frank Gillies
Thormar Gillies
Orville Hafliðason
Carl Hallsson
K. Harman
Oscar Helgason
Rob't Helgason
F. Hughes
Adolph Jóhannesson
Árni Jóhannesson
Grímur Jóhannesson
Matt. Jóhannesson
Ingi Jóhannesson
Rob't Jóhannesson
J. W. Johannsson
K. W. Jóhannsson
Albert Johnson
Steve Johnson
Óli Kárdal
Karl Kristjánsson
Leonard Kernested
W. J. Lindal, K.C.
A. G. Magnússon
S. Matthew
W. Marr
W. Miles
A. Metzler
Ben. Ólafsson
Árni Ólafsson
Dr. B. H. Olson
Óli Olson
Stewart Paterson
Konnie Polson
T. Russell
Peter Sigurdson
S. B. Sturlaugsson
Steve Sölvason
Jack Snidal
Roy Sheffley
Olgeir Skaftfeld
Paul Skaftfeld
Victor Sigurdson
Thor. Sigmundsson
Sig. Sigmundsson
Gordon Stephenson
A. Sherrington
Fred Thordarson
Jónas Thordarson
S. Tennant
O. S. Thorgeirsson, Jr.
Carl Thorlaksson
Dr. P. H. Thorlaksson
J. T. Thorson, K.C.
G. S. Thorvaldsson
T. E. Thorsteinsson
Sam Laxdal
J. White

*Drengir*

Jack Bruce
Rob't Bruce
Erick Eiríksson
Billy Goodman
Lindal Hallgrímsson
Franklin Hallgrímsson
Frederick Kristjánsson
Norman Magnússon
Clarence Magnússon
Rob't Nicholson
Pétur Pétursson
Pétur B. Pétursson
Siggi Pétursson
Thor Sigurdsson
Jóhann Sigurðsson
George Bader
B. Bader

*Stúlkur*

Bena Anderson
Bertha Anderson
Myrtle Benson
Sólveig Bjarnason
Clara Björnsson
Kathie Bruce
Margaret Chatterson
Lillian Clemens
Alda Davidson
Doris Edmundson
Thelma Eiríksson
Sigríður Eiríksson
Marion Erlendsson
Frances Gillies
Gladys Gillies
May Howardson
Helga Henrickson
Thelma Pálsson
Aurora Johnson
Esther Johnson
Freda Johnson
Laura Johnson
Harriet Johnson
Myrtle Johnson
Anna Jóhannesson
Dorothy Jóhannesson
Christine Júlíus
Olive Sigmundsson
Guðný Sigmundsson
Sigríður Sandberg
Elsie Sigurdson
Eleanor Scott

6. DÁNARSKRÁ

Kristín Borgfjörð,
Keewatin, Ont.
Sæmundur Sigurðsson,
Mountain, N. Dak.
Gunnlögur Johnson,
Mountain, N. Dak.
Sigurjón Bergvinsson,
Gísli Árnason
Brown, Man.
Gunnar Líndal,
Mozart, Sask.
Frú Sigríður Jóhannsson,
Winnipeg, Man.
Guðmundur Pálsson,
Ashern, Man.
Björg Hallsson,
Winnipeg, Man.
Sigurbjörn Jónsson,
Selkirk, Man.
Guðmundur Stefánsson,
Leslie, Sask.
Ingimar Ingjaldsson,
Winnipeg, Man.